Óðarsmíði illu hallar,
það auðarhlíði vill ei falla,
ljóðaprýði, snilli snjalla
snara hér ei sjá kantú.
*Óskir tíðkar auðarbrú.*
Fróðir af sníði fullan galla,
friðurinn blíði stillir valla
skorðu skýra.
:|: *Þá má hún lukku* :|: *stýra.*

*Finis. S. O.*
*Anno 1637, 20. februarij.*

## ÞEGAR KERTI VORU STEYPT HRUTU ÞESSAR VÍSUR TIL GAMANS. Anno 1636.

[Vísnakver S^r Stefáns A M. 439. 12mo.]

Bar svo til að brúðir fóru
blíðar eitt sinn kerti að smíða,
staðarins þetta þrælar fréttu
og þangað gerðu hart að spranga.

Veittu allir víst með snilli
virðar góða liðsemd fljóðum,
brutu við og báru síðan
að báli stóru í eldaskála.

Á hlóðir settu sjólar pottinn,
svanga eptir floti langar,
byrgðu munn, en bundu um skjanna
í brælufullri reykjarsvælu.

Þegar búið var að bræða mörinn,
binda reip og kertin steypa,
þustu allir þá með hasti
þegnar fjórir að hákon stórum.

Með ausu Finni flensar grannur
feiti, en Pétur að hömsum leitar,
Hafur ei grand af gráða leifir,
en gildur Jón réð flotinu þjóna.

Allir þessir ýtar sulla
innan um strokk, en skeggið Finna
mataðist alt í megnu floti,
svo menn ei gerla hans ásján kenna.

Mettaðist lítið maðurinn stutti,
þó munninn, hendur og skeggið þunna
makaði alt í mörnum smelta,
minnilegt var að sjá hann Finna.

Pétur einnig pilturinn stútir
pratalegur strokks við gatið,
gráðugur öllu í gumpinn sullar,
svo grimmlega tónaði lærafrónið.

---

16. Hákon = ketill, segir Jón Sigurðsson.

Úr pokanum, sýu og potti sleikir,
pilturinn vill ei nokkuð spillist,
klóraði alt, þegar komst í færi
með klónum reip sem lykkjur sleipar.

Kauðinn Hafur kokks með sleifum
kotalega hann veiddi flotið,
bar sig vel úr börmum klóra
breytilegur strokksins feiti.

Af myrkum reyk varð maðurinn sjúkur,
svo megnaði ekki frúnum gegna,
vatnið rann um kauðans kinnur,
hann kveinaði dátt og fór að hátta.

Garpurinn Jón með grunnum spæni
gautalegur kunni stauta,
svo bringan öll af bófans sulli
og brókin góða í feiti rjóðast.

---

## Rafn Jónsson á Ketilsstöðum.

[Útg. bls. 181; Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. Espólíns Árb. VI, bls. 62 við árið 1631. Jón Espólín segir þar: „Hann (ɔ: Rafn) átti deilur miklar við Ólaf prófast Einarsson í Kirkjubæ, og ritaði prófastur höfuðsmanni um hans athæfi, og neðan á bréfið kveðling þenna:

Ribbalda þessum ryð þú burt
með rótum sínum öllum,
svo enginn fái upp hann spurt
á víðlendi né fjöllum,
auðmjúkan planta í hans stað,
sem elskar friðinn mæta
og sambúð sæta,
sér það fólkið, og þá mun það
þinna boðorða gæta.

Var honum þá leyft að setja Rafn í varðhald, en Stefán son Ólafs prófasts var hinn mesti vin Rafns, gerði hann varan við, og kom honum undan". Jón stud. mag. sonur séra Finns þorsteinssonar á Klippstað segir 10/10 1884, að S[r] Ólafur hafi ætlað að taka Rafn í kirkju, en Stefán hafi komizt á snoðir um það og farið til Rafns og kveðið við hann vísuna, svo hann yrði áskynja þess, hvað til stæði. Daði Níelsson segir í prestaæfum sínum, að þeir feðgar, S[r] Ólafur og Stefán, hafi átt í brösum út úr þessu um nokkra hríð. Daði getur þess að Stefán hafi verið ungur, en það er þó ótrúlegt að svo hafi verið, og er það ókliklegt að hann 11—12 ára hafi farið að standa í stórdeilu við föður sinn. Annaðhvort mun það vera of snemt að telja vísuna orta 1631, eins og Jón Espólín gerir, eða S[r] Stefán mun vera fæddur nokkru fyr en alment er talið (1619—20), eða svo sem 1614—16. En þó er þetta ekki víst.]

---

Nú vill ekki standa um stafn
stöðugan vin að fanga,
þó allir beinist að þér, Rafn,
undan skal eg ganga.

---

# Vísur.

## I.

Um einn af þénurum biskups mag. Brynjólfs, er hafði drukkið sig of drukkinn í visitaziuferð.

[Útg. bls. 183—84; J Sig. 82. 8vo.; Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo. Vísan mun vera ort á árunum 1641—42, þegar Sr Stefán var sveinn Brynjólfs biskups.]

Ölinu fylgja ósköp slík,
allir verða að svíni.
Segðu hann liggi í Syðri-Vík
seyddur af brennivíni.

## II.

Um ófæra á að morgni, sem var fær kvöldinu áður, en Brynjólfur biskup vildi eigi gefa prestum sínum leyfi yfir að fara vegna yfirstandandi prestastefnuréttar.

[Útg. bls. 149; Jóns Stefánssonar hdr.; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82.; Stokkahlaðabók. Mun vera ort um sama leyti og næsta vísa á undan (1641—42).]

Áin er ófær,
ótíðindi frábær,
episcopus óvær
engum slepti í gær,
þó var áin þá fær,
þurrar vætti ei hundsklær,
ólgir nú sem einn sær,
aldrei það mein grær.

---

II. 2. ótíðindin, Sp; 3. óvær, getgáta Dr. Guðbrands Vigfússonar munnleg $^3/_9$ 1884 fyrir ófær; 8. þetta mein Sp.

## III.

### Á Ingólfshaugi.

[Útg. bls. 148—149; Snót Rvík 1865 bls. 333; Jóns Stefánss. hdr.; Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; Bmfél. d. á Ísl. Nr. 111. 8vo.; J Sig. 82. 8vo.; J Sig. 271. 4to. með hendi Halldórs Hjálmarssonar; Hálfdánarbók. H getur eigi yfir hvers haugi vísan sé kveðin. Flest handritin hafa þessa fyrirsögn: „Kveðið ex tempore yfir haug Ingólfs landnámsmanns, að skipun biskups Brynjólfs, meðan hinir aðrir þénarar hlóðu vörðu yfir haugnum“. Vísan er því ort á árunum 1641—42, þegar Sr Stefán var sveinn Brynjólfs biskups.]

Stóð af steindu smíði
staður fornmanns hlaðinn,
hlóðu að herrans boði
heiðiteikn yfir leiði;
haugur var hár og fagur
hrundinn saman á grundu,
en draugur dimmur og magur
drundi björgum undir.

---

## Superbia.

---

## I.

[Útg. bls. 165—66; Páls safn Nr. 1. 8vo. XXII. lítill snepill festur inn í expl. Páls af útg. kvæðanna bls. 165, og

---

III. Stóð að St, H, Bm, Sp; 2. formanns Bm, H, S, Sp, St; 4. heiðið, Snót; heiðateikn Bm, H E, H, R, S, Sp, St; 8. í björgum Útg., Snót.

sýnist vera með líkri hendi þorsteins Gíslasonar á Stokkahlöðum; J Sig. 271. 4to. orðamunur Páls eptir Sr Grimólfi; British Museum Nr. 11,185. 8vo., vísurnar hér ekki saman; Stokkahlaðabók; V = Varðgjárkver; Rask. 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. það fer tvennum sögum um, eptir hvern þessi vísa sé. Sumir eigna hana Hallgrími Péturssyni, en sumir Sr Stefáni. Merkustu afskriftunum ber saman um það, að vísan sé um Sr Arngrím Jónsson lærða á Melstað, og er hún því ort fyrir 27. júní 1648, sem er dauðadagur Sr Arngríms (Ol. Worm. Epist. bls. 1069). P hefur þessa fyrirsögn: „Vísa Sr Steffans um Sr Arngr. á Melstað, kveðin á alþingi", og er vísan því líkliga frá 1641—42, þegar Sr Stefán var amanuensis Brynjólfs biskups, ef hún er eptir hann. Varðgjárkver eignar hana Sr Hallgrími: „Sr Hallgrímur Pétursson sá Sr Arngrím Jónsson frá Melstað á þingi". Jón Ólafsson frá Grunnavík tilfærir þessa vísu í æfisögu Arngríms í Add. Nr. 47 A. fol. bls. 30, og fer þar um þessum orðum: „Menn segja, að hann (ɔ: Sr Arngrímur) hafi verið þóttalegur í fasi og framgöngu, og státað sig nokkuð. því bar svo við, að einu sinni á alþingi, þá Sr Arngrímur var að ganga um gólf, eður spatziera fyrir sig alleina, þar fyrir neðan á lögréttu eyrinni, en Sr Hallgrímur skáld Pétursson lá þar fyrir ofan, uppi í hallinum (sic), og var að tala við ýmsa menn og gamna sér við smádrengi og leit Sr Arngrím ganga niðri á eyrinni fyrir sig alleina, skyldi hann kveðið hafa stöku þessa"]:

Eins og forinn feitur
féuu mögru hjá
stendur strembileitur
stórri þúfu á,
þegir og þykist frjáls,
þetta kennir prjáls,

---

Superbia. Fyrirsögn: Um oflátung Útg. I. 1. Svo er V; forinn (á d. faar J Ól) = forustusauður(inn); 2. öðru

reygir hann sig og réttir upp
róuna til hálfs,
sprettir úr sporum með státi
og sparðar af *gravitate*.

II.

[Útg. bls. 166; Stokkahlaðabók; British Museum 11,185. 8vo.; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo.; öllum afskr. ber saman. Hvergi tilgreint um hvern þessi vísa sé.]

Kátlegur kúluvambi
með kemdu hnakkadrambi
allur stár á strambi,
stútir að á með lambi,
lúinn á þessu þambi
því er ei von að rambi,
né hreyki hanakambi,
hentugur er honum skjambi.

---

## GUÐMUNDUR SNIKKARI.

[Útg. 124—25; Grundarkver; hdr. Jóns Stefánssonar (brot); Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 271. 4to. (Halldór Hjálmarsson); J Sig. 82. 8vo. bls. 207—10; J Jig. 271. 4to. (orðam. Páls eptir Sr Grímólfi); British Museum 11,185.

---

hjá Útg. St, Br, Sp, R; 6. brjáls Útg. R, St, Sp, Br; 7. rembilegur réttir upp Útg., St, Sp, R, Br; rembir hann sig og Gr; 9. með sl. V, J Ól. P ofl.; 10. at sl. mörg af hdrr. II. 4. stúta að e-u = hyggja (gæta) að e-u.

8vo.; þingeyrab. bls. 154—55; Páls safn Nr. 1. 8vo. XXII. bindi (orðamunur innskr. í expl. Páls); Hálfdánarbók mín; Jón Ólafss. Grunnvíkingur vitnar opt í þetta kvæði, í orðab. sinni undir: bregða, brjóta, brún, enda, hýrast, Add. B. U. H. Nr. 6. 4to., Nr. 8. 4to. bls. 2846, 2928, og víðar. Hann segir að Guðmundur þessi hafi verið í Kaupmannahöfn um eða fyrir 1650. Kvæðið ætti eptir því að vera ort á árunum 1643—1648, þegar Stefán var í Höfn. En sé þetta Gnðmundur Vest, sonur Jasons Vests hins enska, sem var kaupmaður á Eyrarbakka, þá hefur Guðmundur orðið gamall, því hann er enn á lífi um 1711 og er þá riðinn við galdrakversmál (sbr. J. Esp. Árb. IX. 6.)].

---

Gvendur hér um Hafnar stræti
heflar títt með drykkjulæti,
glösum byltir og glottir hátt,
keflum lofaði meyju mætri
mat svo tíðum hjá henni æti,
en svíkur þó seima gátt.

Einatt hýrist inn hjá Jóni,
endanum snýr að kakalóni,
víkur sér uppá vinstri hlið,
tappanum frá eg hann tíðum þjóni,
tekur krús með háum sóni,
skrátóma skilst hann við.

---

Fyrirsögn: Um Guðmund snikkara Þ, H E; um Gvönd West Br, Gr; 3. glósum byltis(!) Útg. (neðanm.); bætir(!) St; veltir Útg.; 5. svo hjá henni tíðum æti G, Br, H; 6. en sl. Útg., Br; 10. tappara Útg.; tapparanum S, R, St;

Ýmugustur er oss á kalli,
af því honum sá fylgir galli
að meistari endist enginn hans,
urðu þeir fyrir þessu svalli,
því trú eg hann um stokkinn lalli
næmur á nautadans.

Eitt sinn komst hann í kreppu eina
fyrir kopardalinn, er fékk hjá Steina,
hinn helgi Blasíus hélt á braut,
stímaði nóg við staðarins sveina
stundir tvær og þar til eina
sigur um síðir hlaut.

Síðan drifhvít segl upp þandi,
setti kóss að Ísalandi,
með sér hafði mél og brauð,
snekkjubotn fyrir Bakkasandi

---

tappanum trú eg Gr, Br; 13. ýmigustur Br; 15. að sl. Br, J Ól; 16. urðu þrír Útg.; þessu falli Br, Gr; 18. vanur á(!) Br; 20. sem fékk hann Steina Gr; af kopardal, er Útg., H, H E, Sp; 21. hinn helgi Blasíus hljóp á braut Sp; Blasíus hann tók braut Br, Gr, Þ; Blasíus fór á braut H E, R, S, St; 22. mjög við Br; 24. þraut Útg.; 25. drifhvítt Útg.; út þandi Gr, Þ; 26. kóss, ýmist skr. svo í hdrr. eða kúrs eða kours; venjul. framb. á Ísl. mun vera kós(s), sbr. vísu eignaða Gísla Konráðssyni:

»Báðir villu börðu kós ...
ein nam fylla, en önnur jós ...

braut með hæl, svo varð að grandi
kaupmanna kærstum auð.

Halurinn þessi heflalærði
heim á stólinn brotin færði,
rykti stáli röngu frá,
árin tólf sig á því nærði,
eikitré með járnum særði,
strikaði stór og smá.

Helgan kross og herrans móður
hjó í tré, sem greinir óður,
postula tólf og Pál þar hjá,
píslarvotta glæstan gróður,
gerði stólnum mestan hróður,
svo rustum í brúnir brá.

---

28. snekkjuborð Br; 29. við hæl S, Gr; J Ól hefur seinni hluta vísunnar svo:

braut hann fyrir Bakkasandi,
bragnar lifðu (bilaði hjálp), en varð að grandi &c.

33. röngum Gr; rengum Br; 35. eikitrén Br; 37. af herrans J Ól; 38. hjó hann til Gr; í tréð Br; hjó í tré smá, greinir St; 42. svo flestum í Br, Gr.

# Pönnusmíði

## Björns Bjarnasonar 1649.

[Útg. bls. 139—140; J Sig. 271. 4to. orðam. Páls eptir S[r] Grímólfi; British Museum 11,185. 8vo. Hálfdánarbók; Stokkahlaðabók; J Sig. 92. 8vo. bl. 130; J Sig. 82. 8vo. 230—32; Rask 83. 8vo. Fyrirsögnin er svo í öllum nema K: „Skáldið lætur smíða ljósapönnu. Hún reynist ónýt. Eldakerlingin reiðist."]

Í Vallanesi vilja ei ljósin dafna,
skörin kafna,
kolur hafna
kveykja log um vökutíð;
bágt er stundum bál í eitt að safna,
kolu drafna
járnin jafna,
jeg sá aldrei verra smíð;
seggur snar
sendur var,
á sínum herðum kolin bar,
frægðar par
yfir frosinn mar
að flytja stál í hamra hríð.

Eina pönnu áttu tveir að smíða,
ekki bíða
eður láta líða

---

3. en kolur Br; 5. bágt mun verða bálið eitt K; bágt mun vera bálið heitt, Gr; bágt vill heita bál í eitt að Br; 6. kolur H E, St, R, Sp; sundur drafna Gr, Br; 10. því endur var K; 12. með frægðar par K, Gr; 17. eður sl. Útg.;

lengi undan þetta verk;
með hamraslætti sleggjurnar á ríða,
suðan stríða
vænar víða
voðir sveið og smiðjuserk.
Dæstir slá
um daga þrjá
og dumpa þetta járnið á,
margur frá
eg blundi brá,
en búin varð ei kolan sterk.

Imba stökkur upp til handa og fóta,
gerir að þjóta,
Birni og blóta,
ef búin verður kolan ei;
einatt gerir í öskustónni róta;
myrkrið ljóta
millum snóta
mælgi vekur í þagnar þey;
hún vinnur smátt,
en hrýtur hátt,

eða Gr, K; né láta Br; 19. að ríða Gr; sleggjur gerðu ríða Br; sleggjur gerðu á ríða K, H E; 21. væna H E; 23. dæsist sá Br; 24. dagana þrjá R, Br, K, Sp, H E; 26. margur þá Br; 27. við blundi brá, Br; 28. verður ei Gr; ef búin yrði Br; 30. tekur að róta Br; hún gerir að hóta K, Sp, H E; 31. og Birni að Br; 32. búin yrði Br, Gr; 33. í öskustónni opt hún gerir Br; 34. af myrkri Br; 36. mælgi vex í Br; hún rítir smátt Sp (skr. með blýant fyrir ofan); 37—38. tæta

hryglan eykur varaslátt,
týnir mátt,
en tóið grátt
tvistrast út á ringulrei.

## SNJOHOLTSFERJAN

fórst í stórum stormi.

[Útg. bls. 24—26; Stokkahlaðabók; Re = Rask. 46. 4to.; Rask 83. 8vo.; J Sig. 271. 4to. orðam. Páls eptir Sr Grímólfi; British Museum 11,185. 8vo.; þingeyrabók bls. 152—54; J Sig. 92. bls. 121—22; J Sig. 82. 8vo., bls. 34—38. Kvæðið er ort 1662 fremur en 1667, sbr. 21—22 línu kvæðisins. það er um Odd þorvarðsson í Snjóholti.]

---

*Snjóholtsferjan frægasta*
*fékk nú þrautaskil;*
*margra hafði hún kent kasta*
*og komizt fram að hyl.*
*Sitt beið hún seinasta í sumarbyl.*

Lasin veik hún héðan úr heimi,
hafði tíðum mæðst á geimi;

---

smátt en hrjóta hátt Gr, þær segja smátt en hrjóta hátt Br; 39. hryglin Gr; 40. týna Gr; smátt(!) Br; 42. alt á Br, K, H E, Gr.

aldrei sást í öfugstreymi
svo öldu lítið fyl.
*Sitt beið hún seinasta í sumarbyl.*

Gert hafa hennar festar fúna,
frétt hef eg það fyrir skömmu núna;
ofan fyrir feigðar brúna
féll hún í heljargil.
*Sitt beið hún seinasta í sumarbyl.*

Angrið gerði hann Oddur kanna
allra frægstur veiðimanna,
líður tjón með sínum svanna
á silunganna hyl.
*Sitt beið hún seinasta í sumarbyl.*

Datum sextugt og tvö ára
yfir sextán hundruð párast,
nú er ferjan feykt af kára,
féll af lausum kil'.
*Sitt beið hún seinasta í sumarbyl.*

Um óhófsveður á ári þessu
almanaks var spáð í pressu,

---

2. þrautaspil, Re; 3. kynst kasta, Br; 7. hafði hún St; velskt á Gr; velzt á geimi Br; 11. að fúna K; 12. fyrir skemstu Gr, Br, K; 14. Svo Gr; féll í gil R, Re, Sp, Útg. og getið til að eigi að vera: féll hún niður í gil.; féll í heljargil Br, þ, K; 18. hrepti tjón Br; 21. og sjö ára Br, Gr; 23. nú sem ferjan Gr, Br; 24. féll á Br, þ, K; 27. var skráð Útg, Sp, þ, R, Re, St; 31. að sl. þ; 33. á grundir

Oddur trúði ei kólors klessu,
kænan fann þar til.
*Sitt beið hún seinasta í sumarbyl.*

Meistarinn sagði að merkja fundi
megn tíðindin byggi undir;
þegar ferjan fauk um grundir
fram kom stjörnuspil.
*Sitt beið hún seinasta í sumarbyl.*

Veiðimenn og vötnin hrína,
vantar hann Odd með ferju sína,
þar á silungs síður skína
sást fyrr honum í vil.
*Sitt beið hún seinasta í sumarbyl.*

Eitt var teikn fyrir ferju falli,
að fljóts urriðar veiddust allir,
djúpt og grunt um hængja hallir,
horaðir innst í svil.
*Sitt beið hún seinasta í sumarbyl.*

A það verð eg einnig minnast,
að engum gerir nú veiðin sinna,
hvort menn rekja út riðinn tvinna
eða renna krók í hyl.
*Sitt beið hún seinasta í sumarbyl.*

---

**Br**, Gr; 38. þar eð á St, Rc, þ, Sp; 52. som varði Gr; 53.

það batnaði víst ef bytnan fengi
bót á ný, svo varði lengi,
sauminn, rærnar, sterka strengi,
og steyptist bikuðum il.
*Sitt beið hún seinasta í sumarbyl.*

Ef flóðin trjám á fjörurnar hreyta,
fer eg nú á hann Odd að heita,
vilji hann aptur bátnum beita
borðin legg eg til.
*Sitt beið hún seinasta í sumarbyl.*

Meir en goldið mun hann ei halda,
þó mætti eg þeirrar uppreisn valda,
er áður gerði eg um að skjalda
og auka af gleðinnar spil.
*Sitt beið hún seinasta í sumarbyl.*

Væri það gott, ef vildu fleiri
veita það, til skipsins heyrir.
Nú er eg arnar leiður á leiri,
lengur hann ekki þyl.
*Sitt beið hún seinasta í sumarbyl.*

---

saumurinn Br; 62. eg þeirri Br; 63. um að skælda Br; 66. ef vildu Útg.; 68. á sl. Utg, Sp, R, Re, St; leiður af leiri K; 69. hann ei þyl Br, K.

## ODDSBRAGUR.

[Útg. bls. 18—23; Snót Rvík 1865, bls. 228—33; Stokkahlaðabók; Varðgjárbók; hdr. Jóns faktors Stefánssonar; hdr. Sr Þorvaldar Böðvarssonar; Bm = Bmfél. þykk bók 8vo. númerslaus með registri eptir Pál Pálsson (brot); C = Bmfél. nr. 108. 8vo.; T = Thotts safn nr. 489. 8vo.; Rasks safn nr. 46. 4vo. (Rasks eiginhandarrit); Rasks safn nr. 83. 8vo.; Hr = Hrafnadalskver bls. 15—18; Dr = J Sig. nr. 270. 4to. (blaðadruslur í 8vo.); J Sig. nr. 271. 4to. (blöð með hendi Halldórs konrektors Hjálmarssonar í 8vo.); J = J Sig. nr. 271. 4to. (blöð í 8vo. með fiskr.); Páls safn Nr. 1. 8vo. XXII. b. tilgr. höf. (orðam. sem Páll hefur skrifað í expl. sitt); British Museum nr. 11,185. 8vo. (brot); L = J Árn. B. III. 8vo., bls. 169—171; A = Bmfél. d. á Ísl. nr. 111. 8vo.; Þingeyrabók bls. 148—52; J Sig. nr. 92. 8vo., bl. 118—21; D = J Árn. A. II. 8vo.; J Sig. nr. 82. 8vo., bls. 27—34 (syrpa með kvæðum Sr Stefáns); J Sig. nr. 271. 4to. orðamunur með hendi Páls Pálssonar eptir hdr. Sr Gríms Bessasonar; J A = J Sig. nr. 271. 4to. orðam. með hendi Páls eptir hdr. Jóns Árnasonar; J Ól = Jón Ólafsson Grunnvíkingur, tilvitnanir hans í Oddsbrag, í orðabók hans undir: barki, barn, bolli, branda, brúður, fagur, fans, gaflkæna, gegna, hvelja (hvalur), leikur, unggæði og víðar, Add. B. U. H. nr. 2. 4to. (Polychr.) p. 122, nr. 6. 4to., p. 241 og 875, nr. 7. 4to., p. 3410 (1410), 3414 (1414), nr. 8. 4to., p. 2417, 2484 og víðar. HE = Hálfdánarbók mín; O = Orðamunur við ýms kvæði Sr Stef. með fiskr. J Sig. 271. 4to. (8vo.)].

---

Bragurinn rís um bátinn einn,
er brögnum þótti auðnuseinn,

---

Fyrirsögn: Ferjubragur Odds Þorvarðssonar Útg. St, R, K, A, Sp; 2. sem brögnum þótti happaseinn Bm; brögnum

Oddur hét sá átti hann,
af öllum haldinn veiðimann.
Rekkurinn ekki reiðast mun við réttan sann.

Á Snjóholtsvötnum snekkjan fast
snaka átti hlunns við kast,
og plógs að leita í reyðar rann
með ráði því, sem Loki fann.
Mikið vogað einatt er fyrir ábatann.

Meybarn fylgdi málmaþór,
þá meisinn öldu reyna fór,
ungæðið er samt við sig,
sjá vill verkin nýstárlig.
Fárra ára fljóðið var, svo fræddi hann mig.

---

þótti hann Re, Snót, J A, V, Hr, C, T, þ, K, A, L, H, H E, O (í orðam.); 3. hét er C, Dr; 4. nefndur Dr, Sp, V: 5. reiðast má St, V, þ, H, C, K, H E; reiðast kann Bm; 6. Á sl. Útg., Snót, V, St, Bm, A, J A, Gr, Sp, Br, R, K; hjá Snjóholtsvötnum þ, Hr, Dr, L, H, D; Snjóholtspollinn C; Að Snjóholtsvötnum snekkjan vattst O; 7. Snaka gerði Útg. (í orðam.), Re, Bm; snakast gerði H E, L, V, H, J Ól., snakast átti Hr, Snót, O; snaka náði J A, D; snakast átti straums við T; snúast átti (hlés við C) D; 8. og sl. L, J A, Hr, D, Sp, H E; ploks C(!); reyða rann Gr; 9. því, er Útg., St, R, Sp, A; ráðið það hann Bm; með ráði því hann Snót, D; því, sem hann Loki H E; að ráði Br, Re (hitt í orðam.); 10. unnið einatt er Br (í orðam.); 11. átti málmaþór Bm; 12. er meisinn Útg., T, A, Sp; sem meisinn Re; 14. merkin J Ól. (undir unggæði); 15. fjögra þ; fjórtán J Ól. (orðam.); vetra Útg., D, Sp; sá fræddi mig Dr; sem fræddi mig Bm: þá fræddi mig C, H, L, H E; það fræddi mig D, J A: 16. vill í Gr,

Brúðurin vildi í bátinn gá,
en bíða ei eptir landi á,
faðirinn hélt það heimskupör,
og hana latti af þeirri för.
Hún var að kyrja upp kvæðin sín og kúrði í stör.

Út á djúpið hann Oddur dró,
ógurlega var ferjan mjó,
á henni hafði hann engan fans,
ekki bar hún þungan hans,
manndrápsbollinn marði í kaf, þá misti lands.

Barkinn rann í reginhyl,
en rumpurinn lyptist aptan til,
þegar hann Oddur þangað sezt,
þá varð nokkuð apturhlest,
sökk þá gafl, en gekk upp stafn, það gegndi verst.

---

V, T, Re, Snót, H, L, Hr, H E; 17. en sl. Snót; en búa ei C; og bíða ei Re; en bíða ekki landt á Hr, St; landi eptir V, J, H E; beint og halda landi frá D, J A; 18. halurinn hélt V, H, Þ, Hr, H E; heimskuför Bm, C; 19. og sl. Snót, Br, H E, Þ, J A; 20. upp sl. L, Dr, D, Þ, Hr, J A, Gr, H E, O; 21. Út á djúp St, V, L, H, Re, T; 22. ofurlega Útg., St, Hr, Þ, O; en ofurlega R, K; óvarlega Bm; ærilega H, V, J, L, Dr, J A, Gr, J Ól., H E; 24. en ekki bar Re, Sp; ei bar hún þó Hr, T; 25. — bolli H E; kaf og Útg., St, Sp, R; kafi og B, Re (í orðam.); kaf er S, Re, Br; 26. í reyðar hyl Bm; 27. en sl. Snót, Þ, D, H E; gekk upp aptan til D, J A; léttist aptan til T, K; 28. þegar Oddur H; þegar hann Oddur þar á sezt D, J A; þangað Oddur þegar sezt Útg., St, R, Sp, Br, K, Dr, Hr; þangað hann Oddur Re; 29. þá er (var H E) nokkuð C; 30. sökk þar gafl Útg., Re, K, Dr,

Stakst á hnífil feigðarfar,
og fleygði honum Oddi í djúpan mar,
sá hann þar hvorki sól né land,
synda kunni hann ekki grand,
eins og bjarg í botninn sökk og blautan sand.

Ekki þurfti hann Oddur staup,
ýmist drakk eða hveljur saup,
hann mátti ei bæra hendur hér,
hélt hann þeim fyrir vitin á sér,
ellegar hefði hann öndina mist í ógna hver.

Þar sá Oddur ærinn skríl,
urriða og bröndu síl,

---

H E; sökk því gafl Br, A, Gr, J; því sökk gafl St, T, R, Sp; sökkur gafl Þ; gekk upp stafn, en gaflinn sökk Hr, Bm; gekk upp stafn en niður gafl C(!); sem gegndi L, J A; 31. á hnífilinn L, A, Þ, Hr, H E; Stakst þá hnífill í feigðarfar J A; Rann á stafninn feigðarfar; 32. fleygði Oddi V, St, J A, T, C, J, K, H, Hr, D, Dr, L, S, H E; feldi hann Útg., R, Re, Br, A, Sp; 33. þar sá hann H E, H; sá hann þá Útg., St, C, Re, R, Br, Hr, Sp, A, J Ól.; sá hann hvorki T; 34. hann sl. Útg. Re, St, R, Bm, D; 35. eins og blý V, Dr, C, T, Snót, H, J, P, L, J A, D, H E, A (hvorttveggja); 36—40. vantar í Bm, H; 36. Ekkert þurfti T, K; hann sl. H E, J Ól; 37. hveljum Re; hvelju Br; 38. svó aðeins í K; mátti ei hræra hendur á sér Útg., St, R, V o. fl.; mátti ei hræra hendur hér T, C, Re, Snót, H, J, Br, Þ, Hr, H E; hendur mátti ei hræra hér J A, D; 39. vit á sér St, R; 40. öndu slept Útg., St, R, Br, K; öndu mist H, J, L, Hr, D, J A; 41. Oddur sá þar J Ól. [undir branda og Add. 7. 4to., bls. 3410 (1410), en eins og í textanum hér í Add. 6. 4to., bls. 241, 845]; ærinn ríl Bm; ærið kríl K, Dr; 42.

bæði hæng og bleikju nið,
birting sprota og þeirra lið,
eins og sæi andskotann brá öllum við.

Odd sá þekti allur -fans
alvanur við skuggann hans,
því seggurinn hafði silungs bráð
séð þar opt og líka náð,
riðið net og næmt í vatnið niður kljáð.

Hugsa gerði sveitin synd
sá þar væri, er marga kind
úr sínum hóp í hel nam slá,
og hugði kominn í djupið blá
albúinn til alt að gera upptækt þá.

---

urriðana St, Re, R; blöndu síl Sp, J Ól. (Add. 6. 4to., bls. 241, 845); 43. bleikjulið H E, V, Bm, C, Snót, Hr; 44. þeirra lið H E, V, Bm, C, Snót, Hr; 45. sæi ólukkann Útg., St, Bm, R, Snót, A, Re (í orðam.); óvininn Re, S; ósómann Hr, Þ (í orðam.), J Ól, Add. 8. 4to. p. 2484; eins og það sæi andskotann brá öllu við J A. Hér endar Bm; 46–50. vantar í S; 46. allur krans, St, Sp, J A, Gr; 47. skugga H E; kugginn Snót; 48. því sl. L, D, H E; 49. veiði náð, Snót; og einninn T, og einnig Re, R, P, Sp; 50. netið riðið og L; naumt í vatnið V, H, H E; niður sáð V; 51—55. vantar í J, D; 52. sá væri þar Re; sá væri það, er Snót, Dr; sá væri það, sem V; sá væri þetta Br, T, Gr, A, Þ, K; að sá var þetta St, Re (í orðam.), R, Sp; sá var þetta P; að sá væri það, sem H E, H; að sá væri þetta, er Hr; að sá væri það, er L; 53. úr þeim hóp Hr; úr þeirra hóp Snót; hópi hel nam slá Br; hópi hér nam slá H, H E; þeirra hópur hel nam slá (!) C; 54. hugðu hann

Urriðar með ugga gný
eggja lið til hefnda því,
sótti að Oddi sveitin öll
og sendi úr sporðum iðuföll,
þá var leikur liðinu á í laxa höll.

Fátt er svo fyrir illu opt,
að ekki boði nokkuð gott,
því iðusúgur að Oddi gjör,
ypti honum í bleika stör,
í marhálm greip með góma kleif, það gaf honum fjör.

Meyjuna aptur hitti hann,
hún var að gráta skiptapann,

---

Gr; hann væri V; og sl. Re, H, H E; í djúpið þá Dr; 56. með ugg og gný C; 58. sveitin snjöll Re; 59. sendi úr sporðum hrannar mjöll A; og sendi af sporðum hrannar mjöll (hranna mjöll H E), S, V, C, St, T, Re (í orðam.), Hr, L, Snót, R, H, J, Þ, K, Dr, Sp, Gr; sendi af sporðum boðaföll Br; sendi sporða um hrannar mjöll J A, D; og sendi á sporðum hrannarmjöll O; 61. Ilt er svo fyrir öllu fátt H E, Gr, J Ól, B; Fátt er svo fyrir illu alt J; Fátt er svo fyrir öllu ilt J A, Dr, Hr, D, C, S, Þ; Alt er (Ilt er, sum) fyrir illu fátt, S, St, V, Sp, A, L, Br, H, R, K, Re (orðam.); 63. því sl. Hr, D, H E, J A, J Ól; iðan sú O; 64. ýtti honum J Ól, Hr, L, T, D, K, J A; ýfði J; veika stör Br; 65. með gómakleip Br, J; með gómakvörn, Snót; þreif með gómakleif, er Re; hann greip til lands með gómaklóru C; hann greip til lands með gómakvörn Dr; gómaknif J Ól. (annars: kleif og — töng) og segir: „Á. Magnússon maluit gómataung, utpote quod magis proprium esset að grípa með“; 70. en fær sá lausn Þ; bót D, J A; líf C, Dr, L, Re; sem fjör V, C; sem fjör T, Re; fjör var léð, öll nema Snót, H,

þetta eitt eg þar um kveð:
það var lukka hún fór ei með,
feigar deyr, en fær sá björg, sem fjör skal léð.

Þótti honum mál að kalla á Krist,
þá kom til lands, er hafði mist,
lofbrag vildi listamann
láta gera, og þetta er hann,
um sitt fall og fagra lausn úr fiskarann.

Bárutrogið bjó hann á ný
og borðum jók þar mörgum í,
lengdi kjöl, en lagaði stafn,
lagði þó við herrans nafn,
að sér skyldi ei sú ferjan fleyta í fiskasafn.

Kaupmaðurinn kom um síð,
kappinn hélt það auðnutíð;

---

J, Gr; Vísuna vantar í HE; 72. þá sl. Útg., St, Snót, R, Sp; hvert hafði V; hann kom til C; sem hafði C, J; er kom J, Þ, Hr; að komst T; þá komst til lands hvers HE, JA; er komst til lands hvers Gr; 73. lofsálm T: lofsbrag Snót, L, D; 74. láta kveða C; 75. fræga lausn C; fína lausn Þ. Erindin 66—70. og 71—75. skipta sætum í mörgum handritum; 76. Báruhaukinn C, L, H, HE; báruhestinn Snót; bárudýrið St; hann bjó Re; hann sl. H, HE; 77. en borðum J; og borðunum Re; nokkrum í C; nógum í Hr: nokkrum jók þar í Þ; 79. lagði þar við Snót, V, C, Hr; lagði við þó HE; og lagði J; 80. að sl. öll, nema Re, R, T; að sér skyldi ei optar ferjan T; ei ferjan optar fleyta C; sér skyldi ekki H; ferjan fleygja Snót, Hr; sér ei ferjan fleyta skyldi í fiskasafn P, A; sér skyldi ekki ferjan fleyta, svo í HE: 82. köppum virtist (þótti C, Dr), HE, L, H, V:

þennan grunna sævar sá
seldi hann Torfa á Hafursá,
sagði hann bæri bragna tvo og bagga þrjá.

Aðra meinar eins og sig
sá aldrei gengur véla stig,
fyrir því trúa Torfi vann
tilsögn Odds um bátinn þann,
er eptir á reyndar ekki flaut með annan mann.

Sínu liði sendi hann mót
synina tvo yfir Lagarfljót,
áttu að róa, en ranga skel
rekkum báðum sýndi hel,
alvota rak upp á sand, það ei fór vel.

kappanum þótti Snót; kalla menn það J; 83. þennan forna H E, V, H; þennan gamla Þ; 84. að Hafursá A; 86. Annan meinar, V, C, Snót, H, H E; aðra ætlar D, J A; annan ætlar Þ; 87. sem aldrei H E, L, V, H; sá ekki J; 88. þessu trúa Torfi vann C; Torfi trúa vann Þ; 90. er sl. H E, Hr, C; er eptir reyndar Sp; aldrei flaut V, H, L; en það reyndist ekki flaut D, J A; er eptir á reyndist Gr, Hr, Snót, J, Re; 91. Sína, öll nema J A, L, V, J, Hr, T, H E; fari, öll nema Útg, St, Re, Snót, R, J, Sp, sem hafa farinu, og T (sem eitt hefur: liði); sendi á mót V, D, H, T, J A, H E; 92. sonu St, J; sveina Þ, Hr; syni, hin öll, nema Útg., R, Sp (sem hafa: synina); 93. róa þeir á ranga skel V; róa þeir á röngu skel H E, L; áttu að róa ránar skel T, J; því að róa, en Útg., Snót, R. Re (í orðam.), K, A, Þ, Sp; en að reyndu hin ranga skel D, J A; illa reyndist kráküskel(!) C, Dr; þeirri að róa ránar skel O; 94. eð á undan rekkum sl. Útg., St, R, Þ, D o. fl; en rekkum T, H, H E: köppum báðum(!) C; 95. þá alvota J A;

Torfi sagði af megnum mátt,
því maðurinn þóttist leikinn grátt,
að fjandinn skyldi hann Odd og alt
eiga fyrir sitt skipið valt,
ekki nema blót og bann fyrir bátinn galt.

Örvabrjótar áttu stríð,
en Oddur kappið feldi um síð,
þó honum væri í geðinu grátt
gaflkænuna tók í sátt,
þau settust eptir samvígsluna í sömu átt.

Er hún nú komin í sinn stað,
aptur heim á Snjóholtshlað,

---

upp á land Snót, J, Gr; en ei fór vel Útg., R, St, T, A, Sp; og ei fór vel H E, Snót, C, H; 96. Torfi kallar af megni og mátt J Ól., V, C, T, Re; sagði af megn og mátt Dr, D, J A; ansaði af megni og mátt H E, H; svarar C, L, D, Hr; 97. því sl. Snót; 98. fjandann bað hann Odd og alt Dr, C: að Óðinn skyldi V, Snót, Hr, H, H E, L, Þ (hitt í orðam.); 100. Ekki annað en blót J A; Ekki neitt nema blót St, R, Re (í orðam.), Gr; 102. en sl. Hr, H E; hann Oddur kappinn féll um síð D, J A; 104. hann tók í sátt J A; 105. hann settist H E, L, H; hann settist eptir samvistina Hr; hún setti eptir samvistina J, T; hann setti aptur samvistina Þ; þeir settu aptur samvistir með sinnið kátt J A; og setti aptur á sömu átt(!) C; „þessa vísu vantar í S.“; 106. komin í annan stað C; Er hann Re; 107. alla leið við Útg., Snót, St, R; alla götu við C, Re; alla reiðu á D, J A; alla leið á Hr, Dr, H, H E, J, P, L, A, Þ, K, Sp, Gr; aptur heim T (að eins); 108. togið J A, Snót, J, Þ, D, Dr;

þar er búið um togin traust
og tekið heima vetrar naust,
kuggurinn stár á kjölnum fast, en kaup er laust.

Óvíst er hann Oddur minn
eiðinn geti haldið sinn,
þegar hann sér á sumardag,
að silungsgengdin kemst í lag.
það mun fara sem forlög kljást. Svo felli eg brag.

---

trogið O; 109. og sl. V, H E; og tekið heima í O; en tekið St; 110. kuggur Útg., J Ól.; stóð á kjölnum fast, en kaup varð laust L; á kjölnum fastur Hr; en kaupið er laust Dr; en kaupið laust J Ól., Re (í orðam.), J; 111. Óvíst er hvort Oddur H E, H; Ekki er sýnt hann Útg., R, C, St, Sp; Ekki er sagt hann J A, T, Snót, Hr, P, A, þ, D; Ekki er víst hvort V; 112. eiðinn kunni að halda Útg., Gr, St, R; eiðinn muni halda V, J A; eiðinn gæti L; eiðstaf þennan heldur H E, H; 113. því þegar L; 114. að sl. Útg., St, Snót, Sp; silungsveiðin, Snót, V, C, T, Re (hvorttveggja), S, Hr, L, H, H E, A, þ, D, J A, Gr; 115. Flest mun fara sem forlög tjá, svo felli eg brag H E, H; fer hann þá sem forlög tjá V; þá mun fara sem forlög tjá C; kljást og St, Snót, Sp, Útg., Re (í orðam.), R; tjá og, L, D, T, P, Re, A, þ, Hr; tjá svo Gr, J A. Erinda röðin í Oddsbrag er dálitið mismunandi í handritunum. Hér er fylgt þeirri, sem flest hafa, en er slept að geta um röðina í hverju einstöku.

## Spádómur Odds.

[Útg. bls. 29—30; J Sig. 271. 4to. hönd Halldórs Hjálmarss.; Stokkahlaðabók; Rask 46. 4to.; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo.; J Sig. 271. 4to. orðam. Páls eptir S[r] Grímólfi; British Museum Nr. 11,185. 8vo.; þingeyrabók bls. 178—79; Hrafnadalskver; J Sig. 92. 8vo. bls. 122—23; Hálfdánarbók; Gl = Orðam. Jóns Árnasonar eptir Blöndalsbók.]

---

Á Odd skal eg aldrei trúa
eptir þennan dag,
sá kann snældu að snúa
um snjóinn og veðralag,
að áfelli kæmi eitt,
en ekki síðar neitt,
á þorra greindi hann sólarsæld
og sumarveðrið heitt,
og ætíð yrði hann betri
upp frá miðjum vetri.

Með grimd og gráu skeggi
í garð hann þorri strauk,
þungur klepprakleggi
úr kampinum á honum rauk,

---

Spádómur Odds. Fyrirsögn: Oddur þorvarðsson spáði um veðráttufar Útg., St, R, Re, Sp; Út af spádómi Odds H; Spádómur út af Oddsbrag Gl, Hr; Oddur hinn sami spáði um vetur K; Enn um Odd H E (á undan er Oddsbragur); 4. um snjó Br, þ; 5. svo Br, Gl, H, H E; kæmi áfelli eitt Gr; því áfallið kom Hr; því áfelli kom, hin; 6. en aldrei (eigi K) Gr, H, Hr; 7. sumarsæld Br, Gl, Gr, H, H E, Hr; 8. sólarveðrið Br, Gl, Gr, H, H E, Hr; 9.

og veðrin voðahörð
veiktu menn og hjörð,
hjá honum Oddi eins og mér
alla byrgði jörð;
harðnar dag frá degi,
duga nú spárnar eigi.

Reikna eg ráð að treysta,
þó rokurnar auki ský,
þeim sem þjóð hefur leysta
þessum raunum í,
hann lætur ei bresta brauð,
bjargar oss í nauð,
enn þótt fákar falli í strá
og fækki mörgum sauð
út um álfur víða
aldrei skulum vér kvíða.

---

og altíð Útg., Br, Re, R; 14. kömpum Útg.; kömpunum H, K, R, Re, Þ; 16. sem (velktu Hr) veiktu Gr, H; er veiktu Br; 18. huldi jörð R, Útg., Þ; byrgðu Gr; 19. harðnaði Gl; 21. Tel eg með öllu að treysta Br, Hr, H E, H; Til er eitt að Gr; 22. þó táranna (eflist Br, Gr) aukist H, Hr, H E; 23. á þann, sem Gr, H E; 25. Hann lætur ei vanta börn sín brauð Br; hann lætur börn ei vanta brauð Gl, Hr, H E; 26. og bjargar Gl; bjargar þeim H; bjargar opt S; en bjargar þeim Br, Hr; börnin sín í nauð Gr; 27. enn þó H; og þó Gr; þó að Gl; 30. engu skulum Gr; ekki Gl, Hr.

# VEIÐIKVÆÐI

Ara Gíslasonar á Ekkjufelli.

[Útg. bls. 13—17; Orðamunur Páls Pálssonar í expl. hans af útg. kvæðanna, að því er sýnist eptir hdr. í safni Jóns Péturssonar; Bókmfél. d. á Ísl. Nr. 111. 8vo.; þingeyrabók; J Sig. Nr. 92. 8vo.; Stokkahlaðabók; Rask 46. 4to.; Rask 83. 8vo.: J Sig. 271. 4to. orðamunur með hendi Páls eptir Sr Grímólfi; British Museum Nr. 11,185. 8vo.; J Sig. Nr. 82. 8vo. Fyrirsögnin í Br er: Um Ara Gíslason, með viðkvæði bætir Sp við. „Viðdrag", stendur fyrir ofan í Re.]

---

*Ari minn hjá Ekkjufelli útvaldi sér stað.*
*Hann vitjar vatnsins, þá vorar að.*

Altíð fer hann til fiskileita,
þá fært er sauðum út að beita;
vita það menn, hann vel má heita
veiðinjörður brellinn.
*þar hjá Ekkjufelli.*
Legur á ís við Ara að þreyta,
engum hrökkur það.
*Hann vitjar vatnsins, þá vorar að.*

Um urriða vatnið víða
vök hefur marga gert að smíða,
eg held ráð þeim yfir það ríða,
þeir ekki á skeiðin skelli.
*þar hjá Ekkjufelli.*

---

1. á Ekkjuf. Br; 8. leggur(!) á ís Re; legur við Ara á ís að Br; liggur á þ; 11. Við aurriða Br; 13. eg tel Br;

Annars kunna ýmsir skríða
ofan í netið það.
*Hann vitjar vatnsins, þá vorar að.*

Þær eru Tuskuvökunum verri,
voðalegar hjá síðu hverri,
blakkinn, þegar hann bífur sperrir,
boraður ísinn fellir.
*Þar hjá Ekkjufelli.*
Ofan í þessar allar verrir
Ari dorgar vað.
*Hann vitjar vatnsins, þá vorar að.*

Veiðiglöpin verða af slíku,
ef varúð bregzt hjá fólki ríku,
allar skjálfa unnar bríkur
við óhófs skeifna skelli.
*Þar hjá Ekkjufelli.*
Af honum Ara silung svíkur
svellaskröltið það.
*Hann vitjar vatnsins, þá vorar að.*

Þá ónáðirnar enginn veitir,
öllum dögum legurnar þreytir,

---

14. að ekki á Br, P, Bm; að ei á K; 16. ellegar gera ýmsir hýða Br, Gr; 19—26. vantar í Br; 19. þar eru tuskuvakir verri Gr, brunna vökunum P, þ (en hefur fyrst skr. t u s k u og strykað út); 21. blakkinn þegar bífur Gr, þ; h i n: blakkurinn; 22. fellur Bm, Sp; 25. borgarvað(!) St; 27. valda slíku Gr; 28. vatnið(?) bregzt Gr; að vatnið bregzt Br; varygð þ; 30. og öldu stæltur hellir Br, Gr; 35—42. vantar í Br; 36. dögunum

urriðann með birting beitir
og bleikjum leifir elli.
*þar hjá Ekkjufelli.*
Alt eru þetta fiskar feitir
og forgóðir í spað.
*Hann vitjar vatnsins, þá vorar að.*

Ein nam hyndlan Ara að fylgja
út á djúp, þar lögð var bylgja,
leizt það krummum kátleg dylgja,
hún kösina varði á svelli.
*þar hjá Ekkjufelli.*
Sú varð grimm sem soltin ylgja,
ef sá hún þá fljúga að.
*Hann vitjar vatnsins, þá vorar að.*

Eitt sinn hremdi hrafninn reyði,
hún rann eptir vökur á skeiði
fram að vesli og ísaeyði,
ofan í trú eg hún félli.
*þar hjá Ekkjufelli.*
Ari sá hún sökk og deyði
og sviplega varð við það.
*Hann vitjar vatnsins, þá vorar að.*

---

St, Re, R, Bm; 43. nam hilnan(!) Br; 44. lögð er Br; 45. það leizt Br, Þ; 46. hún sl. Br; 48. svo lét hún sem Br, Gr; 49. er sá þá Gr; þá sá hún þá Br; 51. veiði Br, Þ, Gr; 53. fram um vötn og Gr; 54. frá eg Útg.; ofan trúi eg Re; 57. sviplegt Sp, St, R, K, Br; svipslegt var Re; 59.

þaðan af hafði hann fult í fangi,
friðlaust varð af hrafnagangi,
hrjáði veiðar hópurinn strangi
með hopp og nefjasmelli.
*Þar hjá Ekkjufelli.*
En maðurinn lá með bisti og bangi,
og brögð í tafli kvað.
*Hann vitjar vatnsins, þá vorar að.*

Síðan lætur hann sekkinn hirða,
silungana af feiti stirða,
og sterka öl fyrir opið gyrða,
að ekki fram úr velli.
*Þar hjá Ekkjufelli.*
Þjóðráð gerir hann þetta að virða,
þaðan af varð ei að.
*Hann vitjar vatnsins, þá vorar að.*

Öðru sinni ofboðs kendi,
þá öngulinn í vatnið sendi,
að fiska kongurinn fram að rendi
og fylti upp ölduhelli.
*Þar hjá Ekkjufelli.*

---

þaðan hafði í Re; þar næst hafði Br; 61. hrjáður R; hrjáði reyðar hópurinn Br; 62. og nef í smelli Br; -skelli P, Sp; 64. maðurinn var með baust og bangi Gr; en sl. Br; busl og Br; 67. lét hann Br, Gr; 68 af sl. Br; 69. fyrir ofan gyrða Br, Gr; 40. svo ekki Br, Þ; 73. það nam Ari þjóðráð virða Gr, Br; 75. Einu sinni Br, Gr: 77. að sl. Br, Gr; 78. öldu hrelli(!) Br; 80. rendi(!) St; þá sl. Gr; hann Ari Br;

Þá Ari til hans augum vendi
ákaft fyrir sér bað.
*Hann vitjar vatnsins, þá vorar að.*

Svo var hann stór í ásýnd allri,
að ekki sá fyrir sporð á kalli,
af hreystrinu stóð máttarmjalli
meir en fegursta pelli.
*Þar hjá Ekkjufelli.*
Á agnið góndi hinn átuhalli,
og ætlaði að gleypa það.
*Hann vitjar vatnsins, þá vorar að.*

Þá dró Ari að sér snæri,
því ekki vildi hann missa færi,
svo gekk hræðslan halnum næri,
að hann spratt upp af svelli.
*Þar hjá Ekkjufelli.*
Sýnd frá eg honum, en veitt ei væri
veiðin. Satt er það.
*Hann vitjar vatnsins, þá vorar að.*

Hefnir hann þess á hyski öðru
í hópatali og mörgum vöðum,

81. og ákaft Br, Gr; 88. hinn sl. Gr, Br; átuharði K; 89. gleypa í stað Re, R, P, Sp; 91. dró hann Ari Br; 92. ei vildi Br; 93. þó gekk Br; 94. stökk upp Br, Gr; 96. trú eg St, Br, P, Gr: 97. Svo fer það Gr, Br; 99. á fiskiöðum Gr; hyskiöðum Br; 100. og miklum Gr; 101. sem að honum drífa Gr; er að honum drífa Br; 102. flóðin St, Sp, Re,

er að honum þys úr ýmsum stöðum
eins og flæðin velli.
*Þar hjá Ekkjufelli.*
snarar hann því með snúning hröðum
í snjóinn og krepju svað.
*Hann vitjar vatnsins, þá vorar að.*

Niðurburðurinn veldur veiði,
vakaðist nær þar hyndlan deyði,
mjög er stundum mart á seiði,
man eg ei öll tilfelli.
*Þar hjá Ekkjufelli.*
Það lízt Ara góður greiði,
eg gef honum sónar blað.
*Hann vitjar vatnsins, þá vorar að.*

Skil eg mér af honum fiska fjóra
ferska alla og þar með stóra,
þó lítt hafi eg betur kvæðið klórað
en krummar rita á svelli.
*Þar hjá Ekkjufelli.*
Það vil eg af Ara á vakarljóra
vel sé hátónað.
*Hann vitjar vatnsins, þá vorar að.*

---

R, Bm; flóð að Br, Gr; 104. hann þeim Gr, Br, Þ; 105. krepju svað Re, Sp, K, P, Þ; í snjó og krapa svað Gr; í snjó og krepju svað Br; kreppu svað, hin; 108. hann vakaði nær Br, Gr, hilnan(!) Br; 110. eg man ei Br; 113. ljóða blað Gr; eg gefi Br; 115. Kýs eg mér Br; 116. feita bæði og líka stóra Br, Gr; 117. þó lítt sé betur Gr; 118. svellið St, Re. R; en krumma rit Gr, Br; krummi ritar Þ; 120. Þar vil eg

Gíslason er garpurinn þessi,
sem getið er um í boðnar vessi,
sá öllu ræður bið eg hann blessi,
svo bjargist alt til elli.
*Þar hjá Ekkjufelli.*
Og af fiskum færið hlessi,
þá ferðast veiðum að.
*Hann vitjar vatnsins, þá vorar að.*

---

## Rönkufóts ríma.

[Útg. bls. 1—13; J Sig. Nr. 271. 4to. blöð með hendi Halldórs konrektors Hjálmarssonar; Stokkahlaðabók Bókmentafélagsins; Rask 46. 4to. [Rasks eiginhandarrit]; Rask 83. 8vo.: Þingeyrabók J Sig. Nr. 231. 4to. bls. 191—202; British Museum Nr. 11,185. 8vo. (F Magn. 413. 8vo.); J Sig. Nr. 271. 4to. orðamunur Páls Pálssonar eptir Sr Grímólfi; Orðamunur, sem Páll hefur skrifað inn í expl. sitt af útg. kvæðanna, og sem sýnist vera tekinn eptir hdr. í safni Jóns háyfirdómara Péturssonar; J Sig. Nr. 92. 8vo. íslenzk kvæðabók komin frá Þorláki Jóhnsen; Sv = J Sig. Nr. 217. 8vo. frá Sigurði sýslum. Sverrissen, því nær samhljóða útg.; J Sig. Nr. 82. 8vo., bls. 1—20 syrpa með kvæðum Sr Stefáns. Fyrirsögnin alstaðar: Ríma af Sigurði Eyjólfssyni, sem

---

Re; vil eg aðvara á vakarljóra Br; 124. hróðrar vessi St; 126. bjargist fram til Gr; 128. blessi R; og með Gr, Br; 129. þá fer hann veiðum að Br, Gr.

kallaður var Rönkufótur, nema H, sem hefur: Ríma af Sigurði Eyjólfssyni Raunkufót. Sigurður Eyjólfsson hefur átt heima á Strönd, (sbr. 365). Páll Vídalín eða Sr þorsteinn Pétursson segja (J Sig. 30. 4to.), að þessi ríma sé kveðin eptir Flateyjar rímu Sr Magnúsar Ólafssonar í Laufási (d. 1636). Flateyjar ríma er enn til.]

---

Sigurður heitir sæmdarmaður,
sá kann veiða,
á fiskaleitir harla hraður
og hylinn breiða.

Rönkufæti veittist værð
í Vallanesi,
drjúgur næturdúrinn tærði
dags umvési.

Morgunblys, er bar að fjalli
birtu slóðir,
strax frá eg risi og klæddist kallinn
kunnur flóði.

Snærið þyngt af blýi bar
og brodd í hendi,
agnið kringt á öngli var,
svo odds ei kendi.

---

3. fiskileitir Br, Bp; heldur hraður P; 7. drjúgt um nætur dúrinn tærði Sv; dökkar nætur drjúgum tærði St; dökkrar nætar drjúgum Re, R, Sp; dökkrar nætur dúrinn H, K; dökkrar nætur dimman P, þ; 9. af fjalli Re, Sp; Morgun blés R; 11. strax sl. Br; trú eg Sp; 13. þungt Sp; 15. á aungul Br; 16. odd Útg., Re, R, Br, þ, K; 17. sekk

Sér jafnaldra sekk tók fúinn.
svo á vastri
og þrefaldra bóta búinn
burt úr klastri.

Alla stirðna á öngulhvekk
lét ársilunga,
opt til firna í þann sekk
réð inn að punga.

Átrúnaðurinn á honum var
um ærna veiði,
hængja maðurinn hann því bar
á humra seiði.

Undir hvammi öngla gleypti
állinn djúpur,
fiskadamminn fyrst þá steypti
frosta hjúpur.

Vendi ferðum veiðibrellu
vanur þangað,
stálið gerði hléþaks hellu
hart að stanga.

---

ófúinn Sp, St, Re, R; svo tók lúinn H, Br, þ; 18. sekk í vastri H, Br; með vastri P; sekk með vastri þ; 20. bar hann, klastri Re (orðam.); 20—92. er eyða í Br; 21. -hvekknum Sp, Útg., Re, R; stirða Re; Afla er stirna á öngulhrekk þ, K, Sv; af öngulhvekkjum St; 22. lét sl. öll nema H, K, þ; 28. leiði K, R, St, þ; um humra leiði H; 29. gleypir St, H, þ, Sv, Sp; 31. steypir St, H, þ, Sv, Sp; 33. -brell-

Liðið ugga losna tók
úr legu gæfri
mæniglugga, er mörgum jók
á móðu ræfri.

Ísabrjótur kaldan knúði
krók á færi,
Rönkufótur digurt dúði
dorgar snæri.

Sjáldur hvatti um báru börk
við bygðir ála,
öngull datt í aura mörk
með agnið hála.

Kvikar roð, en blaktir beita
í bárustilli,
þetta boðar bleikju feita
að biðja um fylli.

Hrogna feldu fiskar stygð
í fyrstu kveitu,
lífið seldu í laxa bygð
fyrir litla beitu.

Aurryðéndur ýmsir héngu
á egndu færi,

inn þ; 36. hart að ganga K; 37. losa Re, R, H, þ; 39. er sl. H; mikinn glugga P, þ; er morgun jók K; 48. og agnið K; 49. Kvikar voð St, H; 52. hylli Re; 54. sbr. kveita 283; 57. aurryðarnir P; aurriðarnir þ; 58. á enda færa þ;

véla kendu og vondslegt fengu
varasæri.

Hnútur mærðar birting beitu
bar að munni,
toldi flærðar teinninn feitur
í tálkna runni.

Upp nam kippa vænni veiði
úr vakar hólki,
dorga vippa deyddi reyði
á dælu tólki.

Hængir stikla, sund á svelli
sækja hörðu,
bleikjur sprikla, sporðaskelli
sprækar gjörðu.

Loksins saman sína veiði
Sigurður tíndi,
þótti gaman, gildleg reyðin
greipur klíndi

Silungshnakka ísinn á
með afli keyrði,
síðan stakk í sekkinn grá
og saman reyrði.

---

59. vondsleg H; 63. feiti þ; 74. seggurinn tíndi Sp; 75. gildleg seiðin Gr; 76. greipar H; í greipur blíndi þ; 83.

Vildu ei beitu framar fala
fiskar hálir,
í sömu leitum sands við hala
sáust stjálir.

Vaka smiðurinn vendi því
frá vestra sandi,
ilja skriðurinn efldi gný
að eystra landi.

Eptir poka á ísnum lét,
en eigi signdi,
sunnanþoka seig í hret,
en síðan rigndi.

Enn nam finna fiskamið
og fór að dúa,
dorgar tvinna rendi á rið
og rakti úr hnúa.

Árbirtingar einnig þar
á agni kendu,
millum fingra veiðin var
á vatni rendu.

Lokkar gengdin listamann
að liggja á ísi,
ekki svengdin orka kann
að af honum rísi.

---

sunds við St; bala Re; 85. þar þ; 90. ekki Re, H; 92. lygndi H; 93. Hér byrjar Br aptur; 97. einninn Br, þ; 101.

Ættarhláka úti var,
sem ísinn grenti,
samt réð bráka snyrti snar
og snærið spenti.

Jötuns vængja sveiflið svarta
sendi úrir,
konur hængja hræddust bjartar
Hlés í búri.

Eins og fjörður áin gekk
að ofanverðu,
veiðinjörður felmtur fékk
á flóði herðu.

Frosin reka straumar stríðir
strá og aura,
jökulfleka, vatn, sem víðir
vatt í gaura.

Styggjast vöður, vakir freyða,
vaxa undur,
skafla löðurs bryggjan breiða
brast í sundur.

---

gegndin St; 105. Áttarhláka Re; 107. samt var brák á snyrtisnar Br, K; 108. snæri Br; 109. Jötuns vætta St; svartar H, K; 110. syndu úrir Br; úri P, Þ; 111. bjartan St; 116. hörðu H, Br; 117. Trösleð K; frosið St; frostið Re, R, H, Br, Sp; brostið reka Þ; 120. vætti í Þ; 123.

Stríddu jakar, stóðu á hlið,
því stýflan olli,
velti klaka vatnaskrið
úr vimrar polli.

Brestir gullu af Grímsárkvás
í gljúfra karmi,
jakar ullu um unnar bás
að efsta barmi.

Inniteppu ýmist fékk
sú ólgan stóra,
eða úr kreppu gráðug gekk
með grenj og óra.

Heyrði þetta hinn, er veiddi
og hátt nam líta,
upp í kletta eystri sneiddi
af álnum hvíta.

Herrann bað að hjálpa sér
með hjartað klökkva,
eptir það af unnar gleri
upp nam stökkva.

---

bylgjan breiða Þ; 128. vimra Br; á veiðipolli P; 129. Grímsár krás St, Sp, Re, R, — „ós S“; Grímsárrás, H, K, Br; Grímsárós Gr; Grímsá myndast úr tveim ám úr Skriðdal (Geitdalsá og Múlaá), og heitir jafnframt að ofan Skriðdalsá; 131. „ljós S“; unnar kjós Gr; 132. eystra barmi Sp; 135. gráðugt Þ; 136. með grenie H; grenji Br, Sp; 140. rastir reiddi Þ; 141. ranni hvíta Þ; 142. „hrökkva S“; 144. hrökkva Gr; 146. kynjabráði H, Br; 147.

Ísakóf og kólgu dans
hinn kyngjabráði
í því skóf um hæla hans,
er hauðri náði.

Augum skaut og ilja stoðum
ýtti um granda
á laxabraut, er frýsti froðum
fljóts um sanda.

Í miðri á. Það hreifði harmi
í hyggju pasti,
pokann sá með fiskafarminn
flóðs í kasti.

Undir létti brattur breki
og brúsið vinda,
var hann því rétt sem frostafleki
frár að synda.

Ýmist sökk hann undir klaka
á augnabliki,
ellegar hrökk á efstu jaka
í öldu ryki.

---

uns þá skóf Þ; 149. stoðunum St, Re, R, Sp, Þ, K; en ilja Br; 151. froðunum Sp, Þ, K, St, Re, R; frýstu H; flutti froðu Gr; 152. frost um Gr; fróns um Br, Þ; 157. bráður breki P; 158. og sl. Br; 159. frostaflekinn K; 161. stökk St, H, Þ; 162. augabliki Sp; 165. Sigurður meinti

Sigurður meinti senn á land
hann sigla mundi,
hljóp því beint um hraun og sand,
þar hrönnin stundi.

Svo var hraður hann á sléttu
hæl að skjóta,
að strauma vaður raktist rétt
sem rensluð fóta.

Vatnsfall eitt er víðfrægt mjeg
að vöxt og stilli,
djúpt og breitt, en ljúft í legu
landa á milli.

Langt umsvif með vökvann virðist
vors að seilast,
Héraðs klýfur fold sem firðir
fjöllum deila.

Lagarfljót er lýðum tamt
um land að nefna,
árnar brjótast ekki skamt
og í það stefna.

---

að H, Br; 166. hann setja Br; 169. um sléttu H; 174. af vexti H; 175. svo Br, Gr, H; ljúft í lögu St, Re, R, Sp, Þ; lagt í lögu, hin; 177—180. vantar í Þ; 177. umsvif Útg., H; „þessa vísu (177—80.) vantar i S, og er hún kannské afbökuð“ Útg.; 179. sem firðir H, Gr, Br: sem firði, hin; Héraðs klýfur fold Br, K; Héraðið, hin; 180. deilast Útg.; jöllin, öll nema Br; 182. um lönd St, Re, R, Sp; 185—88.

Grímsá fylli þungri þangað
þráði hrinda,
gekk þó vill um víða tanga
Vallna strindar.

Loks, er snertu ekki átti
ærna að fljóti
hlaupið þvert, þá misti máttinn
maðurinn skjóti.

Fót í þúfu rak við rjóður
runnflækinga,
féll á grúfu beitu bjóður
búinn að springa.

Framhjá þeisti sílasekkrinn,
svolgrið knúði,
hvarma kreisti hængjarekkrinn
harmalúði.

Iðan hrærð við ísahryðju
orpna grjóti
með ljótri stærð svo lenti í miðju
Lagarfljóti.

---

„þessa vantar í B“ og St, Sp, Þ, Re, Br; 186. þráði að H; 187. gekk þar vill um víðitanga H; um víðirtanga K; 188. svo H, Gr, K; hin: vatna strinda; 189. ærna átti Br; 190. enn að fljóti Br; eina að Þ; 191. því misti H; 193. rak þá rjóður H, Br; 196. búið að Þ; 200. harmur lúði St, R, H, Br, Sp; 202. ógna grjóti Gr; 205. „hélt um B“, Gr; „helti

Hlaups við rokin hélt í víðan
hyl með skvaldri,
týndist pokinn Sigga; síðan
sást hann aldri.

Af vatna ·brjáli, er engu eirði,
upp hjá Völlum
dvergamál í hömrum heyrði,
en hvin í fjöllum.

Sandfellsgnípa, Hátúnshöttur
og hvirfill Múla
leystu klípa, er fleygðu flöttum
foldar túla.

---

í S“ og St, Re, R, Br, Sp; í miðjan K; 207. poki St; en síðan H, Br, K; pokinn svo hann síðan Þ; 208. sá hann Þ; 210. upp á Br; 212. hryn Br; en hvein í Sp; 213—14. Sandfellsgnípa er í Skriðdal. Þar er bær, sem heitir Sandfell (Stóra- og Litla-). Höttur er á Völlum, og er efsti hnúkur á fjallgarði þeim eða hálsi, sem Hjálpleysa heitir. Sbr. vísu Páls Ólafssonar á Hallfreðarstöðum til Björns Skúlasonar:

Eg skal vera vinur þinn
vélalaus og tryggur
eins og herra Hötturinn
á Hjálpleysunni liggur.

En er það Hátúnshöttur? Hátún er, eða hefur verið, bær í Skriðdal og hjáleiga frá Þingmúla. Múlahvirfill = Þingmúlafjall = Múlinn. 213—16. vantar í Þ; 213. „Hátún S“, Gr; 215. klípu Sp; venjulega hef eg heyrt klípi (= smásteinn) hvorugkyns; „og fleygðu S“, Gr; „flöttu“ St; ruglað í Re; er fleigðir flöttu R, Sp; er fleygðu flettu H; fleygðir flettu K;

Jötna sessi skruggur skóku
og skemtu draugum,
Rauður og Bessi rumskast tóku
og rugga haugum.

Ormurinn sá, sem uppi í fljóti
er endilangur
hart við brá, er brast í rót
og bylgjugangur.

Fastur á haus er hermt hann liggi
og hala sínum,
gildan hnaus af góðri byggir
grábaks dýnu.

Hálf þingmanna langur leið
nam lykkjur keyra
ekki grannur upp úr breiðum
Ýmis dreyra.

Skatan liggur barðabreið
í báru glaumi,
snýr upp hrygg og engu eirir
út hjá Straumi.

---

217. Jötna sessur Gr, með þessari athugasemd: „Rauðshaugur stendur í hálsinum austur fra Ketílsstöðum á Völlum. Bessahaugur í túninu á Bessastöðum í Fljótsdal, og sést hvor frá öðrum á 1/2 þingmannaleiðar distance, svo sem haugbúarnir höfðu ráð fyrir gert". Sbr. Kr. Kålund. Hist.-topogr. Beskr. af Isl. II, 224, 239; 218. og sl. H; 219. ruslast þ; Rauður og Bessi = „Tveir haugbúar" Útg.; 220. rugla í H; rugla haugum K; 223. brast við þ; 226. á hala Sp; 231. grannar

Henni í trjónu sekkinn setti
súgur vatna,
hún hvesti sjón og sér upp létti,
seint mun batna.

Svo sem ey var á að líta
ypt úr glýju,
langt nam teygja úr hylnum hvíta
halana níu.

Selurinn einn er undir fossi
int að bólmi,
hans augasteinn er bjartur blossi,
en bak sem hólmi.

---

Útg., Re, R, H, Br, K; 233–37. er svo prentuð í Íslenzkum þjóðsögum I. bls. 639.

Skatan liggur barðabreið
und báru glaumi,
snýr upp hrygg og engu eirir
undan straumi.

235. „Súgar upp hrygg S"; engu eyðir Re; snýr upp hryggur, engu R, H, Br; 241. Sva Útg.; 242. upp Útg., þ, Sp; svo „B", St; ypta R, K; 243. í hylnum Gr, Br; 246. af bólmi Re; að bólma, sbr. kvæði Bénedikts Gröndals eldra. Viðeyjarkl. 1833 bls. 76:

Hægt frá þeim syðri heimsins enda
Hræsvelgur knúði fagra blæ,
burt tóku dætur brims að venda,
bólmuðu þær á víðum sæ ...

247. er bitur þ; 248. en sl. K; 249–52. vantar í þ; lömmum Br; 250. við lægis H; 251. eru hár Br; 253. Upp úr Gr; Nú er kólgu Sp; 255. orðinn laus H; 258. fast að spýta

Lámum spennir leyndar krár
um lægis grunna,
framan úr enni hans er hár
sem hríslurunnar.

Nú úr kólgu keyrði hann haus
og kampa hristi,
svo sem af ólgu yrði laus
og álög misti.

Fiskasjóð réð fram úr iðu
fossinn spýta,
sporðar stóðu hans úr hlið,
er hrönn nam slíta.

Aptur á bak þeim iðan kunn
og áfram steypti,
selurinn rak í sundur munn
og sekkinn gleypti.

Nú skal segja Sigurði frá,
hann sat á hrauni;
ekki þegja maðurinn má
við megnar raunir.

---

Gr; fossi spýta Br; 260. nam ýta Gr; 261. þar iðan St, Re, R, H, Br, Sp; 264. og síðan H, Sp; 265. Nú er að segja Re, R, H, Br, Þ, K, Sp; 271. mælsku þvörul H; mála þvöru Þ; 275. -strengur Re; 276. stórheimslega Re, R, H, Br, Þ, K; stórkostlega Sp; 277—80. vantar í Br; 283. Rask þykir kveita hér undarlegt, og getur uppá kveikja í Re, en rímið bannar það. Öll hdr. hafa kveita (sbr. 54. bls. 106). En eptir merkingunni á kveikja eigi alveg við (= hlaup,

þegar af vörum hryðjuhret
var hreytt á fannir,
mælsku þvöru losna lét
og leika þanninn:

Undur hafa hér áköf gengið
alla vega,
ísar skrafað og straumastrengir
stórheimsklega.

Heillasjóður horfinn er
og hængja mengi,
berst því móður í brjósti mér,
sem bý eg að lengi.

Eina veit eg orsök þá
er orka mætti,
að svoddan kveita kom í á
að kyngjum sætti.

---

kast, stór og snöggur vöxtur, sem kveita verður hér að þýða, en kveikja er fremur haft um byrjandi vöxt í vatni ekki mjög gríðarlegan). Orðið kemur ekki fyrir í fornu máli sem nafnorð, en finst í vísum Halls Magnússonar (A. Magn. Nr. 148. 8vo. Vigursbók) frá hér um bil 1580:

6. er. Mörg er betri beita,
þá bragnar fiska leita
en sú angurs kveita,
er opt vill manninn reita ...

Guðmundur Andrésson (d. 1654) hefur orðið í orðabók sinni (Lexicon islandicum. Hafn. 1683) bls. 156: „Kveita Norvegis Piscaboribus, hodie Solea, seu passer major piscis, Helle Flunder.“ Björn Halldórsson þýðir orðið: sensibilitas, Sandselighed; sbr. kvett, sem mönnum kemur

þessum forðum ár á ós
við afbragðsveiði
lá eg í skorðum, lítt nam frjósa
lag í heiði.

Helgir málmar heyrði eg vöktu
hljóminn sterka,
byrjan sálma boðar það glögt
og blessan klerka.

Silungunum sinti eg meir
en sögðum hljómi,
af feigðarmunnum festu þeir
sér fal í gómi.

Málmurinn þá af megni sló
og messu stilti,
samt eg lá og silung dró
svo sekkinn fylti.

Mig fýsti svo þeim feng að sæta
í fullri nennu,
dagana tvo að messu mæta
misti eg í rennu.

Sú mun vera sökin völd,
það sé eg á eptir,
vil eg þar bera skjótt fyrir skjöld,
að skaðann hepti.

---

ekkí saman um; 286. við ærna veiði Gr; 288. lagið St, Re, R, H, Br, þ, K, Sp; 289. eg að þ; 291. boðuðu

Heita væna vil eg á kirkju
í Vallanesi,
hvar eg bæna hafnaði yrkju
og helgu lesi.

Henni að færa fiska þrjá,
ef fimtán veiði,
fái eg mér kæran sekk að sjá
og silungs reyði.

Burtu síðan beint og hratt
til bygða vendi,
haldinn kvíða, en dagurinn datt
og dimmu sendi.

Dæstan minti limanna lúi
að leggjast niður,
engu sinti í einrúm snúinn
örva viður.

Sökku meiði óljós augun
aptur hnekkti,
í brúna heiði blundur flaug
og brjóstið spekti.

---

glögt H; 295. feigðarmunni Br; 303. tvo eg messu Þ; tvo að Sp; 304. sl. eg Re; 305. sökin og völd St, H, Br, Sp; sök og völd K; 307. skot(?) fyrir Gr; 308. sem skaðann Gr; heptir Br; 311. hvar að bæna eg St; hvar að bæna hafnaði eg Þ, K; 314. nær fimtán Gr; 315. eg minn kæra Gr; 316. reyðir St, Re, H, Sp; 317. hratt H, Gr, Br; hin: hart, sem er auðsjáanlega rangt; 321. lúinn Þ; 323. í rúm Þ; 324. orma viður Br; 325. Sökku meiðir H;

Af daglátum drauma merð,
er dorm réð finna,
í ráðgátu óhappsferð
nam alla að spinna.

Sekkurinn fyrir sjónir skauzt
á sofandi manni
inn um dyr, og réð við raust
að ræða þanninn:

Þú lávarður, liggur hér,
sem lézt mig hrjóta
flóðs af garði fljóts í hver
og flagðið ljóta.

Of lint hézt til heilla þér
á húsið dýra,
og standa lézt fyrir lausn á mér
þá lofun rýra.

Húsi messu hæfir frjálsri
hendi býta,
upp frá þessu augum sjálfs
mig ei mátt líta.

---

meiður Þ; 327. í sl. K; 329. mergðin Gr; 330. er sl. Gr; 332. nam á að spinna Br; 335. réð með raust Br; 340. „flagðið hljóta S“; 345. hendi að H; 348. mátt aldrei líta Br; 349. héðan af sljóf Þ; 350. þín heppna veiði Br; 351.

Til horns mun þoka héðan af
þín heppnin veiða
um unnar lok, úr öldu kafi
og inni reyða.

Síðan hvarf, en Sigurður aptur
sviptist blundi,
draums af starfi randa raptur
rammlega stundi.

Missmíð hélt á högunum þegar
halurinn orðna,
lánið felt, en væri ei vegur
við að sporna.

Fyrir sig réð setja vitrun
svo ljóst gerða,
með stórliga brjósti bitru
bjóst til ferða.

Gekk svo heim til húss í Strandar
hreysið forna
og réð sveima um veiði að vanda
vötn á morgna.

---

öldu kófi Þ; um unnar loku öldu kafs K; 352. inn reiði(!) Br; 359. lánið selt Re, R, Br; 363. harmi með í brjósti bitrum Gr; 365. „Stranda B", Re; Strönd er kirkjujörð frá Vallanesi; 369. vildu fiskiföngin Gr; 371. gildi, alt fór

Ekki vildi fiskifangið
falla í hagi
að fyrra gildi og fornum gangi
og fremdar lagi.

Svo var tept fyrir tekju hans,
þó tilraun háði,
að skildi hann eptir í öngladans
þá æ fyr náði.

Gagnvaðs líka á ís og auðu
eyddist gipta,
við óheill slíka alt til dauða
átti að skipta.

Fingur krepti og beygði bakið
bleikjum háður,
en klén var eptir óframrakinn
æfiþráður.

Hef eg nú frétt hann fjörinu slepti
og fór að lenda
áður en rétt með rökum hrepti
ríman enda.

---

öngu Gr; 372. í fremdar lagi R; í fremra lagi H, K; opt í lagi G; hagi Br; 373—76. vantar í Br; 375. -danzi Þ; 376. „sá ey B“: sá ei St, Re, R, Sp; kannske megi lesa: „þá ei fie náði“ H; 380. en beygði Br; 383. en sl. H; 385.

Hans má minnast hængja fjöldi
og hópur reyða;
trautt mun finnast frægri höldur
fara til veiða.

Sílin beiða vætu, vaður
værðir sýni,
hvílist veiði mætur maður,
mærðin dvíni.

---

## Um Ásmund hefðarhósta.

[Útg. bls. 94—97; Varðgjárkver; Þ$_1$ = Þórkatla; Stokkahlaðabók; J Sig. 271. 4to. (hönd Halldórs Hjálmarssonar); J Sig. 271. 4to. (orðamunur Páls eptir S^r Grímólfi); British Museum 11,185. 8vo.; Þ$_2$ = Þingeyrabók bls. 158—60; Páls safn Nr. 1. 8vo. XXII. b. (orðam. innskr. í expl. Páls); Hálfdánarbók mín; Þv = Þingvallabók, J Sig. 260. 4to. bls. 395—96; Dr = J Sig. 265. 8vo.; J Árn. A. II. 8vo. nr. 40; J Sig. 82. 8vo. bls. 146—50; Jón Ólafss. Grvíkingar vítnar í kvæðið undir kálfi, þarfarleysa, og Add. B. U. H. Nr. 8. 4to. bls. 2399.]

---

Eg spyr þig, Ási góður,
er það að vera einn ferðamann,
og sinn að rækja róður
að ríða á viku spölinn þann,

---

„fékk S“ Gr; 386. rökunum St; 390. hópurinn Br; 391. höldi Þ; 393. sílin beiði vætuvaður Br; 395. hvílist veiði, mætur maður Br; 396. mærðir H, Br.

er þingmenn,
satt eg segi,
sífelt enn
reisa á degi?
Skoði menn,
hvað skrafa eg nú um vegi.

Það er alkunnugt orðið,
hvað ákðf var þín vikureið,
þú hefur stikað storðið,
stenzt á dagferð og bæjarleið,
hestinn þér
hæfði að þreyta,
heldur en mér
tjóns að leita;
seint í ver
sannlega máttu heita.

Ási minn, eg hef fengið
illan reikning á sprðkunum,

---

Fyrirsögn: Um vinnumann sinn Ásmund, sem sagt er hann hafi um gólf gangandi mælt við hann V, Dr; Við sjómann sinn R, St; Um óduglegan sjómann H; Óþrifnaðarminning Ása Br; 1. Ási = Ásmundur in colloquio Dni Stephani Olavii ad operarium suum J Ól.; 2. einn sl. V: 3. og vel að Útg., Þ$_1$, Br, D, R; og þinn að Þ$_2$; þannig sinn rækja J Ól.; 4. og ríða J Ól.; 5. er þingmenn hér Þ$_1$; 7. sífelt er Þ$_1$; 9. skoða menn Sp, P; skoði þér Þ$_1$; 10. hvað skrifa eg um P; um veginn H, R, St, Þ$_2$; nú sl. Br; 11. er nú augljóst Br, Gr; 13. storðin Br; 15—20. eins og 65—70. í Br; 22. af sprökunum D; 23. gálaust Útg., Þ, Br,

þú hefur gálaus gengið
og gert að svalla út flöskunum;
ódygð ný
er illur gestur
innst við bý
hugarins festur,
hygðu að því,
þinn húsbóndi er eg og prestur.

þig hef eg sent til sjóar,
sannfrétt er þaðan heppni stór,
hún var þér lögð í lóa,
þú liggur í sæng nær skipið rór,
um augnablik
ýmsir hlaða,
er þitt stryk
samt á spaða,
drottinsvik
draga þér vissan skaða.

Hvað, sem þú aflað hefur
hrekst og liggur við flæðarmál,

---

R, D, St, þ$_2$; 24. úr flöskunum þ$_1$; 25. ágirnd Gr, P; 26. illur brestur Útg., R; 30. og sl. þ$_1$; 31. þig hafði eg Útg., R, Sp; 32. heppnin D, H, V; 33. er þér D, P, þv; 34. en legst í sæng þá Útg., P, R, Sp, St; nær skipin rór D, H, V, þ$_2$; þú liggur í sæng þá skipin ró Br, D; 40. illan skaða Br; 41. En það, sem aflast hefur Br, Gr, P; 42. úti liggur Br, Gr, P; við sjávarmál D, H, H E, þ$_2$; sjóarmál St, V, þ$_1$, þv; 43. það hlýtur Útg., Br, R, Sp, St; það lítur þ$_1$;

það bítur þýfskurefur,
þiggur og brytjar sér í skál,
hitt er prett
hans um flúði
heitir rétt
maðkabúðir,
hef eg og frétt
þú hröfnunum of mjög trúðir.

Nær helgin gár að garði
geisar þú fram í miðja sveit,
en enginn eptir varði
það upp var dregið úr flyðru reit,
svefnværðar
sér þú slaginn,
situr þar
mánudaginn;
mér það var
mesti hlutarbaginn.

Sá er nú munur manna,
margur gengur vel fram við sjó,
en óduglegur annar
öllu forspilti því hann dró,

---

45. hinn er D; hinu er slett Gr, P; hitt er breitt Br; 46. hjalls um flúðir Gr, P; halls um flúði Br; 47. heita rétt Br, Gr, P; 48. mægða búðir (!) P; 49. og sl. Útg., St, Þ$_1$; 53. eptir enginn Útg., Sp, St, Þ$_1$; en eptir ekkert varði Br; 54. upp var komið H, V; hvað upp var Br; flyðra reit R; 58. á mánudaginn Br; 59. mér hvað var Útg., St; 60.

steytir legg,
stælir kálfa,
strýkur skegg,
kollinn sjálfan
kambs með egg
kembir daginn hálfan.

Þér ræð eg, hinn lokkalangi,
þú leggir af háðið, gort og stát,
og greitt að róðrum gangir,
gerist þá tekjan eptirlát;
letin ber
langa hneysu,
lærðu á kver
þundar eisu;
heyrst hefur mér
þú hósta að þarfaleysu.

---

mestur Br; 61—64. vantar í Br, sbr. 15—20; 62. fram vel Útg., R, Sp, St, o. fl.; 64. forspilti því, er Útg., H, Sp, þ$_1$, þ$_2$; forspillir því, er D; 68. sjálfa Útg.; skjálfa R, St; 71. Eg ræð þér hinn Br; Eg ræð þér lokkalangi Gr., þ$_1$; 72. hárið, gort og V, þ$_1$, þ$_2$, Gr, H; 73. en greitt D, R, Sp, St; róður þ$_1$; 78. beysu V, Útg., þ$_1$; 79. heyrðist mér J Ól; 80. þú hóstir að Útg.; þarfleysu R, Sp, St, V, þ$_1$, D, Dr; þarfarleysu J Ól., H, þ$_2$; röðin á erindunum rugluð í Br.

## Jón Salómonsson.

[Útg. bls. 162—64; Stokkahlaðabók; Þingeyrabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 271. 4to. orðam. Páls eptir S[r] Grímólfi; British Museum 11,185. 8vo.; J Sig. 82. 8vo.]

---

I.

Nú mega eyðar orma fróns
orð og gjörðir vanda,
kominn er hingað korði Jóns,
sem kuldi má af standa.

Þambarskelfir þennan bar
í þungum vigra stormi,
þá Ólafs her hinn vaski var
veginn á langa Ormi.

II.

Nú fá mýsnar nauðakíf,
níu í einu missa líf,
ónsteinn frá eg þær allar pretti
undir lágum fjalaketti,
Sá, sem bruggar svoddan tjón,
það er hann Jón.

---

Fyrirsögn: Um Jón Salómonsson Br; I. 4. er kuldi R, Sp; 7. Ólafs herinn vaski Gr; III. erindaröðin er svo í Gr, Þ; 1. kemur Þ; 24. hann Jón Þ; 3. drjúgt úr tösku, öll, nema Gr, Þ; 8. hroðinn Jón Þ; 9. auðs fold Þ; 10. aulinn Jón Þ; 11. fótinn Br, R; ef fótinn Þ; 13. í skyrtu ganga Þ; 15—16. hatar blíða hrings fit hann Jón Salómón Þ: 18.

## III.

Hingað kom á húsgang
hroðinn Jón Salómón,
stikað úr tösku tóbak
tekur hann Jón Salómón.
brennivín í burt rann,
brást oss Jón Salómón,
heitið mér hafði kút
hann Jón Salómón.

Aldrei girnist gulls fold
gaurinn Jón Salómón,
þegar fötin fljóðs lítur
flýr hann Jón Salómón,
skyrtu ganga í gólf bert
gerði hann Jón Salómón,
einn liggja við vegg
vill hann Jón Salómón.

Hýðing fékk á stórstað
staulinn Jón Salómón,
af letinni þá þraut
þoldi hann Jón Salómón,
húðin öll varð hálfrauð,
hrein hann Jón Salómón,
á endanum varð ómynd
öllum Jón Salómón.

---

hann Jón(!) þ; fyrir leti þá þraut þ; 21. var hálfrauð, öll nema R, þ; 22. hrein sl.(!) þ.

## Sigurður scurra.

[Útg. bls. 128—30; J Sig. 271. 4to. (orðam. Páls eptir Sr Grímólfi); Stokkahlaðabók; British Mus. 11,185. 8vo.; J Sig. 231. 4to. p. 157—58 (þingeyrab.); J Sig. 82. 8vo. p. 213—16; hdr. J Stefánss.; hdr. Sr þorv. Böðvarss.; Rask 83. 8vo.; J Sig. 271. 4to. (H. Hjálmarsson): Hálfdánarbók mín.]

Sigurður kembir sitt hár,
þó sé hann næsta óklár,
kámleitur, kviðsár,
kann ei gæta síns fjár;
augun velta um brár
opin sem pallskjár,
drjúgum dumpar í slár,
en dansinn verður ofhár.

Hefur lengi haft
hákvæða róms krapt,
gaul er görnum skapt,
gefur aldrei það tapt,
strýkur kamp óknapt,
ket vill og flot haft,
skyri skvettir í kjapt,
svo skellur upp um hvern rapt.

---

Fyrirsögn: scurra St, R, H, „S, B“; „ganti“ Útg.; „íþróttir Sigurðar ganta“ Br, Gr: „De Sigurdo scurra“ H E; 1. sitt Br; 2. nokkuð óklár Br; 4. vitja síns Útg., R, H, Br, þ, H E; opin H E; opinn, hin; 8. dausinn St, Sp, „S“, H, Br, þ; 13. kampinn knapt H, Br, þ, H E: 14. flotsaft Br, þ.

Með vara fljótt flump,
fær, og skellir á gump,
mörhnúða, ketklump,
klettið og brauðstump,
vekur skrefa skump,
skrykki og fóta dump,
aptur reygir rump
og raka lætur sér mump.

Opt kingjandi kvað,
kringsólaði og gólf trað,
hafði hár stallað
og hálfnumið, sem bað,
um skafinn skeggstað
skein í tanna nað;
þeir, er sáu það
þar máttu brosa að.

Lagði af langa kver,
sem lengst hafði fyrir sér,
af kvæðum hyggju hrer
helzt af því tómt ber

---

Gr; 17—24. er 4. er. í Br; 19. mörhnúð og ketklump Br; 21. eykur skrefa Br; 22. skríki og Br; 25—32. er 2. er. í Br; 29. í skafinn Br; 30. skein í margan H, H E; skein og margan stað! Br; skein í margan stað þ; 31. þeir, sem Br; þeir að H E; 33—40. er 5. er. í Br; 33. Hann lagði af Br; 35. hver St, Sp, Br, Gr, R hefur fyrst skrifað hver, en breytt því síðar; 36. tóman ber Gr; 39. í sérhverri er Útg., R, H, þ; 41—48. vantar í Br; 43. en geldur þ, H E; 44. gikkpörin Sp.

gengur ver og ver,
þá vísur yrkja fer,
í hverju orði er
aldrei, nema: hér, hér.

Halda má hann þrjót,
hraustan sem reiðskjót,
geldur greiða á mót
gikkspörin of ljót;
marga snýkir á snót,
þær snepsast við þau hót,
leggur land undir fót,
þær láta hann heita aftót.

---

## KOLBEINN Á HVAMSHYL.

[Útg. bls. 141—42; J Sig. 271. 4to. orðam. Páls eptir Sr Grímólfi; British Museum 11,185. 8vo.; J Árn. XVI. B. 8vo.; J Sig. 82. 8vo.; Hálfdánarbók; Stokkahlaðabók: Bmfél. 9. 8vo. (J Stef.); Rask 83. 8vo. J A. kallar kvæðið: „Lýsing Kolbeins á Hvamshyl".]

---

Koli býr á Hvamshyl,
hefur mikið króknef
bogadregið, legglágur,
læraþéttur, augnskær,

---

1. Kolur býr Br; býr við H E; 2. „kórnef S", Br, H E, St (sem orðamun); R sem orðamun, að því, er sýnist

hálsstuttur, hausbrattur,
hrúti líkast sér út,
en hnotvaxin, hýrleit
og hvelkviðuð Rakel.

Slátur komu fram feit,
fyllast átti ketill,
vatn sótti í vítt fljót
vinnutaus og dró inn;
Andhrímnir úr blund
eldinn vakti um dimt kveld,
kaskur bar Koli fausk,
en Kviðfinna tók við.

## GUÐMUNDUR DIGRI.

[Útg. bls. 190—91; Stokkahlaðabók; Varðgjárkver; Rask 46. 4to. (Rasks eiginhandarrit); Rask 83. 8vo.; þingeyrabók bls. 213—14; Ad = Additam. B. U. H. Nr. 80. 4to.; J Sig. 271. 4to. (orðam. Páls eptir Sr Grímólfi); British Museum 11,185. 8vo.; J Sig. 265. 8vo.; Hrafnadalskver bls. 18—19; Bb = Bergsbók Jóns Árnasonar bls. 33—34; J Sig. 82. 8vo. bls. 136—38; Hálfdánarbók mín.]

Guðmundur crassus, góði vin,
gengur við hnykki þrjá,

„krocnef": 3. bogadreginn Br; 6. hrút líkast Br; 8. Hér endar Br; 12. og bar inn Gr; 14. sótti um Gr.

mjög þykist lassus, magnar styn
meðan hann er að slá,
viribus cassus víls með dryn
vinnunni dettur frá,
opt skreppur bassus auðs úr hlyn
altari voru hjá.

Þá upphefst tonus andlit grett
á honum margur sér,
nauðgunar sonus þungt og þétt
þjáir manns heyrnar ker,
skrúða patronus skundar létt,
þá skriðljós sækja fer,
chordiaconus kallast rétt,
klukkari líka er.

Veltandi rotam hljóða hann,
hefur því stemman lýst,

---

Fyrirsögn: Gvendur digri Gr; Guðmundur crassus St, R, o. fl.; De crasso Ad, Br; Um Guðmund djákn H E: 1. Gudmundus Ad, V; crassus = digur Gr: 2. við hlykki Hr, Þ; 3. þykir Re; lassus = lúinn Gr; magnast skin Hr, Þ; 5. viribus cassus = krapta þrotinn Gr; víst með Þ: við dyn Útg., Re, Sp; 6. drattar frá Re; 7. opt sleppur Re; bassus = bassi Gr (= fretur); auðs frá Dr; 9—16. hér er 17—24. i Br; 9. tonus = tón Gr; nauðungar Útg., St, Ad: sonus = són, hljóð Gr; 12. þjáir manns heila ker Dr, V; 13. skrúða patronus = skrúða vörður, djákn, meðhjálpari; skundar slétt Re; skrefar nett Br: 15. kórs diaconus Hr: chordiaconus = kórþénari, djákn Gr; 16. klukkari vor hann er Bb: klertari(!) Re (hitt í orðamun): 17—24. er 9—16. í Br; 17. rotam = hjól Gr; 18. hefur og Útg., V,

söngs idiotam segi eg þann,
úr samhljóðinu brýzt,
aldregi notam eina fann,
alt því í gaura snýst,
kýs heldur Botam, klaustramann
kallast vill allra sízt.

Gamall parocus gerir skil
giptumálunum á,
ei fæst þó locus auðs hjá bil,
auka vill Bótthild á,
farinn er jocus, frygðarspil
frjófgast ei henni hjá,
Guðmundur procus ástar yl
aptur því slökkva má.

---

Gr, Bb, þ, Hr, Br; 19. idiota(m) = ólærður, kunnáttulaus Gr; 21. notam = nótu Gr; 23. Botam = Bóthildi Gr; 24. kjörir að vera sízt Gr, Bb, Dr, V; 25. parocus = húsvert Gr (ɔ: þ. e. húsbóndi); eiginlega á að skrifa parochus (gr. πάροχος), en hér er fylgt rithættinum í Gr vegna rímsins; 26. giptumálinu á V; 27. locus = staður, pláss Gr; hjá auðar bil Ad, Bb, Br, H E, V; þó sl. Br; 28. ansa vill Bothilda Útg., Ad, Br, Hr, R, Sp, þ, Re (í orðam.); ausa vill Bothilda St; ausa vill Bóthild á Re; 29. jocus = gaman Gr; 31. Guðmundus Ad, Dr, V: procus = biðill Gr; 32. því sleppa má Hr, þ.

# DÍAKON.

[Stokkahlaðabók (að eins 1. erindi); Rask 46. 4to. (að eins 1. er.); Rask 83. 8vo. (að eins 1. erindi); Páls hdr. í J Sig. 271. 4to. (4 erindi); J Sig. 82. 8vo. (að eins 1. erindi); L = Rask 86. 8vo. með hendi frá miðri 18. öld; kvæðið er hér 5. erindi, og er engum eignað; fyrirsögnin er: „Annar lof söngur", því á undan er: Bonus dies býð eg þér &c. með fyrirsögn: „Einn lofsöngur". Kvæðið er líklega um Guðmund djákna (diacon = djákni) eða Guðmund digra, og, ef svo er, hefur hann verið Snorrason.]

---

Neðan úr Fjörðum flytur sig
Díakon Snorrason
upp í hvamminn, stanzar mig;
bordúninn
kjörinn í kór að syngja
og klukkunum þar í Vallanesi að hringja.

Ingunni gerði hann elska fast
Díakon Snorrason
áður en hún lét fallerast;
bordúninn
kjörinn í kór að syngja
og klukkunum [þar] í Vallanesi að hringja.

---

1. Neðan úr firði flutti sig L; 3. upp í fjörðinn hefur hann sig L; upp sl. St; 4. borðdóninn(!) P; borðune L (alstaðar): bordun eða bourdon fr. = djúp og digur hljóð; hér: maður, sem er digurróma og hefur öskurssönghljóð; 6. þar sl. P, L; Vallarnesi L (alstaðar þar sem ekki er skammstafað); 7—12. er 4. erindi í röðinni í P; 7. hefur hann elskað L; 13. kapalinn átti L; 15. kálfana tvo en

Kapalinn á og kýrnar tvær
Díakon Snorrason,
kálfa þrjá, en engar ær;
bordúninn
kjðrinn í kór að syngja
og klukkunum [þar] í Vallanesi að hringja.

þegar hann brúkar hljóðin há
Díakon Snorrason
heyrist í klifið og yfir um á;
bordúninn
kjörinn í kór að syngja
og klukkunum [þar] í Vallanesi að hringja.

Einu sinni hann keypti kút
Díakon Snorrason,
kirkjusmið kemur það við,
kátur presturinn syngur:
bordúninn
kjðrinn í kór að syngja
og klukkunum [þar] í Vallanesi að hringja.

---

öngva ær(!) L; þegar hann temprar hljóðin L; 21. klif og L; 25—31. að eins í L, og er með nokkuð öðrum hætti en hin erindin; 29. bordune L (hér sem annarsstaðar, en hitt er sett hér inn eptir því, sem P hefur altaf annarstaðar).

## Gamanvísur.

[R = Rask 86. 8vo. með hendi frá miðri 18. öld, stendur næst á undan kvæði Sr Stefáns Ólafssonar: Neðan úr Fjörðum flytur sig &c. og er hvorttveggja kvæðið engum eignað hér. J = Blöð í 8vo. sem Jónas Jónsson dyravörður latínuskólans í Reykjavík á, eignar Sr Stefáni Ólafssyni; þingeyrabók bls. 166—68 „Ejusd. (ɔ: Sr Stefáns Ólafssonar) al. þorvalds Magnússonar"; J A = J Árnason A. II. 8vo. nr. 13, eignar engum; J Sig. 92. 8vo. fol. 75—76, eignar engum: Hrafnadalskver bls. 149—50 „Vísur þorvalds Magnússonar á Víðivöllum í Skagafirði"; Thotts safn 489. 8vo. „Skrítilegar vísur ortar af þorvaldi Magnússyni á Víðivöllum í Skagafirði". Jón Ólafsson vitnar í kvæðið undir flangs í orðabók sinni og eignar það þorvaldi Magnússyni. þorvaldur er sonur Sr Magnúsar Illugasonar á Húsavík. Hann hefur ort marga sálma og kvæði og rímur. „Var mikið felix í að kasta fram stökum upp á hendina", segir Jón Ólafsson Add. Nr. 23. fol. þorvaldur deyr 1743. Kvæðið getur fult svo vel verið eptir þorvald sem Sr Stefán, en er tekið hér af því það finst eignað Sr Stefáni, og sýnist geta verið um Guðmund djákna.]

---

Bonus dies býð eg þér,
bóndason,
Díakon,
domine frater, forlát mér
flangsið mitt,
Hafi þér nokkuð hárið skakt í hnakka?
Hverjum eigi þér svoddan verk að þakka?

---

Fyrirsögn víðast engin; Gamanvísur Sr Stefáns Ólafssonar, er fyrirsögn í J; 1. Bonus dies = góðan daginn; 2. bræðralag, öll nema R; 3. sáttarplag, öll nema R; 4.

Líður af yður nokkuð nú,
norðlenzkur
monsieur,
drykkjuskapar svinglan sú,
sælin góð?
þér hafið þá ekki hárið skakt í hnakka.
Hverjum eigi þér svoddan verk að þakka?

þér megið kaupa korðahníf
kempubal,
general,
og baldérað þar með belti um líf,
beisivikt.
þér hafið þá ekki hárið skakt í hnakka.
Hverjum eigið þér svoddan verk að þakka?

---

domine frater, eptir orðinu: herra bróðir; 6. Hvort hafi þér Hr (alstaðar); hvernig hafi þér R (alstaðar); 7. hvernig eigi T; 10. monsieur (frakkn.) = herra minn; 14. höndum mínum eigi þér slíkt að þakka J A, T (alstaðar); höndum mínum eigi þér svoddan þakka J (alstaðar); 15—21. ruglað saman við 78—84. í J A, J, K, T; 16. kempuval J; -bal = sliður (sbr. á norsku bal, fem., og dönsku balg), finst í ritum, rímum og kvæðum frá 15. öld og úr því fram á 19. öld, sbr. Andrarímur Gísla og Sr Hannesar Viðeyjarkl. 1834, ríma 22,16:

Andra grípa náði naut,
nú að svífur önnur þraut,
datt úr bali brandur snar,
brjóstið snerti drottningar.

17. general = herforingi; 19. beisivikt. það orð finst í vísum Halls Magnússonar (sbr. bls. 118) um Sigurð Jónsson Magnússonar á Svalbarði, sem eru ortar 1570—80, eða þó

Síðan megi þér setja upp stokk,
svo er vant,
kommendant,
svarta skó og síðan rokk,
serviteur.
Þér hafið þá ekki hárið skakt í hnakka.
Hverjum eigi þér svoddan verk að þakka?

---

öllu nær 1580; því að Hugdælu eða Skagfirðingadrápu sína yrkir hann seinna en þessar vísur, en hún er ort 1582. Þessar vísur Halls hafa verið skoðaðar sem nokkurskonar Buslubæn seinni tíma (sbr. Ljóðab. Jóns Þorlákssonar II. 608—9). Hallur var skömmóttur í kveðskap sínum og var kallaður kraptaskáld. Þeir kváðust á hann og Þórður Magnússon á Strjúgi, en þeir kveðlingar eru nú flestir undir lok liðnir. Hallur deyr (drukknaði fullur í mógröf) 1601, ekki 1587 eða þar um eins og sumir hafa talið, og sést það meðal annars af þessari vísu:

Í mörgum rann við reiðarslurk
rekkurinn dó þar slyngur,
veturinn hniginn harða Lurk
Hallur skáldmæringur.

Harðindaveturinn „Lurkur" er 1601—1602, og hér getur ekki um annan Hall skáld verið að gera. Hann hefur dáið fyrir nýár. Margir annálar færa og dauða hans til þessa árs. Það, sem hér kemur við úr vísum Halls er:

3. er. Drekahöfuð dómhrokar,
diktar í beisivikt,
kyllrasíður og kvenhollur,
kriktir í beisivikt,
við sæturnar síkátur,
siktar úr beisivikt,
hringla svo hvílu þing,
að hriktir í beisivikt.

þér eigið karpús alt forgylt,
undir pluss,
damascus;
séð hef eg aldrei svoddan pilt
sem þú ert.
þér hafið þá ekki hărið skakt í hnakka.
Hverjum eigi þér svoddan verk að þakka?

þér megið kaupa parruks prjál,
praktugur
monsieur,

---

Annað orð kemur og fyrir hjá Halli þessu náskylt, 2. er.:
Beisivottur liðléttur,
lögrangur húsgangur,
sárorður sízt verður
sigurstrangur húsgangur &c.
Bæði orðin beisivottur og beisivikt eru líklega af þýzkum toga þ. e. af bösewicht (= fantur). Sigurður hefur verið „góður þýzkur“ eins og bræður hans, Magnús Jónsson gamli og Staðarhóls-Páll, og líklega slett þýzku í tali, og Hallur haft eptir upp á sína vísu, og misskilið; 22. stokkur = prik; þetta orð kynni að benda á, að kvæðið væri yngra en S^r Stefán; 23. soverant J; 24. kommendant = yfirboðari; 25. rokkur, sbr. niðurlag 10. erindis hjá Halli:
með kjaptinum hann klifar opt
kámleitur, þann eg veit,
blekkilegur í bláum rokk,
bíti hann sinn marinn skít.
Orðið er þýzkt (rock) og þýðir frakka; 26. serviteur (frakkn.) = þjónustumaður; 27. Hafi þér ekki J, T; 28. í hafinu rauða munu þér setja upp klakka J, J A, K, T; 29–35. vantar í J, J A, K, T; 30. karpús = húa, sbr. á norsku karpusa (hetta), frönsku capuce, ítölsku ca-

yðar hátign er það mál,
mon frère.
þér hafið þá ekki hárið skakt í hnakka.
Hverjum eigi þér svoddan verk að þakka?

Stígðu nú upp strax á fót,
stásslegur
gullböllur,
geturðu með honum giljað snót
grunar mig,
þér hafið þá ekki hárið skakt í hnakka.
Hverjum eigi þér svoddan verk að þakka?

Vér sjáum þig ei síðar meir,
sigldu nú,
adieu,
með þína makt og gildan geir,
gouverneur.
þér hafið þá ekki hárið skakt í hnakka.
Hverjum eigi þér svoddan verk að þakka?

Í Barbaríið þér farið fyrst,
Forsakon
Gasilon,

---

puccio; 30. pluss, einskonar dúkur, á norsku plyss, d. plyds, ensku plush, frönsku peluche, ítölsku peluccio, sem komið er af lat. pilum (pilus), hár; sbr. Skýrslu um forgripasafn II. 22. neðanmáls; 31. damascus = Damaskusdúkur (dúkur, sem ofinn er í Damaskusborg); 36. þér megið brúka Hr; þér munuð þ; þú mátt brúka J A, K, T; þú mátt vel kaupa J; 40. mon frère (frakkn.) = bróðir minn; 43.

til æðra heiðurs upp komist,
admiral.
Þér hafið þá ekki hárið skakt í hnakka.
Hverjum eigi þér svoddan verk að þakka?

Secretarius soldáns þá
segjum vér
verði þér,
og annað slagið eptir á
assessor.
Þér hafið þá ekki hárið skakt í hnakka.
Hverjum eigi þér svoddan verk að þakka?

Þá páfinn heyrir, hef eg á grun,
hvernig þér
stjórnin fer,
kýs hann þig fyrir kost og mun
kardinal.
Þér hafið þá ekki hárið skakt í hnakka.
Hverjum eigi þér svoddan verk að þakka?

Bezt mun hæfa brynjan síð,
brúka er vant,
lieutenant,

---

Stökk upp síðan R; 46. gerir hann með henni gylla R; geturðu með höndum Hr, K, T; með honum getur þú giljað J; getirðu höndum Þ; 47. gortarinn J; 50—77. vantar í J, J A, K, T; 50. þig ekki R; 52. adieu (fr.) = í guðs friði; 53. þína prakt R; 54. gouverneur = stjórnari, landstjóri; 57. Barbarí (Berberi) í Afríku; 58. svo í hdrr.; 59. Gefelon R; 61. admíral = sjóliðsforingi; 64. secretarius = skrifari; 78. þér

með Hottintotturum halda í stríð
sem Heródes.
Þér hafið þá ekki hárið skakt í hnakka.
Hverjum eigi þér svoddan verk að þakka?

Bezt er yður að brúka í stað
blóðrautt fat,
Golíat,
með formanni yðar fylgjast að
Faraó,
með honum síðan heims um bygðir flakka.
Í hafinu rauða munu þér setja upp klakka.

---

## Kvæði um Jón Greiða.

I.

[Útg. bls. 30—33; Stokkahlaðabók; hdr. Jóns Stefánssonar; Rask 46. 4to. (Rasks eiginhdrr.); Rask 83. 8vo.; British Museum 11,185. 8vo.; Páls safn Nr. 1. 8vo. XXIII. (orðam. innskr. í expl. Páls); Þingeyrabók bls. 178—79; J Sig. 92. 8vo., fol. 131—32; J Sig. 82. 8vo., bls. 44—48].

*Á hárri heiði*
*er herbergið tvist,*

---

megið kaupa korðahníf J A, J, K, T; 79. kempu bal (val J) J, J A, K, T; 80. general J, A, J, K, T (sbr. neðanmgr. 15—21); 81. Hottintottunum K; Hottintottum Hr; kíf J A, J, K, T; vísuna vantar í R; 88. með félaga yðar Hr, R; 89. Farnaó R; 91. hverjum eigið þér svoddan verk að þakka, bætir R við.

*það mikla langleiði*
*linnir ei fyrst,*
*seint gerir Greiði*
*að ganga í vist.*

Hann skauzt á húsgang,
hafði mikið fótsprang,
smaug í margan kotkrang,
kunni lítt við bústang,
kastar nú á sinn svang
soðgrautnum fyrst.
*Seint gerir Greiði að ganga í vist.*

Lagði út á langt nes,
líkaði það umvés,
um rekna röst trés
reikaði og þungt blés,
barst eptir bygð Hlés
um bjargtangann yzt.
*Seint gerir Greiði að ganga í vist.*

Í fornum ullstakk
við árfoss og brimkrakk
óminnis öl drakk
óður á sitt flakk,
mína þrátt fyrir þakk
það gár svo fyrst.
*Seint gerir Greiði að ganga í vist.*

11. í sinn K; 14. langt nes = Langanes; 29. enginn

Ógert er alt hér,
enginn hans hlass ber,
tað brenna tún fer,
tönn fáka rót sker,
hirðislaus hjörð er,
hefur lömb mist.
*Seint gerir Greiði að ganga í vist.*

Haugar dyrum hjá stá,
hefur enginn þá frá,
mýrlénum má ná,
mart er það, sem á lá,
dagsverkin dásmá
drós reiknar tvist.
*Seint gerir Greiði að ganga í vist.*

Vís er fiskur við sjó,
veitist mér ei þó,
smiðju vantar kol kró,
en kveykjuna eldstó,
enginn hér upp hjó
einn viðarkvist.
*Seint gerir Greiði að ganga í vist.*

Rýja fá menn fé strax,
förgun mun það eins dags,
á trippunum er fult fax
fast, og kennir óhags,

---

hann hlass ber Br; 32. hirðulaus St; fer, öll, nema Br, sem hefur ber; er er sett hér inn eptir ágizkun; 44. smíða

enginn til afbragðs
arðurinn flyzt.
*Seint gerir Greiði að ganga í vist.*

Hátt boðar hús fall
sem hálfreisa kapall,
garðurinn gamall
er gjörhruninn á hjall,
upp á hans einn stall
fæst ei torfa rist.
*Seint gerir Greiði að ganga í vist.*

Seggurinn sér rær,
en sit eg næsta ófær,
aldrei hér inn nær,
því oflausu við slær;
dofnuð í dag gær
dvínar brags list.
*Seint gerir Greiði að ganga í vist.*

II.

[J Sig. 92. 8vo. fol. 132—33. Íslenzk kvæðabók.]

Greiði um granirnar rauður
gizkaði lítt á fiskinn,
líkaði meir landspraka
[en] lúðan, að henni dúði,

---

vantar kolkró Þ; 52. kennir ólags Re; 53. enginn er Re; 57. hálfreistur Br; sem sl. P; 60. upp í Br, P; 65. um nær S; 66. efalausu P, Þ. II. Fyrirsögn: „Annað með öðrum bragarhætti um Greiða Jón"; 9—12. vantar í hdr.; þar

strenginn Héraðs hængur
heitir prýddan beitu,
fiðlu fjalls í rjóðri
ferðlegur slá því gerði.

. . . . . . . . .
. . . . . . . . .
. . . . . . . . .
. . . . . . . . .
strengir í stilling sungu,
stundu björgin undir,
út af hún nam hrjóta
á hjall og berjadallur.

Úlfur nam allur skjálfa
ettir það gerði frétta
frekan fiðluleikinn,
flaðrið Jóns og daður,
setti á sína dóttur
sáran þúst, en pústur
reka nam rokna mikinn
reiður á nasir Greiða.

---

stendur svo: „Vantar upphaf vísu, sem nú kemur“; 17. Úlfur hefur heitið faðir stúlkunnar.

## BRÍETARKVÆDI.

[J Árn. A. III. 8vo. Hér eignað Sr Guðmundi Erlendssyni í Felli: annað hdr. af kvæðinu þekki eg ekki, en Jón Ólafsson vitnar í það í orðab. sinni undir: grátkjökl, fótur, kjökl, teygja, og Add. 2. 4to. bls. 122, og eignar það ýmist Sr Guðmundi Erlendssyni í Felli (d. 1670) eða Sr Stefáni Ólafssyni í Vallanesi. Kvæðið er svo nauðalíkt Sr Stefáni, að það getur varla verið eptir annan en hann.]

---

Bjarni og Bríet sintu,
bæði þreyttu lögmæt svör,
hugmóðs hallir kyntu,
hún hafði frá honum stolið mör;
hann átti í róti reitukorn úr lambi,
og var skænið skorpið að,
þér skiljið það,
að þetta hefur staðið á þambi.

Bríet beiddist húsa,
bjó um sig og sat með mak,
og lézt áfram dúsa,
en augað neðan í keppinn rak,
af því hann var efst í baðstofu hólfi,
en viðhalt nokkuð var hún á ská
á vefjarrá
nær því niðri á gólfi.

Nú sem fólk til náða
fyrir nokkrum tíma komið var,
fékk hún fýsni bráða,
á fætur strauk og að sig bar,

kviknakin hún klifrar upp á bita,
var þá heldur fótaföt,
og fló þá kött,
rétt er bezt að rita.

Bríet búkinn reygði,
brakaði í öllum liðunum þá,
alla sig hún sveigði,
um síðir komst þó bitann á,
hýðið mörva hékk á einum snaga,
aldrei gat hún á það hæft,
hún húkti tæpt,
sem kænar kisur plaga.

Gaufaði bryðjan bjóra,
bjúg í lendum þar hún stóð,
um rót og rapta stóra,
rann hún alla músaslóð,
mærin hitti á mörva kyllir Bjarna,
neglur setti neðan í
og náði því
fögrum feitikjarna.

Marin mörva blaðra
í mænirtróðuna hélt sér fast,
hafði ei aðstoð aðra,
ellegar hefði hún fortapazt,

---

22. Hún var sig svo fótaföt J Ól; 23. hún fló J Ól; 25. teygði J Ól; 26. limunum J Ól; 27. á ýmsar síður sveigði

mörinn skar og mara var þá farin
niður um iðrið, miður mett-
var meyjan sett,
sögn er sönn os svarin.

Bríet brókarlausa
bráðlega skilst við efsta hólf,
hún stakst sem strjúgur hnausa
í stuttu máli ofan á gólf,
vitaskipti veizlan gerði sprundi,
og með skörum endilöng
hún lá sem stöng
að morgni, og mjög þá stundi.

Bjarna bölið píndi,
brást honum sinn kertamör,
mola úr moldu tíndi,
mesta fann þá undir skör,
húfu sína hann gat lesið fulla,
grátkjökrandi gerði hann
sá góði mann
sjálfur í sorpi að krulla.

---

J Ól; 28. síðan komst hún bitann á J Ól; 59. úr mylsnu J Ól; 60. mjög voru stirðleg svoddan kjör J Ól; 61. ei lesið J A; 62. grátkjöklandi gerðist hann J Ól.

# HALLUR Á BREIÐAVAÐI.

## I.

[Útg. bls. 110—11; Stokkahlaðab.; Rask 83. 8vo.; J Sig. Nr. 271. 4to. (hdr. Páls Pálssonar); þingeyrabók bls. 168—69; J Sig. 82. 8vo. bls. 181—82; Hálfdánarbók mín.]

Hingað kom með kálfa tvo
kænn að velja um staði,
einatt sagði: Ho, ho, ho,
Hallur á Breiðavaði.

Í honum lestist endabein
og annar mjaðmarspaði,
reistist upp og hélt um hlein
Hallur á Breiðavaði.

Öllum féllu orð og svör
sem að þeim færi skaði,
þá hrapaði ofan úr hærstu skör
Hallur á Breiðavaði.

Skjótt og hart sem skyti kólf
skall á neðri staði,
hefur nú reynt, hvað hart er gólf
Hallur á Breiðavaði.

---

I. 1. Kom hér maður með þ; 3. alljafnt sagði þ; 5—8. er í þ, P, HE 9—12; 5. Í þeim lestist þ; í honum reyndist HE; 9—12. er í P, þ, 5—8; 13. Skjótt og hast P.

## II.

[Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. Fyrirsögn: Hallur á Breiðavaði.]

Breiðavaðs - Hallinn
ball ofan á pallinn,
í skörina kom skallinn,
hann skildi eptir dallinn,
flatur lá fallinn
fótstirður jallinn,
á fætur komst kallinn.

## III.

[Stokkahlaðabok; Rask 83. 8vo.: J Sig. 82. 8vo. Fyrirsögn: Um Hall á Br. v.]

Gemsa meiðir,
gimbrar lundur,
gætir rollu,
bukka deyðir,
bekra þundur,
bani Kollu.

---

III. 3. gætti Sp.

# PÉTUR HJARTA.

## I.

[þingeyrabók bls. 161–62; J Sig. Nr. 82. 8vo. bls. 304—34, að eins seinni vísan; Stokkahlb. (seinni v.); Rask. 83. 8vo. (s. v.); J Stefánss. (s. v.).]

Pertu sveinn Pétur hjarta
pyngeygður alþingis
manna þjón mjór um kinnur
mettar oss snart af fréttum,
lítt sén við lögréttu
lætur sem úr dómssætum
numið hafi drafl alt dóma,
dikt og málalyktir.

Suður er Pétur á Síðu,
svart er í brotið hjarta,
kröm er á lærið komin
og kaun breið af þingreiðum,
mútulaust mátti flytjast
mjór á tíu jórum,
hitt er hert að mætti,
hann hrærist ei fyrir reiðsæri.

## II.

Um sama mann, þá hann kom til Víkingsstaða, til Sigurðar Hjálmssonar, hvers matarveitingu hann hrósaði.

---

I. 11. á lærið komið þ; á kríka komin Sp; kröm er í kríka S, St; 15. Hlýtt er hart að mætti St; 16. hann sl. þ.

[Útg. bls. 180—81; Stokkahlb.; hdr. Jóns Stefánssonar; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. bls. 305—6; þingeyrabók. Fyrirsögnin í S er óglögg; í þ er hún: Um Pétur hjarta.]

Veik Pétur sveinn
að Víkings bygð,
og var til bæjar
boðinn með sóma,
þar var uppreistur
af þiljum dúka
sjálegur skutill,
og settar á vistir.

þá patraði sig
Pétur hjarta,
og yfir máltíð
mælti þannig:
Nú furðar mig.
nóg er fram látið,
mér verður orðfall,
og ekki að vegi.

III.

[Stokkahlaðabók; Rask. 83. 8vo.; Jóns Stefánssonar hdr.]

Liggur eins og lús með saumi,
sínu hefur öllu eytt,
aldrei vinnur dagsverk neitt,
hann trú eg þekki hápallinn á Straumi.

---

II. 2. að Víkingsstöðum þ; 3. var sl. Sp; 7. skutull St, Útg; 8. sett á vistir St; 12. þanninn Útg. III. 4. Straumur,

IV.

[Stokkahlaðabók; Hálfdánarbók; Fyrirsögnin í St: „Staka“, en er engin í H E.]

Kappinn kominn á flótta
klárinn brúnskjótta
elta tók með ótta,
að honum vil eg það drótta;
hesturinn hávetur
hóf í ský setur,
heyrðist hörkufretur,
hjartað datt og Pétur.

---

## SKEGGJAVÍSUR.

I.

[Sbr. útg. bls. 72—73 (að eins 3 vísur); Stokkahlaðabók, tvær afskriftir; St = þar sem báðum afskr. ber saman; $St_1$ = fyrri afskr., $St_2$ = síðari afskr.; J Sig. 271. 4to. (orðamunur og uppfyllingar Páls eptir handriti Sr Grímólfs); Rask 83. 8vo.; I = J Sig. 271. 4to. (afskr. með hendi Ísleifs Hákonarsonar eptir Schevingsbók?); J Sig. 82. 8vo.]

Skeggja átti eg að skenkja
skyr, hann vildi róa
    árla á einni tíð,

---

sbr. Rönkufótsrímu 233—37. IV. 4—5. svo í báðum hdrr.; 6. hóf í skýja setur(!) St.

þá fór eg að þenkja,
það væri fínt að prófa,
hvað kverk hans væri víð;
rétti eg að honum rokna stóran spaða,
rekkurinn vildi máltíð sinni hraða,
hixta tók og höndum að mér baða,
þá hefndargjöfinni var hann niður að mjaða.

Satt er bezt að segja
af svoddan vinahótum,
svo undan falli fátt;
hálsinn tók að teygja,
tvístappaði fótum
og káfaði klónum hátt.
Inti eg þá til: Er þér sjálfrátt, Haki?
Eða viltu eg herðar þínar stjaki?
Snáfaðu hingað og snú þú að mér baki,
snarlega svo eg í skyrstjórann þinn taki.

Stórt mig tók að stanza,
steytti eg hann fyrir brjóstið
geysigóðan hnykk,
engu vildi hann anza,
utan hann greip fyrir hóstið,
sáuð þér svoddan skikk?

---

I. Fyrirsögnin er eins í öllum hdrr., nema I; þar er hún tóm vitleysa; 4. tók eg að Sp; 6. hvað kok hans Útg, St; hvað kvok hans R, Sp; 7. rak eg að I, Gr; 8. rumurinn St; 9. höndunum $St_2$; 11—20. vantar í Útg, St, Sp, R; 21. stórt gerði mig I; 22. stakk eg hann I, Gr; 23. geysi-

Hann heyktist niður og hálsinn mjög við teygði,
en haturlega spaðanum burtu fleygði,
tosaði fast, en tannaskjólið beygði,
til mín sem hann augunum nokkuð reygði.

Hrökk hann hart á fætur,
hrappaði eg að honum orðum
fyrir sinn furta sið;
skyrið í lár sinn lætur
losað úr þröngum skorðum
og kipti kömpum við,
strauk hann út og stikaði suður veginn,
stórlega varð hann lífgjöf sinni feginn,
undur hljóp sem eltur væri og sleginn,
ekki vildi hann hafa þrengri smeyginn.

Hóf eg hátt að kalla:
Haki, viltu meira?
Þá, sem hann þyktist við,
í honum æmti valla,
ekki talaði eg fleira
til móðs við Marteins nið;

---

góðan þykk Útg, St, R; 24. engu hann vildi I; 26. sá eg svoddan I; 27. hann sl. I; mjög við reygði Útg, St, R, I; 28. en hastarlega I, Gr; 30. nokkuð sveigði I, B; 31—40. vantar í Útg, St, R, Sp; 32. hreytti eg að I; 34. skyrið loks upp lætur I; 35. leyst úr I; 36. og kippir I; 37. stóð hann þá, sem strýktur væri eða sleginn I; 39. að andláti ætla eg hann væri dreginn I; 40. hafa þyngra smeyginn St; ekki þoldi hann stórum þreingri I; 40—50. vantar í R;

heyrði eg ekki hvað við mig hann sagði,
hinseiginn var hann snússaralegur í bragði,
hýddi, strauk og halann á bak sér lagði,
horneygður sem fyr var jarlinn Agði.

II.

Skeggi til Laugu skrifár og segir.

[A M. 441. 12mo., hönd frá hér um bil 1700; kvæðið er engum eignað, en sýnist vera eptir S^r Stefán Ólafsson, og heyra til Skeggjavísna. Eptir hann er ýmislegt í kveriuu fleira.]

Sæl vertu gild
gulllegu prýdd með auga,
þöll bauga,
orðin mínu yndi skyld
optar en sjaldnar beina fyl[g]d
við lyndi, Lauga.

Ununarsamleg orð og hót,
sem Gvöndur séra
nam bera
frá þér til mín, fagra snót,
fríska mig um lyndismót,
það vit þú vera.

---

43. þykkist Útg, St, Gr, I; 47. hvað hann við mig Sp: hvað hann bistur sagði I; 48. hitt sá eg að fúll hann var í bragði I, Gr; 49. hýddi burt og Gr; 50. hvimeygður $St_2$; 50. Agði jarl, sjá um hann Fms. III. bls. 184—98 (þátt Þorsteins bæjarmagns).

Fagnaðarhöld eg fékk um brjóst,
fram þó daufan setti,
er frétti,
að þú mér unnir leynt og ljóst,
lúinn strax úr beinum drógst
sem fargi af fletti.

Orðið hefur mér önnur slík
ei né gert að bjóða
sinn gróða;
fallega muntu, falda brík,
í fleiru en einu greiðarík
við randa rjóða.

þakkir góðar, þrýstin mær,
þér eg aptur vanda
til handa,
glaður í þér minn hugur hlær,
horfi eg upp á þig fjær og nær
í ástar anda.

Muntu kæran mannborlig
mínum brekum sinna,
ef kynna
sérlegan þér að sýna mig,
svellur mér í hjarta þig
sem fyrst að finna.

---

14. eða: from, í hdr.; 18. sem̄ far giaf fletti, hdr.

Sannlega við svoddan geð
saman er eg spyrtur
og gyrtur,
þó eg hafi þig ei séð,
þér að lifa og deyja með
af vænleik virtur.

Þú munt hafa, sprundið, spurt
með spissaramannlegt æði,
mér stæði,
til orða og verka einninn hvurt
eg sé vafinn sóma og kurt
um fold sem flæði.

Snar sem píla og snoturmáll,
snipparalegur sem bliki
í viki,
þeg[ar] á mér er góður gáll
görpum sannur ráða Njáll
í þörf eg þyki.

Róður, bálka, rif og slátt
ramur er eg að starfa
til þarfa,
að laga og mæna heyin hátt,
hlytist af mér lyndið kátt,
ef ættum arfa.

Rummungslega rænn við björg,
þó reisi um nafir og stapa
ei hrapa,

eggin sæki eg ótal mörg
ofan um gjár, þó heljan örg
við geri að gapa.

Við slagtaríið slyngur nóg
með sledduna á millum vara
ei spara
að lima af kroppnum lær og bóg
og leður að birkja af kapaldróg
mér frá eg fara.

Veiðiskapinn vetur og haust
í vötnum geri eg að rækja
og krækja
marga bröndu beitulaust,
að bana þeim mér aldrei skauzt
í leirum lækja.

Ekkert hefur að mér þótt
utan það eg hryti,
svo viti,
um hinna og annara hnykkja drótt
hirði eg ei þó sýnist ljótt
sem þyrill þyti.

Fyrir þessu og fleiru þó
fljóðið gangast máttu,
og láttu

okkar á milli um yndis þró
ektaparanna vaxa mó
með sinni sáttu.

Sem þá hauk um hyggju mót
hungrar eptir dúfu
á þúfu,
vöknuð er svo mín vildar rót
að veltast með þér, hýrleg snót,
í leiðu og ljúfu.

það vill auka þelið krankt,
að þú mér öllum kærri
ert fjærri,
því mun eg gera úr réttu rangt
og ráðast héðan burtu langt
þér nokkuð nærri.

Veit eg af því að vist inndæl
vís í Ólafsfirði
mér yrði.
Leyst hef eg efni af lyndis hæl.
Lauga, góðin, vertu sæl
með blíðu byrði.

## Carmina Theodorica.

[J Sig. Nr. 92. 8vo. fol. 76—78. Sýnist sem kvæðið muni eiga að vera eptir Sr Stefán; á undan er: Bonus dies býð eg þér &c., en nærst á eptir: Í Álptafirði var brúðkaupið bezt &c. Reyndar er mér grunur á, að það sé yngra.]

*Auge pauca! Adde paucis!*
Orð eru smá,
þórði stráka þyl eg frá,
nýtust hláka nær mun bráka
norðan stjá.
*Inter pocula.*

Hvað skal tala, hvað skal tjá
hrund í eymda róli?
þó mun bala þenkja að fá
*þórður á Kirkjubóli.*

Ekki falan öl[d] vil tjá
af þeim kennir í stóli,
það mun kalann þunga fá
*þórði á Kirkjubóli.*

Fagurgala fýsast á
fyrðar opt með hóli,
þann til dala þrátt nam tjá
*þórður á Kirkjubóli.*

---

5. Svo hdr.; rétt: Norðra?

Með tóbak ala tanna gjá
tíðkar nefndur dóli
[og flátt að tala þrútinn þrá
*þórður á Kirkjubóli*].

Um skatta hreifir skrafi frekt,
sem skipaði Dana sjóli,
þar fyrir leyfir þennan tregt
*þórður á Kirkjubóli.*

Ófrýnileg er heila höll
hulin kjálka skjóli,
sem þrekk einn beri þykt á völl
*þórður á Kirkjubóli.*

Stórt ei hækka stráka vann
steinbítsroða sóli,
heldur lækka þegninn þann
*þórð á Kirkjubóli.*

Upp ef tækist annað sinn
aptur svarti skóli,
þangað rækist, þanki er minn,
*þórður á Kirkjubóli.*

Margur tamur mann er því
að miðla hálsins góli,
þar er óstamur þessi í
*þórður á Kirkjubóli.*

Héldi grund, sem halur er á
hann Stefánsson Óli,
smjaðrið mundi ei þagna þá
*hjá Þórði á Kirkjubóli.*

Beitt hefur margur bauga grér
bústinn [mála] tóli,
þeim allkargur þó af ber
*Þórður á Kirkjubóli.*

Gerði að hjala gæzkulaust
gumna einn í kjóli
þetta án kala þykkjulaust
*um Þórð á Kirkjubóli.*

Upp og niður beinast blá
byltir aldan hjóli,
þar mun seinast þreifað um fá
*Þórður á Kirkjubóli.*

Raular frekt á rifinn skjá
ræskingslegur drjóli,
kverka mektir þolir þá
*Þórður á Kirkjubóli.*

Einu gildir þeygi þann,
þó þriflegt skeggið jóli,
það er mildi hann þrífast kann
*Þórður á Kirkjubóli.*

Sáuð þér opt hann sat í dal
svo sem fagur njóli,
þeytti hvopt, en þeygi stal
*Þórður á Kirkjubóli.*

Fyrst er skorri fantur einn,
fylgir verpill tóli,
þá skal orri þriðji óseinn
*Þórður á Kirkjubóli.*

Spiluðu talin óðar orð
allir með fíóli,
þar var valinn við þundar borð
*Þórður á Kirkjubóli.*

Balanum öllum úr stað ók
undir norðurpóli,
af þungum sköllum þrútna tók
*Þórður á Kirkjubóli.*

Ýttu lestina ótt af stað
orkumikill bjóli,
slíttu ei festina, þungt er það,
*Þórður á Kirkjubóli.*

---

*Auxi paucis. Addam pauca.*
Endir má

Þórðar stráka þulu sjá,
nú hefur brákað nýtust hláka
norðan stjá.
*Inter pocula.*

---

## CANTICUM.

[Thotts safn Nr. 489. 8vo.: Páls safn Nr. 1. 8vo. XXIII. bls. 15 „eptir hdr. í Stiptsbókasafninu". Fyrirsögnin full er svo í T: „Canticum ejusdem authoris", því á undan stendur: „Dni Stephani O. F." Umboðsmenn eru átta snart o. s. frv. (Tilhugalíf). Í P.: „Vísur Sr Steph. Ol. s."]

---

Þó Eirekur festi fljóð
fæ eg ei hugar sorg,
gamni hann sér við gullhlaðs slóð,
en guð náði hann Þórð á Borg.

Ei mun gustuk inna frá
Eireki til gleðimeins,
þó gamlar mægðir gerist á,
Guðrúnu það smakkar eins.

Eirekur leyfis ekki spyr,
þó yndis bindi hann hótin,
til er það, sem talað er fyr,
tíðkast breiðu spjótin.

---

91. Svo hdr.; rétt: Norðra?

þó skyld væri hans fyrri frú,
færri trú eg þess gæti,
Guðrún Eirek gleður nú,
það gengur í óþakklæti.

Á því jafnan gefur gát,
að gleðinni sambúð hreifi,
þó Eirekur þoki í mát,
það er bessaleyfi.

## Oddur og Eiríkur.

[Páls safn Nr. 1. XIX. (4to.) bls. 110; þingeyrabók bls. 169. Fyrirsögn er engin í hdr. önnur sú, að vísurnar sé eptir Sr Stefán Ólafsson.]

það eru öfgar þykir mér,
þannig hjólið veltir sér,
lyklavaldið Eiríks er,
Oddi búðardyrnar ver.

Verður öld af þessu þekt,
það er hennar gamla snið,
Oddur klappar á með spekt,
Eiríkur segir: Bíddu við.

2. eg ekki P; 11. var fyr P; 14. fáir trúi eg P; 17. Friðrik fjórði gefur ei gát P; 20. það er í P.

Úti stendur eins og lamb,
áður ríkti voldugur,
lætur Oddur lækka dramb:
Ljúk upp, kæri Eiríkur.

Margir treysta valda veg,
vill það suma pretta í stað,
Eiríkur segir, Oddur, eg
áður reyndi, — manstu það?

Þetta er veröld vinum sín,
verður hennar aginn sár,
Eiríkur drekkur öl og vín,
Oddur fyrir dyrum stár.

Þetta ætla eg svona sé,
sælu misjafnt eigum,
af honum Oddi og Eiríke
allir læra megum.

---

8. og 15. sagði Þ; 17. þeim er P.

## Um vinnumenn á Svalbarði.

[British Museum 11,185. 8vo. i kvæðakveri Sr Stefáns; J Ól. vitnar í kvæðið í orðabók sinni undir, féll, jall, væ (= vei), væja, og eignar hann kvæðið Jóni Magnússyni á Svalbarði (föður Staðarhóls-Páls og þeirra bræðra?), en það er líklega rangt, og lætur hann líkast til bæjarnafnið villa sig, en þó getur kvæðið vel verið frá 16. öld. Hann segir tildrög þess þau, að drengur væri nærri búinn að slá augað úr öðrum með freðnum skít.]

Mangi og Pétur
voru í vetur,
eg vissi ei betur,
í starfi staddir tveir
á Svalbarða,
fúnum farða
folalds sparða
áttu að aka þeir.

Urðu gikkir
ósamþykkir,
upp tók pikkir
firna freðinn jall,
og hann sendi
hart af hendi,
heiptar kendi,
hins á heila stall.

---

3. víst þess getur J Ól.; 7. forarskarða J Ól.; 12. furðu

Allan vanga
á honum Manga
upp lét ganga,
svo kinn varð býsna blá,
þá lá fallinn
fram við stallinn,
freðinn jallinn
hitti augað á.

Kokkur præjar,
æpir, æjar,
ílar, hvæjar,
vildi vera til friðs,
hinn var sólginn,
blár og bólginn
að berja dólginn,
fljóð kom loks til liðs.

---

freðinn J Ól.; 21. lá hann þá fallinn J Ól.; 22. fram á stallinn J Ól.; 24. því hitti ei augað á Br; 25—27.:

Kokkur æjar,
víar, væjar
príar og præjar. J Ól.

# Gamanvísur
um bréfamann.

[þingeyrabók; British Museum 11,185. 8vo.]

Bréfamaður úr Bárðardal
Bjarni um austurreita
kvaðst heita;
seggir trúðu, en sumstaðar
sama nafni fljótur var
í Björn að breyta.

Tómasson réð telja sig,
tamur um Kolbein afa
að skrafa,
fróman bæði og fjörgamlan,
faðir minn svo komast vann
úr vondum vafa.

þóra, segir hann, móðir mín,
má henni enginn niðra
hið syðra,
Loptsdóttir er liðleg snót,
í Landeyjunum við ormagrjót
mín feðgin fiðra.

Fyrirsögn svo í þ; engin í Br; 2. Björn þ; 6. Bjarni þ; 8—12. er 13. er. í Br; 8. lét telja Br; 10. framan Br; forgamlan þ; 11. föður mí[n]um Br; svo koma þ; 13. sagði hann þ; 15. hér syðra þ; 16. Lopts er dóttir Br; 19. hér austur Br; 26. heima sagðist þ; og annað fleira af aura

Á Lágheiði hér eystra einn
eg nam bróður hennar
að kenna,
rétt fékk eg á þegninn þrætt,
þó honum skýra af minni ætt
ei næði eg nenna.

Dalagjald um Héraðið hann
heimta sagðist eiga
og mega,
annað fleira auðs af nægð
út lét ganga af sinni frægð
um tún og teiga.

Hann réð sérhver laukalind,
leikmaður og séra
að þéra,
háborðunum að hefja upp að,
hvergi nema í fyrirstað
hann vildi vera.

Röskan hest og reiðföng öll
rekkurinn keypti í ferðir
með verði,
tvö hundruð í silfri sá,
sængurklæðin átti ei fá,
sem greiðan[n] gerði.

---

nægð þ; 32. og leikmaður að séra þ; 34. og háborðum að þ; 37. roskinn hest Br; 41. átti að fá Br; 43—48. er 9.

Úr Héraðinu hraðaði sér,
hofmannlegur var þessi
í sessi,
um Öræfin strax af stand
strjúka gerði norður um land
á öru essi.

Gerðist kritur um garpinn strax.
þar greiða hafði þegið
á vegi,
að hefði tengur tjörugar,
svo toldi við þær hér og hvar,
það átti hann eigi.

Eptir sig hann líka lét
lygaruglið mesta
og vesta,
hvar hann kom og fyrða fann
ferilinn mátti rekja þann,
svo furðar flesta.

Nýlega fréttist norðan að,
nú má ei kynning seinka
né kveinka,

---

erindi í Br; 44. hofmannlegur í sessi þ; 45. var þessi þ; 46. strax af stað þ; 47. um láð þ; 50. er greiða Br; 52. tjargaðar Br; 53. toldi við hann hér og hvar Br; 54. það ætti hann þ; 56. versta Br; 57. og mesta Br; 58. eða fyrða þ; 59. má nú rekja Br; 63. þess reinka(!) Br; 64. að hvorki

að ekki mátti hann tryggan tjá
Tómasarfa. Hvers son þá?
Hans Sauða-Sveinka.

Sá var fyrr í Flateyjardal,
féð nam ræna lífi
með hnífi,
þar hafa feitum blóðmör bergt
börnin hans, og síðan gert
að þukla á þýfi.

Einn var hann Bjarni af þeim hóp,
sem ófrjálst lærði að fela
í bela,
hálfvaxinn úr hreiðri fló,
hálærður um bygðir þó
að strjúka og stela.

Samt fór hann með sendibréf
svo sem frómur maður
skikkaður
hingað austur Hérað í,
hrepti virðingar af því,
og greip við glaður.

Í Eyjafirði eptir það
einni virðing náði,
sem þráði,

mætti þ; 65. Tómasarfann Br; 68. fé nam þ; 83. virðingarnar því þ; 84. sá geipiglaður Br; 87. er þráði þ; 88.

ekki var sú æran slétt,
hann upphófst þar í böðulstétt
að ríkra ráði.

Þá var strákur stýfinn nóg
og staðbúinn að flengja
og hengja,
ekki miður að marka kinn,
mörgum þótti hann tilfallinn
um daus að dengja.

Fínt er að senda fróma menn
fjórðunganna milli,
svo villist
ekki á þeim öldin skír,
undir hverra stakki býr
úlfurinn illi.

Hjá vitugum mönnum virtur er
vegna þess, er sendi,
hinn ókendi,
sé hann þjófur og lærður á lygð
lifnar af því haturs stygð
hjá karli og kvendi.

---

sú var ekki Þ; 89. hann sl. Br; 91. strákurinn Þ; 92. að hengja Br; og sl. Þ; 93. og flengja Br; 99. svo villi Br; 100. ekki veit það öldin Br; 101. feldi býr Br; 103—114. vantar í Br; kvæðið er seinast í syrpunni í Br, og stendur aptan við: „Finis“.

Enginn svíki mæta menn
með þeim óráðvanda
að blanda
mötuneyti, sæng og sess,
sannlega munu, ef gæta þess,
illu að anda.

Held eg ráðlegt hölda drótt
að hyggja að óðarkveri,
og geri
tilkomendur að taka ei dart,
og trúa ekki öllum snart,
þó bréfin beri.

---

## FLÓAMANNAKVÆÐI.

[Kvæðabók Gunnlaugs Jónssonar á Skuggabjörgum I., skrifuð 1840, bls. 177—79. Fyrirsögnin er þar þessi: „Kvæði, kallað Flóamannakvæði, eignað Stefáni prófasti Ólafssyni, sem var á Vallanesi“.]

Finst sá siðurinn Flóanum í,
fráskildir eru góðir menn því,
hinn, er kíminn kvað,
kunni ei við það,
en hinir þess gátu vestan að.
*Og mart er sér til gamans gert.*

Bændurnir hafa þar ballskorið hár,
buxurnar stuttar en hempurnar þrjár,
neðri faldur hér
niðri í hnésbót er,
en hæðin kraganna hnakkann sker.
*Og mart er sér til gamans gert.*

Skórnir svo stórir, það skrökva eg ei,
þeir skrapa um ristarnar fullir með hey,
hárs með þvengjum þá,
þeir af merinni grá
fléttaðir, krosslagðir leggjum á.
*Og mart er sér til gamans gert.*

Ef bændur þar hittast bygðunum hjá,
býður hinum heim sá forræðin á
með beztan bræðra koss,
bindur við staurinn hross,
flest er á takteinum fæðunnar hnoss.
*Og mart er sér til gamans gert.*

Framandi gestir ei fýsast þar heim,
flasa ekki bændurnir á móti þeim,
þó er margur mann,
sem miskunn veita kann,
orðum svo kveðja þeir aðkomandann:
*Og mart er sér til gamans gert.*

Komdu inn í fjósið og settu þig svó
síðan uppá pallinn og taktu af þér skó.

Hvað í fréttum fékkst
fyrst þú til mín gekkst?
Eg skal vita hvað úr því rekst.
*Og mart er sér til gamans gert.*

Gestur og hinn, sem að fréttir vill fá,
flatmaga báðir pallinum á,
fetta lið og legg
löngum upp í vegg,
en mylsnan, duftið og mosk fer í skegg.
*Og mart er sér til gamans gert.*

Fjórðungskerald af flautanna vind
á fjóspallinn setur þá húsfreyju kind,
skyrs með skálum tveim,
skenkt er bónda og þeim,
er sóttu á deginum hjónin heim.
*Og mart er sér til gamans gert.*

Brennheitur grauturinn [á] borð settur er,
borið í hann saltað og afgamalt smér,
sangur, saminn í mát,
síðan tekst upp át,
höldar þá ferma með hornspónum bát.
*Og mart er sér til gamans gert.*

Ekkert er leift það inn borið var,
upp reidd er sængin með grasbeðinn þar,
gesturinn hvílist hratt,
hefur sinnið glatt,

kviðaður allvel á dýnuna datt.
*Og mart er sér til gamans gert.*

Sjóðheita mjólkina síðast á fólk
sæturnar bera í kjaptvíðum hólk,
við dýnu herða hver
hnakkanum snúa fer,
geymist til nætur það afgangs er.
*Og mart er sér til gamans gert.*

Sízt gefa svefnróna söngfögur hljóð,
sannar það hver, sem þar nærri stóð,
en ef vaknað var
verður fyrsta svar:
Mun nú ekki á askinum par?
*Og mart er sér til gamans gert.*

Strax þegar dagurinn dregst yfir ský
dunurinn kviknar búrhurðinni í,
morgungetan góð
gefst í iðra sjóð,
svo er hún kölluð af sveitar þjóð.
*Og mart er sér til gamans gert.*

Fyrst þegar sólin á fjöllunum skín
fullkominn skatt gefur matseljan fín,
skyrið nýtt er nóg,
naumlega kemst í lóg,
af beljunum hafa þeir bændurnir plóg.
*Og mart er sér til gamans gert.*

En þegar geislinn í suðrinu sést
af sölvunum tilreidd er máltíðin bezt,
básálmur borinn á disk
með breiðan hindarfisk,
en af sjófangi alskonar risk.
*Og mart er sér til gamans gert.*

Um aptaninn heyri eg þar allvíða sið
aptur þeir herða sinn sjatnaða kvið,
svoddan sældarplag
og sífelt borðalag
hafa þeir á árinu hvern og einn dag.
*Og mart er sér til gamans gert.*

Eldingar hrísið er ógott að fá,
ei fæst þar kolblað þó gull bjóðist á,
störin eflir eld
alla morgna og kveld,
og sólþurkað taðið í fúlgurnar feld.
*Og mart er sér til gamans gert.*

Forððin eru í Flóanum breið,
færstir þar ríða á sumarin skeið,
vaðla braut er vot,
verði hennar þrot
óðara stingur þar öllu á flot.
*Og mart er sér til gamans gert.*

---

87. bass tamur eða: boss tumur, hdr., sem er óskiljanlegt; hér er því eptir ágizkan sett básálmur (= smér, Skaptafellss.); 89. visk, má og lesa; 101. feld (= felt?), svo skr. hdr

Ekki er þar sauðféð til ýkja mart,
ösla þar baulurnar grasið óspart,
vambir draga um dý
og dilla niður í því,
sá er þar flokkurinn margur sem mý.
*Og mart er sér til gamans gert.*

En þegar þingið og samfundur sést
svo gera bændurnir stóra lest,
sína sækir mer
svo með flýti hver:
Kæri minn, bróðir, bíddu eptir mér.
*Og mart er sér til gamans gert.*

Þá ferðast hver ásamt hollum vin,
í hendinni stóra þeir graðungs hafa sin,
móðir jóra mjeg
mikillega er treg,
einkum þá ríða þeir ósléttan veg.
*Og mart er sér til gamans gert.*

Góð sveit er Flói, það segi eg með sann,
svo líka margan, sem erviða kann,
misjöfn manna kjer
menn reyna þar og hér.
Lifi þeir nú glaðværir, líka sem eg er.
*Og mart er sér til gamans gert.*

---

128. svo hdr.; 129. kjer = kjör.

# Hornfirðingakvæði.

## I.

[Útg. bls. 156—57; Stokkahlaðabók; Jóns Stefánssonar hdr.; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. bls. 256–59; J Sig. 92. 8vo. tvær afskr. = $K_1$ (bl. 78) og $K_2$ (bl. 125—26.).]

*Í Álptafirði var brúðkaupi bezt,*
*borin voru þangað ölföngin mest,*
*það spyrst um borg og bý,*
*búrar fagna því,*
*heyrðist þa líka í Hornafjörð.*
*En opt verður hljótt eptir gamanið.*

Þá Hornfirðingar heyrðu það,
hver sína merina keyrði í hlað,
mistu mein og sút,
meljum köstuðu út,
hneptu í buxur og um hálsinn klút.
*En opt verður hljótt eptir gamanið.*

Ístaðalausir þeir örkuðu af stað,
ei var heldur volkinn hart spentur að,
hrossin hnýttu á stert,

---

Fyrirsögn fyrir Hornfirðingakvæði I: Hornfirðinga brúðkaupsreið Útg; Álptfirðinga brúðkaup $K_1$; 1. Hornafirði S; brúðkaup Útg, Sp; 2. bárust þangað $K_1$; 4. bragnar fagna $K_1$; 5. þessari línu bætir við $K_2$; 6. En sl. $K_1$ (alstaðar); 8. keyrði heim í hlað $K_2$; 10. miolenu $K_1$, $K_2$; 11. heptu í St; 14. heldur sl. $K_1$; 15. hrossin bundu(!) á $K_1$; 17.

sem höfðu fyrri gert,
þó toglóðin opt hafi taglið skert.
*Því opt verður hljótt eptir gamanið.*

Yfir Kolgrímuvaðið þeir sveimuðu á sund,
sérhver í keltunni reiddi sinn hund,
hittist hersing ljót
við Hornafjarðarfljót,
af jóreiknum varð loptið sem svartasta sót.
*En opt verður hljótt eptir gamanið.*

Í nesinu hans Bjarna náttuðu þeir,
nudduðu á eintölin tveir og tveir,
kemdu ei krúnu stall,
en kreikuðu upp á fjall,
þar mátti sjá margan kringskorinn kall.
*En opt verður hljótt eptir gamanið.*

Allir riðu eptir ölsins þef
og upp í goluna settu sín nef,
þeir feldu ei flasið það
fyrr en á nefndum stað,
örkuðu lengi þar úti um hlað.
*En opt verður hljótt eptir gamanið.*

---

togloðin Sp; togloðiñ $K_1$, $K_2$; þrátt hafi $K_2$; 18. því sl. $K_1$; 19. Kolgríma er á í Hornafirði; Yfir Kolgrímu margir sveimuðu $K_1$, $K_2$; 23. af jóreyk varð himininn svartur sem sót $K_1$; 25. Í nesinu (hans sl. $K_1$, $K_2$) Bjarna = í Bjarnanesi í Hornafirði; 27. þeir kemdu Útg, R, Sp, St, $K_2$; 28. þeir kreikuðu $K_1$; 29. þár sást margur Útg, $K_1$, R, S, St; þá sást Sp; 31. Allir göptu $K_1$; 32. upp í götuna(!)

En hver meðan kom í Hornafjarðar reit
hugði aleydda þá nafnfrægu sveit,
því hvergi húsin fékk
hann né matarsmekk,
allan svo hreppinn á enda gekk.
*Því opt verður hljótt eptir gamanið.*

## II.

[Sbr. útg. bls. 101—106; Jóns Stefánssonar hdr.; Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; Bmfél. d. á Ísl. Nr. 111 (= Bm); J Sig. 82. 8vo.; F = J Sig. 271. 4to., blöð í 8vo., úr safni Finns Magnússonar Nr. 197 með hendi Hallgríms djákna Jónssonar á Þingeyrum (d. 1836), og er á þeim ýmislegt, sem vantar í fyrri útg. kvæðanna, og þar á meðal viðaukar við þetta kvæði, sem sýnast eiga að innfærast sem hér er gert.]

*Oflátungurinn inti frá*
*að Ási nokkru sinni,*
*þá hóf eg ræðu Horni á:*
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Átján katla í einu bandi
alla rak á þurrum sandi,
eggjaði mig þá óhreinn andi
alla skyldi eg eiga þá.
*Þar hóf eg ræðu Horni á.*

---

Útg, R, Sp, S, St; 35. en örkuðu $K_1$; 37. Hver mann sem kom í $K_1$; 38. hugði hann $K_1$, $K_2$, R, S, Sp, St. II. Fyrirsögn: Hornafjarðar messugjörð Útg, F, R, Sp; „kallast einnig Hornfirðingakvæði“ Útg; Hornfirðingakvæði Bm, S, St; 2. að Ási, líkl. Ási í Fellum; 4. handritin hafa sum: Hún er í minni, hún er í m. m., og önnur: Sú er er í m., sú er í m. m.; 5—20.

en mér leizt það lítill vandi
að leyna þeim í það sinni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Eptir þennan ærubrest[inn]
út var eg valinn fyrir prest[inn],
í Skálholti eg skrumaði mest[an],
skundaði eg þá í hökulinn blá.
*Hóf eg ræðu Horni á.*
Við krumma dóttur eg kyntist bezt[a],
og komst að grásíðunni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Hornfirðinginn hugði eg finna,
hitta kransinn frænda minna,
suður um land mér leið að kynna,
lét mér ferðatöltið þá.
*Hóf eg ræðu Horni á.*
þetta var mín þrauta vinna
að þeysa til merinni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Á Lónsheiði sú lífuð fála
lék við tauminn trippisgála,
fallega gerði fótum prjála,
til Fjarðar komst eg um kvöldið þá.
*Hóf eg ræðu Horni á.*

---

er að eins í F; 10. en mér þótti það(!), hdr.; 23. um lönd Bm, Sp; 34. hægramegin hýrt í skála Bm, R, Sp; 35.

Hægra megin hér í skála
hvíldi eg í þversænginni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Saknaði eg þá sængur minnar,
svæfilsins og herprýðinnar,
þar hjónin reikuðu utar og innar,
öll voru vafin flíkum grá.
*Hóf eg ræðu Horni á.*
Loðnar gærur lamba skinna
mér léðu af fátækt sinni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Kámuðust illa klæðin góðu
af kota eim og sudda móðu,
mig í kringum kappar stóðu,
kátlega mjög við þetta brá.
*Hóf eg ræðu Horni á.*
Að mínu rúmi matnum hlóðu
af mjólk og fiskætunni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Eg mátti ei opna munninn hreina
að meðtaka þá fæðu neina,
ekki vildi á það reyna
mín ærugöfug tignin há.
*Hóf eg ræðu Horni á.*

---

hvíldist í, öll nema St; 37—44. er að eins í F; 49. Þá

Mér sómir lítt, ef satt skal greina,
að seðjast kotfæðunni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Minn bróðir sætur boð mér sendi
beint ágætur af sinni hendi,
Týs sá mætur bóka bendir,
að byrja ræðu kórs í krá.
*Hóf eg ræðu Horni á.*
Því mælskurætur mínar kendi
mest í barnæskunni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Hosur mínar eg heimta náði,
hatt og stígvél, þess eg gáði,
ekki varð mér annað að ráði
en út úr kofanum skauzt eg þá.
*Hóf eg ræðu Horni á.*
Á minn bezta búning gljáði,
betur en eg það inni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Á laugardaginn að liðnu nóni
leit eg bæ hjá sjávarlóni,
þar kom út einn digur dóni
dulum vafinn allur grá.
*Hóf eg ræðu Horni á.*

---

hóf eg Bm; 60. sem er í R; 68. Sá er í R; 75. betur eg það

Eiktarstund hann á mig gónir
áður en mæla kynni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Engill drottins að eg væri
ætlaði þessi búrinn æri,
ellegar sá, sem öllum er hærri,
ógurlega við þetta brá.
*Hóf eg ræðu Horni á.*
Í óvit féll með ánauð stærri
undir hestklaufinni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Sat eg heill í söðli mínum
sæmdum vafinn á breiðri dýnu,
hesturinn dillar hofmanns blínu,
svo heyrðist inn í bæinn þá.
*Hóf eg ræðu Horni á.*
Seggir struku úr sætum sínum,
svo mig skjótast finni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

---

R; en það Bm; 76. Sá er í R; 83. kunni St; 84. og 92. Sem er í R; 94. breiðri á dýnu Bm, R, St; 95. Blína hefur óljósa þýðingu, þar sem það kemur fyrir í seinni alda kvæðum íslenzkum (í fornum finst það ekki), sbr. „Helja tvítugföld“ eptir S[r] Hallgr. Pétursson (Gestur Vestf. V. 61):

... hrepti bana blínu
brátt níundi af hnífi ...

Sbr. og vísu sem eignuð er S[r] Hallgr. Péturss. í Rasks safni Nr. 87. 8vo. (með hendi Þorsteins Gíslasonar á Stokkahlöðum)

Sat eg framur, sæmdum prýddur,
sómatamur, lukku skrýddur,
minn værðar hamur þarfur þýddur
þeli svölun velur há.
*Hóf eg ræðu Horni á.*
Hrotta glaumur harki níddur
hljómaði í ölstofunni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Eg sté þá upp í stólinn háa
með stígvél dönsk og hempu bláa,
lagði eg um hálsinn línið smáa,
leiptra tók af kraganum þá.
*Hóf eg ræðu Horni á.*
Kórmöttull og kápan gráa
í kistu lá þar inni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Textann hafði eg í tveimur greinum,
mín tunga vafði hann lærdóm hreinum,

---

Gráa (grúa, hdr.) leit eg gaula *q* (*kú*),
gá eg nam að hinnar *h* (*há*),
sjáar (sjóar, hdr.) blínan segir *ú*,
svá (svo, hdr.) og heyrði eg jarma *á*.

Í orðabók Björns Halldórssonar stendur: „Blina, f. pustula in facie, en Blegn i Ansigtet“, en sú þýðing getur ekki átt hér við; 99. sem skjótast, öll nema Bm; 100. Sem er í Bm; 107. eldstofunni Útg, S, Sp, Bm; 108. Sem er R; 110. bláa, Útg, St, R; 114. bláa Útg, S, Sp, S, St, R; 118.

enginn var sá af ítrum sveinum,
að eigi skyldi gljúpna þá.
*Hóf eg ræðu Horni á.*
Ei var stanz á orðum neinum,
að eg mæla kynni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Hlýrnis mjöllin hlær á móti,
hljóða fjöll, en viknar grjótið,
flýja tröll, því finst ei bótin,
fegrast gerði röðullinn þá.
*Hóf eg ræðu Horni á.*
Eyddust göll og ilskurótin,
opnaðist grenjans inni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Svanninn grætur, en karlmenn• klingja,
kreptir á fætur stukku að syngja,
einnar nætur eða yngra
ómálinn tók leika þá.
*Hóf eg ræðu Horni á.*
Þannig gerði eg ræðu að ringa
rétt að þessu sinni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Á hádegi eg ræðu reyndi,
reiknaðist til, sem margur greindi,

---

um tungu Bm; 120. er eigi St; að ei R; 122. eigi var R; 123. að eg ei mæla kynni R; 126. en öskrar Útg, S, Sp; 132., 140. og 148. Sem er í R; 149. Óratsía = á lat. oratio

orðaspil eg allvel beindi,
öndvert nón var komið þá.
*Hóf eg ræðu Horni á.*
Bænarorðin bezt eg treyndi
að blíðri miðaptaninni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Óratsían var merk í máta,
margur vann af hjarta gráta,
sérhver mann réð syndir játa
og sinna klækja iðrast þá.
*Hóf eg ræðu Horni á.*
Prósessían og praktin káta
með pater noster linni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

Sté eg snar úr stólnum víðum,
studdur var að báðum síðum,
skikkju bar af skarti tíðum,
skunda eg fyrir altarið þá.
*Hóf eg ræðu Horni á.*
Að Grallaranum gekk svo fríðum
gæddur sönglistinni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

---

= tala, ræða; 154. Prósessía á lat. processio = framganga, hátíðleg framganga; 155. pater noster = faðir vor; 160. altarið há R, St; 162. Grallarinn (Graduale) kom fyrst út á Hólum 1594 og síðast 19. útg. Hólum 1779; 164. Sá er í R; 168. röðullinn St; 172. Sá er í R.

Enginn slíkur á Ísalandi
eða þvílíkur mælsku andi
hreift hefur slíku blíðublandi,
brotna fyrri röðull má.
*Hóf eg ræðu Horni á.*
Óðurinn víkur, en efnið standi
út af Hornræðunni.
*Hún er í minni, hún er í manna minni.*

## ÞJÓFABRAGUR.

[Sh = Rasks Sýnishorn (Specimina literaturæ islandicæ) Stokkhólmi 1819, bls. 276—77; Útg. bls. 98—99; Snót Khöfn 1850 bls. 189—90; Snót Rvík 1865 bls. 266—67 (ber báðum saman); Bl = J Sig. nr. 283. 8vo., J Sig. nr. 82. 8vo. p. 154—57; Rask 46. 4to. (Rasks eiginhandarrit); Rask 83. 8vo.; G = J Sig. nr. 271. 4to. (orðam. Páls eptir hdr. Dr. Schevings); Páls safn (orðam. expl. Páls) XXII. 8vo. Tveir þjófar R.]

Þórður og Björn þeir þreyttu stríð,
það var austur í Fljótsins hlíð,
komu þar að kvöldi síð,
kveyktu eld og báru á skíð
í leyni.

Sigrað höfðu eina á,
og voru búnir hana að flá,
kolagröf var hlaðin há,
við hana vildu steikja þá
í leyni.

Báðum þótti um þýfið vænt,
þá var nótt yfir hauðrið grænt,
og töldu fram við funann kænt,
hvor fleiri hefði sauðum rænt
í leyni.

Hóf svo tal með hreinan sann,
og hélt sig vera afreksmann,
Björn þar upp á fyrri fann,
fullvel kunni hann reikning þann
í leyni.

Við níu hef eg rollur rjáð
og reynt við þær á sléttri láð,
engin var svo ofsa bráð,
að ei gæti eg á fæti náð
í leyni.

Halurinn frá eg hætti þar,
og hélt af sér sem líklegt var.
Ekki þótti þetta par
Þórði, og gaf honum aptur svar
í leyni.

---

2. það var suður í Re, Bl; fjallsins hlíð Sp, P; 3. kvöldi um síð Útg., Snót; 4. að skíð R; 8. í hlaðinu há Bl; 12. þá bar Sh; 13. og sl. Sh; 16. Hóf þá tal Re, Bl; 17. meiri mann Re, Sh; 19. hann sl. Sp, Sh; 21. við sl. Útg., Snót, Bl, Sp; 23. ógnabráð Re, Sh, Bl, G; 24. ei eg gæti á Re; að ekki gæti á G; gæti eg „ásæti“(!) Sh; 26. Hann með sanni hætti þar Sp, R, Re (orðam.), Útg., Snót; 27. vonlegt Re (orðam.), Bl, G; 29. Þórði; hann sína sögu bar Re

Átján hef eg með unda skóð
ærnar fært á heljar slóð
og nítjándu, sem nú er á glóð
við náðum báðir að vekja blóð
í leyni.

Þar að auki, Þórður minn,
þá nam anza Björn um sinn,
lambarusl og skorpin skinn
eg skrifa ekki í reikninginn
í leyni.

Þessa vondu þjófaskrá
þegnar mega heyra og sjá;
ólukkan sú yfir þeim lá,
að einhver stóð og hlýddi á.
í leyni.

---

## NÆTURGISTINGARSÁLMUR.

[J Sig. 82. 8vo. bls. 153—54; eignar Sr Stefáni Ólafssyni; A = Bmfél. 8vo. ónúmererað hdr., eignar Sr Stefáni Ólafssyni; Rask 46. 4to., með Rasks eiginhendi, eignar Sr Hall-

---

(orðam.); Þórði, er gaf Sh; 31. unda flóð R, Re (orðam.); 33. og sl. Re, Bl, G; nítjándi(!) Sh; 34. að sl. Re, Sh; 36. Það er að auki Útg., R, Sp; 37. því nam Útg., Snót, R; 38. lambámusl Re, Bl, G; 39. ekki upp á R; skrifa og Bl, G; eg skrifa ei upp á Sp; skrifast ekki Sh; 41. Þessi vondsleg Re, Sp, R; þetta vondslegt þjófastjá Bl, G; þessa vondsligu þjófaskrá Sh; 43. því ólukkan Sh; ógæfan Bl.

grími Péturssyni eða Sr Stefáni Ólafssyni: Bl = J Sig. 131. 8vo., eignar Sr Hallgrími Péturssyni; K = J Sig. 233. 8vo., eignar Sr Hallgrími; Bm = Grundarbók í Bmfél. 388. 8vo., eignar Sr Hallgrími; Gv = Geirs Vigfússonar bók í Bmfél. í 4to., eignar Sr Hallgrími; Varðgjárkver, eignar Sr Katli Bjarnasyni á Eiðum; Dr = J Sig. 265. 8vo., eignar Sr Katli: G = Kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum I. J Sig. 254. 4to. bls. 153, úti á spássíunni stendur með hendi Daða Níelssonar: „Sr Ketill Bjarnason á Eiðum“; þingvallabók bls. 405—406, eignar Sr Katli. Jón Ólafsson frá Grunnavík vitnar til þessa kvæðis undir bera í orðabók sinni, og eignar það þar „Sr Katli B. syni (carmen quoddam jocosum Dni Ketillis B. filii)“. það er ómögulegt með neinni vissu að segja eptir hvern kvæðið er af þessum þremur. Líklegast er kanske, að það sé eptir Sr Ketil, en af því engin vissa er fyrir því að það sé ekki eptir Sr Stefán, er það tekið hér upp í kvæðasafnið.]

Mig bar
að bygðum seint á degi,
bað eg því um hús,
en þar
friðinn fann eg eigi,
flóin sprakk og lús,
svo var
sægurinn af mús,
að fólkið fylti á nóttu
fjandi stóra krús.

---

Fyrirsögn er í flestum engin; Næturgistingin K; Um næturgistingu Gv; 3. eg þar Sp, Bm, G, V, A; 9. að sl. Bm; 10. fulla stóra Bm, G, Gv; firna stóra Bl, K; *furðu* stóra Re (í orðam.), Sp; fjórðungs stóra Re; fjandans stóra

En eg
örþjáður af róli
á féll rauna stig,
svipleg
frú mér fram að bóli
fylgdi syrjulig,
þann veg
þreyttur lagði eg mig,
hún gaf mér graut í aski
og gekk að hvíla sig.

Hún lá
hátt á stirðum-palli,
höfuðið teygði og búk,
þar hjá
þumbaði vol í kalli,
þeirra sæng ómjúk,
úlfgrá
ætíð fái fjúk,
þau borðuðu þarna bæði
og brúkuðu engan dúk.

---

Dr, þv, V; 12. frá róli þv; 13. á gekk Bl; á féll rauna stig = kom í raunir Re; 16. skrítileg Re; skringilig Re (í orðamun), Dr, Gv, Bl, K, Sp, þ; 17. þá eg A; 18. þreyttan Bm, Gv, Dr; 22. háum upp á palli Bl; hátt á hörðum palli Bm: 23. höfuð Bm, Gv; 24. en þá Bl; 25. þumbaði(st Gv) boli kallinn V, A, Re (í orðam.); þambaði vol í kalli Bl; voli kallinn Dr, Re, þv; 26. þeygi sæng var mjúk Bl; 27. algrá, A, Gv, Bm; álfgrá V; 28. altíð V; altíð fái hún Dr, Re (orðam.); altjafnt G; 34. mér flaug Re: 35. dúr á Re; mér

Svo þaug
sváfu fast og lengi,
saman ráku stél,
dúr flaug
mér á augu engi,
því ekki var um sel.
Á þeim haug
þrífast fæst eg tel.
Eg bjó mig strax með birtu
og bað þau lifa vel.

## GORTARALJÓÐ.

[F = Fróðlegt ljóðasafn pr. á Akureyri 1857 II. bls. 85—91 (37 erindi, engum eignuð); Rask. 46. 4to. (Rasks eiginhandarrit, 40 erindi, „ort af sira Katli Bjarnasyni"); Kr = J Sig. 210. 8vo. (krafshönd, 36 erindi, engum eignuð); Y = Yrpa, ljóðabók með hendi Geirs Vigfússonar á Akureyri í safni Jóns Borgfirðings í 8vo., bls. 65—74 (39 erindi, engum eignuð); Hrafnadalskver bls. 6—11 (35 erindi, „Gortaraljóð Sr St[epháns] Ó[lafs] s[onar"]); Bb = Bergsbók Jóns Árnasonar bls. 218—24 (engum eignuð); B = J Sig. 239. 8vo. („Gortaraljóð kveðin af H. H. [eignast og Bened. Bech af sumum]"), er með hendi Hallgríms djákna Jónssonar; Bl = Afskrift Jóns bókavarðar Árnasonar eptir bók, sem Gunnlaugur Blöndal (síðar sýslumaður Barðstrendinga, † 1884) léði honum 1859, skrifaðri um og eptir miðja 18 öld.

---

yfir auga Sp; mér á auga enginn Bm; 36. því sl. A, Bl, G, K, Re; 37. þann haug Bl; í þeim Bm, Dr, K, V, Þv; 38. þrífast verst, öll, nema Gv; 39. eg brjóst því B, Dr, Þv.

Afskriftin er aptan við Hálfdánarbók mína, og eru S[r] Stefáni hér eignuð Gortaraljóð; Þ = Orðamunur við afskrift úr Blöndalsbók með hendi Jóns Árnasonar eptir handriti frá séra Þorsteini Þórarinssyni á Berufirði, sem segir að Gortaraljóð séu eptir S[r] Bjarna Gissursson á Þingmúla; Stokkahlaðabók (39 erindi, eignar S[r] K[atli] B[jarna]s[yni]); V = handrit í 8vo. með hönd frá fyrri hluta 19. aldar, sem Valtýr stud. mag. Guðmundsson á, og segir það, að Gortaraljóð séu „eignuð Steinunni sál. í Höfn"; Bm = Bmfél Nr. 150. 8vo. (lök afskrift, 28 erindi, eignar engum); Gl = Kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum I. bls. 37—40 (engum eignuð). Þessi H. H., sem *B* nefnir á kanske að vera Hallvarður Hallsson á Horni, sem lifir um miðja 18. öld, eða Hallgrímur Halldórsson á Steini á Reykjaströnd († 1769), sem ort hefir meðal annars Ambalesrímur, 23 að tölu, sem eru til í safni Khafnardeildar Bmfél. Nr. 273. 8vo. Bened. Bech er Benedikt Magnússon Bech sýslumaður í Hegranesþingi (d. 29. maí 1719); hann hefur ort sálma og mörg kvæði, þar á meðal eitt langt, sem heitir: Ljúflingur. „Steinunn sál. í Höfn" er Steinunn Finnsdóttir í Höfn í Borgarfirði, bróðurdóttir Finns á Kálfalæk. Hún lifði og var í Höfn 1710, segir Árni Magnússon. Ljóðakver hennar er til í Árnasafni Nr. 146 B. 8vo., en þar eru Gortaraljóð ekki, enda eru þau varla eptir Steinunni. Hún hefir ort mart; meðal annars Kappakvæði (sbr. Formála fyrir Króka-Refssögu, útg. Pálma Pálssonar XXXVI—XXXVII) og Ólafskongs kvæði með viðlag:

Ólafur kongur í öllu góðu gildi,
það var skrifað í sögunni hans,
þess sæmdarmanns,
hann fékk ekki að eiga þá, hann vildi.

Ennfremur hefur hún gert Hyndlurímur eða Logarímur, 5 að tölu, og Snækongsrímur, 4 að tölu. Er það alt í A M. 146 B. 8vo. Gortaraljóð munu hvorki geta verið eptir Hallvarð Hallsson, Hallgrím Halldórsson, Benedikt Bech né Steinunni í Höfn, því þau bera það með sér, að þau eiga ætt sína að rekja til skáldaskóla Austfirðinga,

sem kemur þar upp jafnhliða séra Stefáni Ólafssyni og er í blóma sínum fram undir miðja 18. öld. Þau gætu því vel verið eptir hvern af þessum mönnum, sem vera skal, Sr Stefán í Vallanesi, Sr Bjarna Gissursson í Þingmúla (f. um 1631 d. 1712), Sr Brynjólf Halldórsson í Kirkjubæ (d. 1735), Sr Ketil á Eiðum (d. 1774), Sr Halldór Eiríksson á Hjaltastað (d. 1698), Sr Sigurð Ketilsson á Skeggjastöðum (d. 1731), Sr Þorvald Stefánsson (frá Vallanesi) á Hofi (d. 1750), Sr Benedikt Jónsson í Bjarnanesi (d. 1744), og kanske fleiri, án þess mögulegt sé úr að skera, hver sé hinn sanni höfundur, ef kvæðið fyndist eignað þeim, því að blærinn á keskniskvæðum þessara manna er svo líkur.]

---

Í húsi einu heyrði eg tal,
þar hýrt var inni manna val,
yngismaður og mær var það,
sem mót sitt höfðu á þessum stað,
hyggnir mega hugsa um, hvað þau höfðust að.

Spök voru þau að spyrjast á,
spottlegt mun að segja frá,
hún í fyrstu hóf svo tal:
Hefur þú nokkurt aura val,
sem henta má til hjúskapar, nær hefja skal?"

1. Í húsi einu heyrði eg, öll, nema Þ; 2. hjal tveggja á förnum veg, öll, nema Þ; nema hvað Gl, F hafa: hjalið; 3. ungur maður B, Þ; og mey Bl, Gl, F, Bb, Y, R, Bm, V; 4. mót sitt höfðu Y, B, Gl; mót sitt héldu Bb, Kr, Hr, St, V, Bm; sem mál sitt héldu F, Bl; sem mál sitt höfðu á þeim Þ; 5. hugsa um það þau R; hugsa hvað þau V; mega heyra hvað B; 7. spottlegt er Y; spottlegt er að greina Kr; spottlegt mun að segja þar frá Gl; spottlegt mun þar greina frá B; spottlegt mundi að greina frá F, St; spottlegt mundi

Af flestu hef eg, frú mín, nóg,
fénu varla kem í lóg,
átta kýr og uxa þrjá,
ungneytin með prýði smá,
geldfjár mergð og geitpeninginn greina ei má.

Fjórtán hesta og fimtán hross,
folöldin eru nóg hjá oss,
dýrhundskyn og kisur tvær,
kampasíðar eru þær,
en tíkin Alba keyrir saman kýr og ær.

Kjólana og klæðin ný,
klúta fjöldann eins og mý,

---

að Bm; spottlegt mun að herma Bl; spaklegt mundi að heyra og sjá R; spottlegt var að heyra og sjá V; 9. hefur þú nokkuð Bl, Þ, R, Hr, Bb; 10. sem hentugt mundi hjúskaps til þá hófa skal F; er henta muni hjónaband þá hafa skal Y; er henta muni hjákaupið þá hafa skal Gl; er henta muni hjónaband þá hófa skal Bb; sem henta má til hjúskapar þá hefja skal Bl; sem henta má til hjúskapar þá hafa skal V; sem henta mundi hjúskap í þá hefja skal Þ; sem hentugt mundi hjúskap í nær hófa skal Kr; sem hentugt mundi hjúskap í nær hafa skal St; sem hentugt mundi (mætti B) hjúskapinn nær hófa (hafa B) R; 12. svo fénu Bm, B, V; því fénu Kr; kem eg í Hr: 14. ungneytin og sauði smá V; unglömbin með þrýði smá Bm; 15. geitféð mergð og graðpeninginn girnast má Bm; geitfjár meir og graðpening en girnast má R; geitfjármergð og graðpeninginn greina má Kr, V: geitfjár mergð og graðpeninginn girnast má St, Þ; geitfjár mergð (margt Gl) og graðpening sem girnast má Y, Gl; geitfjár mergð og graðpening sem greina (girna Hr.) má Bb, Bl; 17. eru þar hjá oss Bb, Hr, St, Gl,

krambúð rétt er komin þar
með kjallara og víntunnurnar,
vænna heimili veit eg ekki víða hvar.

Bæði á eg hött og hatt,
hempu væna, og það er satt,
púðurkrulluð parrukin
og prestaskrúðann albúinn.
Eldhúsið mun eitthvað geyma, Einar minn?

Eldsgögn falleg eru þar,
alfær smiðja og járnkallar,
hangiket við rót upp rís,
sem rottur hvorki fá né mýs,
margur hefur af minna hlotið makt og prís.

---

Þ; eru það hjá oss B; eru hér hjá oss Bm; 19. kátbroslegar Bm, Y; 20. en sl. F, R, Bl, Þ, V; 21—25. vantar í F, Bm: 21. Kjólarnir B, Bb, Hr, Kr, Y, Gl, V, St; 22. fjöldinn Þ, St, V, B, Bb, Kr, Gl, Y; meiri en mý B; 25. vænna heimili veit eg ekki víðast hvar Gl; vænna heimili veit eg hvergi vera en þar B, Bb, Hr, Kr, Y: 26. hettu og hatt V, Kr, Þ; húu og hatt B, Gl, Y; 27. hempuna B; húu væna Bb, F, R; og húu væna. Það er satt Þ; húu eina og St; húu líka og V; húuna og Kr; hettu væna og Bm; hjúpu(!) Gl; 28. púðruð, krulluð F, B; púðurkrullur, parrukin Y; púður, skruddur Bb; með prýði krulluð Þ; 29. og sl. Hr, F, R, Bl; prestaskrúða Kr, F, R, St, V; 30. eitthvað geyma, auðþöll svinn F; 32. ágæt smiðja Þ; járnkatlar St; 33. hangiketið rót í rís, B, Kr, Gl, Y; 34. ekki ná né mýs Y; hvorki ná né Gl, V; sem rífur hvorki rottur né mýs Bb; sem rakkar hvorki fá né mýs F; sem reykur hvorki fá né mýs Þ; því raska hvorki mölur né mýs

Búrið geymir býsna mart
bæði ker og annað þarft,
aska, diska, öskjurnar,
ámur, trog og skjólurnar,
kyrnur líka og kæsisdallar kúra þar.

Biblíur og bókamakt
á borðið er í stofunni lagt,
glóir hún öll með ægis ból
eins og skær í heiði sól,
þetta er hvorki skrum né skjal né skammlegt hól.

Búningnum á borði þar
bera lítt af stjörnurnar,

Bm; 35. minna fengið mesta prís Y; hlotið mektar prís St; hlotið maktar prís Bm, R, Þ; hlotið mikinn prís Gl; 37. bæði mat og Y, Kr, Gl; 38. og öskjurnar R; 39. ámur, bjöð og St; og föturnar Bb, Hr, Þ, Bl; 40. kollur smár og kæsishylki F; kyrnur, trog og kæsishylkið kúrir þar St; kyrnur bæði og kæsishylki kúrir þar R; kyrnur bæði og kæsishylkin V; og kæsishylkið kúrir Gl; kyrnurnar og kæsiskylkin kúrir Hr; kyrnur, bjór og kæsishylkin kúra B; kyrnibjór og kæsishólkur kúrir Bl, Þ; 41. Biblían með F; Biblía og Bm, R; Biblían og Þ, V; Biblíur með Bl; 42. í stofuna R, Þ, Bm; 43. logar hún Bb; með grettis ból Bm; öll hún glóir með F; 44. eins og skíni B, Kr, V; eins og skín Þ; 45. ei er þetta skrum né skjal eða skaðlegt hól R; hvorki er þetta skrum né skraf eða Hr, Bb, Bl; hvorki er þetta skrum né skjal eða Kr; skjal eða St; né skammnýtt B; hvorki er þetta skrum né skraf eða skaðlegt hól F; þetta er hvorki skraf né skrum eða V; þettað er ekki skraf né skrum eða Bm; þetta er hvorki skrum né skraf Þ; 46. Búnaðnum Bb; búnaðurinn borðsins þar Kr; búningi á

gulli settur allur er
og íðilsilfri, það finst mér,
að húskunum muni ei henta þar að hreykja sér.

Sængurklæðin sex á eg
sérlega væn og prýðileg,
engin fást hér önnur slík
svo ofurlega silkirík,
eg hafði þau út úr Hans beykir í Húsavík.

Fyrir landi flýtur skip,
sem flestir kalla nýtan grip,

borði V; búningurinn á Þ; búningur á Bl; 47. bera lítið af Þ; 48. og gulli búinn Kr, Y, B, Gl; 49. íðilsilfur Gl; ígulsilfri það lízt mér Kr; og af silfri það lízt B; og íðilprýði V; og eðalsteinum R, Bl, Þ; og eðalsteinum virðist mér F; 50. húskunum mun ei hentugt þar að hroka sér F; að heimskum sé ei hentugt þar að hegða sér Þ; húskunum ei hentar þar að hroka sér Bl, Hr; húskunum mun þar henta sízt að hroka sér V; húskunum mun henta lítt að hroka Bb, Kr; að sl. Gl; 51. sængurfötin Bb; 52. sannlega Bb; sannlega eru þau Kr; 53. ekki finnast önnur B; engin fæst hér Bm; ekki fást hér F, Þ; fást hér hvergi Bl, Hr; ekki fást nú önnur St, Kr; svo ekki fást nú V; ekki fást munu önnur R; engin fást nú Bb; 54. svo ógnarlega Y; svo undarlega Bm, R, St; svo undarlega prýðirík V; svo ógurlega F; eða því nær silkirík Þ; eða nokkur þessum lík Bl, Hr; svo ágætlega B, Bb; svo ágætleg mín silkibrík Kr; 55. út af Bb, Kr, R; út hjá F, St, Bm, Bl, Þ, Hr, B, Gl, Y; 57. sem sl. Bm, Bl, R, Y, Hr, Kr, Gl, V; 58. því sjálfur stýri um R; er sjálfur stýri um Bm; sjálfur stýri eg á saltan B; sjálfur stýri um V; sjálfur stýri á söltum Kr; því sjálfur stýri eg á saltan F, St; sjálft sér stýrir um saltan mar Gl,

sjálfur stýri eg um saltan mar,
með segli og veiðarfærum þar
drekkhlaðið á hverju kvöldi heim brunar.

Amboð mín eru ekki fá,
engum vinst að segja frá,
smíðatólin óhóf eitt,
til allra hluta er svoddan neytt,
herlúðra og hörpuslættinn hef eg þeytt.

Hey og matur eins og urð,
fyrir öllu þessu læst er hurð,
þjófar, mölur, mýs né ryð
mega þar ei snerta við,
allar skepnur una þar í elsku og frið.

---

Y; 59. veiðarfærin B, Kr, Gl; með segl og þ; með segl og veiðarfærur Bm; 60. dreghlaðið(!) R; með sl. B; 61. eru ekki smá R, Gl, Hr, Kr, Bb, Y; 62. uppi og niðri, til og frá Gl; uppi og niðri, stór og smá V; uppi, niðri til og frá St; upp og niður til og frá F, B, Bb, Hr, Kr, Y; 64. ekki skortir þetta neitt Bb, Hr, Kr, Y, Gl; til allra verka er svoddan neytt B, St; 65. hljóðfæri og herlúðrar, sem hefi eg þeytt Y, Gl, Hr, Kr, B, Bb, F, St; hörpuslætti og hljóðfærin, sem hef eg þreytt V; erindið vantar í Bm, Bl, þ; 66. Matur hreinn er F; maturinn hreinn er B; heyin, matur Bb; matur, heyin St; matur og heyin Hr, Bl, þ; maturinn (matinn R) heyið Gl, Y; 67. er lás og hurð St, Bl, þ, V, F, R, Hr; fyrir öllu er þessu lás með hurð Bb; lás með hurð Gl, Kr, Y; 68. mölur hvorki mýs Gl, Y; mölur hvorki mús né Kr; hvorki mölur, mýs Bb; mús né St, mús og F, V; svo þjófar, mölur, mús og R; 69. má þar nokkuð snerta við Bb; mega þar tegund snerta við Kr; mega þar

Vinnufólk er frómt og gott,
forðast lygar, háð og spott,
hatar kíf og ótrú, enn
alt eru þetta dánumenn,
karlar fjórir, konur fimm og kerlingen(n).

Sérlegt lán hef eg með alt,
ekkert sést á fótum valt,
peningurinn, hús og hjú
og hvað sem byrja vil eg nú.
Hér er sagður hagur minn. En hvað átt þú?

engu hræra við B; mega þar neinu granda við Gl, Y: mega þar ei granda við Bl, Þ; mega þar ekki St, V; mega þar ekki koma við F; mega þar ei haldast við R: 70. eru þar með R, St; eru þar með ást V; eru þar í Bl, Gl, Hr; eru hjá mér með F; eru þar með yndi og Y, Gl; una þar með Kr; unnast þar með B; 71. Vinnufólkið F, Hr, Kr, Bm, Bl; vinnufólkið frítt og Þ; 72. forðast bæði háð Bb, Hr, Kr, St, R, F, Bl, Bm; forðast leti, háð Þ; 73. hatar lygi og ótrygð Hr; hatar lygi og ótrú Bb: hatar kíf og úlfúð Gl; haturskíf og F; hatur, kíf St: hatar svik og ótrygð V: hatur, lygi og ótrygð Bl; þrætur hatar, ótrú Þ; hatur, lygi ótrú Bm; 74. allir eru þar B; vænir menn Þ; 75. karlmenn fjórir B, F, Þ; konur sex F; 76. Herlegt lán eg hef Hr, Kr; herlegt lánið hef eg Bb, F; 77. svo ekkert B; hvergi sést á Hr, Bl; svo hvergi sést á F, Bb; ekki sést á V; ekki finst á Bm; 78. vinnufólkið, húsin F; með vinnufólkið Þ: hús né hjú Bm; 79. eða hvað, sem þarf að starfa nú F: hvað, sem reyna vil eg nú Kr; hvað, sem eg áræði nú B: sem girnist þú Y; og hvað, sem meira vildir þú Gl; eða hvað, sem byrja vildi eg R, Sb, Bm, Þ; og hvað sem forma geri nú V; 80. hluti minn B; hagurinn eða hvað átt þú

Hvorki er eg snögg né snauð,
að síkja, þurfi eg mér út brauð
meðan heilar hef eg hendurnar
og hugvit mitt ei rénar par,
forstandið og fyrirsjónin fylgist þar.

Alt hvað jeg með augum sá,
eða heyrði sagt var frá
kann eg eins og að mata mig,
í minstu vil eg pretta þig,
hannyrð mín í hverri grein er heiðarlig.

---

Hr; hagurinn, en hvað Þ; hagurinn minn en Kr; 82. eða snikja Þ; svo sníkja St, F; eg mér brauð R; eg sl. Gl; 83. á meðan heilar hendurnar Gl, Y; meðan heilar hendurnar Bb; meðan hef eg hendurnar Hr; 84. ei rýrnar R, Bb, Hr, B; ei bilar F; og hugvit mér ei rénar par Bm; og hugvitið í annan stað Þ; og hugvitið ei V; og hugvits styrkur ei minkar Y; og hugvits styrkur ei rénar Kr; ei minkar par Gl; 85. (þar Bb, Kr) forstandið og fyrirsjónin fylgist (fylgjast Gl, B) B, Bb, Gl, Kr; fylgjast að Bm, F; þar forsjón bæði og fyrirstaðan Þ; þar forstandið V; forsjálnin og fyrirsjónin fylgjast að R; forsjónin og fyrirhyggjan fylgjast að Y; 86. Alt það, sem með augum sá Bb, Hr, Gl, Kr, Y; Alt það eg með B; Alt hvað sem St; Alt það, sem fyrir augun brá F; 87. ellegar V; eður heyrði sagt í frá F; eða kunnugt sagt var frá Bm; eða það, sem sagt var frá Bb, Hr, Kr, Y; eða kanske sagt Gl, Þ; ellegar kanske R, St; eða fyr sem sagt er B; 88. kann eg líkt sem mata R, V; kann eg rétt sem mata Bm; kann eg líkt og F; kann eg jafnt sem St, Bb, Gl, Hr, Kr, Y; er mér tamt svo enginn mann Þ; 89. í aungvu vil eg Bm; gabba F; auga þar á festa kann Þ; 90. handiðn (sem hannyrð er sjálfsagt breytt úr) Y, Hr, Gl, Kr, F; í hverjum stað F; handverk mín í hverri grein V; í

Hverskyns saumur tiltekinn
og teygja niður vefnaðinn,
er mér tamt, svo enginn mann
auga þar á festa kann,
hvað hönd er lipur, liðug, fljót, sem listum ann.

Meðal annars ótal mart,
sem öllum heimi er nærsta part,
saumað hef eg sessuver
sæmilegt til handa þér,
það heitir nú meira, hjartað mitt, en heimskan ber.

Alskyns saumi sett er það,
sem eg hefi komizt að,

---

hverju einu B, Bb, Gl, Hr, Kr, Y, R, St; er hátíðlig Y; hannyrðin í hverri grein Bm; erindið vantar í Gl; 91. Alskyns saumur R, B, Hr, F, Bl; 92. og sl. Hr, Bl; og telja niður Bb: og tempra Kr; 93. er eg svo fljót að R; er svo töm að F; en svo skjót að Gl, Y; svo að enginn Bb; 94. augu B, Kr; augun Bl; augað festa þar á kann R; 95. hvað handarlipurt, liðlegt fljóð svo listum ann B; hönd er lipur, lífleg, fljót, sú F; hvað hönd er liðug, lipur, fljót sú R; hvað hönd er lipur, liðug, mjúk og V; hvað hönd er lipur, lífleg, fljót sú Bl, Bb, St; hvað hönd er lipur, liðug og fljót sú Kr; hvað hönd er liðug, lífleg, fljót sú Hr; sú listum ann Gl; 96. Annars meðal F; yfrið mart Þ; 99. sæmilegt er anda þér Bm; 100. nú annað Bb; meira heillin (hjarta St(!)) mín B, St; nú annað heillin mín V, Þ; heitir annað hjartað mitt en Bm; það er nú annað í hjarta mín en R; það er nú meira hugvit mitt en (heimskum Gl) heimskan ber Gl, Y; 101. Af alskyns St, V; með alskyns Þ; hverskyns saumur settur þar (það Gl) Gl, Hr, Y; hverskyns saumum sett B, Bb, Hr; Alskyns saumum

upp og niður vel um vent,
að vísu mun ei drussum hent
í sjóferðum að setja á það svartan dent.

Veraldarkringlan víð þó sé
víst er hún þar í miðjunne,
heimsins áttir út í frá
alla vega telja má,
arkar dýrin öll saman þar eru hjá.

Sólin, tunglið, himna her
hægra megin birtist þér,
prestasveit og prófastar
og postulanna gjörningar,
en heilagir englar hrúgast saman hér og þar.

---

F, B; alskyns saumi í er þar(!) R; 103. Ekki lýg eg það að þér F; 104. valla mun V, B: að vísu mun ei rustum Hr, Y; svo varla mun B; varla er það Kr; þetta góða sessuver F; 105. að setja þar á B, Bb, Kr, R, St, V, Bm, Þ; í sjö stöðum Hr, Gl, Y; heitir meira heillin góð en heimskan ber F; 107. víst er þar F, Bb, Gl, Kr, Y, St, V; að vísu er þar Hr, Þ; víst þar er B; 108. og heimsins Hr, Gl, Kr; og heimsins áttir allar þar Y; og heims áttir út í frá B; 109. út í frá sem telja bar Y; allar þar í telja má Bb; allar saman telja má Þ; 110. Akrar, dýrin B; öll sömun Þ; erindið vantar í Bm; 111. Sól og tungl og Bb, Hr, Bl; sólin, tungl og B, Kr, F, R, St, V, Bm, Þ; 122. megin það lízt mér Kr; á hægri síðu R; birtast R, F, Bm; sjái þér V; 113. og prófetar Gl; og prófasta Þ; 114. og sl. Bl, Þ; 115. helgir englar Gl, Kr, Y, R, St, V, Bm; hrúgum saman Þ;

Víti sjálft á vinstri hlið,
vel máttu þar kannast við,
þar er allur fjandafans
að fljúgast á í einum krans.
Hvern, það sæi, reka mundi í rogastanz.

Orð sem gjörðir eru hér
og allra manna þankarner,
óknyttir við eina eik
ærast þar með skrítinn leik,
en dygðir kúra dauflátar í dimmum reyk.

Alt, sem er fyrir ofan jörð
og í sjónum hefur ferð,
það er alt í þessum stað,
þar máttu nú gæta að,
já, hundraðsinnum, sussu, meir, og satt er það.

116. Vítið Bb, Gl, Bm; 117. vel máttu og kannast R, St; 118. þar máttu sjá fjandafans R; 119. að sl. R; 120. hvern það lítur reka má (mun Gl) í rogastanz Y, Gl; hver það sæi R, Bm, Bl, Þ, F, St; reka myndi í R; rammastanz Bm, Kr; 121. Orð og gjörðir F, B, Hr, Y, Bl, Þ; eru þar B; 122. manna hugsaner Hr, V, Bl, Þ; þankafar B; 123. óvættir Y; 124. æða fram með Hr, Bl, Þ; æran þar með F; órast þar með R; 125. en dygðin kúrir döpur hjá í dimmum reyk Y; við dimman reyk Hr; kúra daufleitar St; dygðir kúra dauflátar við dimman Bl, Þ; en dygðir kúra djarfleitar í dimmum reyk R; 126. Alt það, sem er upp á jörð F, Bl, Hr, Þ; Alt, sem er fyrir ofan jörð V; Alt sem er ofan á jörð Gl; Alt það, sem er ofan á jörð, B, Bb, Kr, Y, St; Alt hvað sem er ofan á jörð R; 128. þar er hér í(!) B; það er og á Bb; það er flest í St; 129. þar máttu og gæta að

Hverskyns farfa heims um bý
hér máttu nú líta í,
ekki lýg eg því að þér
um þetta góða sessuver,
að enginn maður eins til búið annað sér.

Hálfsmánaðarverk mitt var
að vinna slíkt með kænsku par
í hjáverkum, því húsfreyjan
hörð er eins og ólukkan,
enginn maður á hér frið við árann þann.

---

Hr, Bl, þ; 130. og hundraðsinnum sussu, meir, já satt er það F; þúsundsinnum, sussu, meir og satt er það Bl, þ; meira og R, V; sussu, meir, og svo er það Bb; hundraðsinnum sérðu fleira, satt er það Y; já, hundraðsinnum sést þar meir og Kr; og hundraðsinnum þúsund meira satt er það(!) B; hundraðsinnum meira já ogg satt er það(!) Gl; þessar vísur 121—130 vantar í Bm; 131—135. vantar í Bm, Bl, þ; 131. Hverskyns farfi St; hverskyns litur Kr; hverskyns þarfa Gl; 132. hér máttu nú finna í Gl; hér má, vinur, finna í R, V; hér má líka finna í B; hér má, vinur, finnast Kr, St; 133. eg þessu að þér R; ekki lýg eg þar um þér Hr, B, Bb, Y; lýg eg það að þér Kr, V; 135. enginn maður V; því enginn maður ann þér líkt og ann eg þér Y; að enginn mann sér annað þvílíkt austur hér R; F sbr. 103—105; 136. Hálfan mánuð verk mitt var Y; 137. með kærleiks plag(!) Y; vinna slík með kænsku par Bb; 138. í hjáskotum Bb (hitt í orðam.), Kr, R, St, Bm, Bl, þ; þar húsfreyjan þ; 139. hörð var svo sem Bb, R, F; hörð var Bm; hörð er svo sem þ, St, V; 140. svo enginn maður á sér frið við áninn þann R, Bl; á sér fritt við ánann þann Bm; á sér frið við ánauð þann(!) V; svo enginn maður á sér frið við árinn þ, St; á sér frið Hr, Bb; á hér frið

Alt hefur enda um síðir
yfirlæti og heims gnótt,
brigðular brullaups tíðir
búrum líða frá skjótt,
að liðnu hófi lýðir
látast vilja heim fljótt,
drekkur á hest drótt.

Kapla saman keyra
kátir burt frá þeim stað,
lítt yfir öli eira,
ofan um kragann fer það,
af seggjum segist fleira,
sækja þá bæ að,
allkátir í hlað.

Brúðurin bíður úti,
þá bóndamennið heim fer,

---

Brúðkaupssiðakver eða brúðkaupssiðabækur eru enn nokkuð margar til, en allar óprentaður. Brot af bók með minnaforsögnum er í A M. 685. 4to. A. frá hér um bil 1500, á skinni, og eru það alls 7 blöð. það er sú elzta minnaforsagnabók íslensk, sem til er. Auk þessa eru brúðkaupssiðabækur bæði í Jóns Sigurðssonar safni og eldri hluta Landsbókasafnsins; sömuleiðis er um brúðkaupsiði eptir Jón Eiríksson í Bodleys safni í Oxford. 135. bulla af þ; 137. svo J Ól., P, þ, St; líka slög, **hin**, nema: og geðfeld líka lög hans R; einnig lög Útg.; 138. þá mola þ: 139. verður vinstanz Sk, R, H, P, þ, Sp; 147. Mér seg St, R, H, þ, Sp, H E; 151. sitji þér H E; 166. stykkjum H E; 173. mæla S; 175. af ölrensli P, þ, Gr; 177. gótt(!) þ: 178. brúðkaups St; 188. svo ber þá bæ að þ, Gr; 189. allkáta Gr;

hæversk hampar klúti,
heldur fyrir nef sér;
hann trúi eg stirður stúti,
stafi alla og gólf ber
vitlaus sem von er.

Kvendið kætist varla,
þá kraga-rýu sér hans,
gerir á griðku kalla,
glósar síðan með stanz:
Hann fór með fiðuna alla,
fallegt smíðið kragans
þótti þó þing manns.

Gerðan skaða að gráta
grundir segja að vont sé,
margir löngum láta
af litlu efni vænt fé,
þanninn þær í máta
þennan geymdu í hlé
kámugan kanské.

Hætti harma snaki,
þær heita kraga umbót,
einnig orðalaki
óðurinn þver um málsrót,

193. og heldur Þ, Gr, J. Ól.; 201. fiða = smágert lín; 202. fagurt smíði J. Ól.; 205. gumnar segja P, Gr; 208. þannig J. Ól.; 211. Hættir R, H, Þ, Sp, Gr.

enginn að sér taki
orða kímin brags hót,
sem festa hér fót.

---

## Hegðunarháttur
### sumra, er giptast.

[A Magn. Nr. 149. 8vo. = A; Þingeyrabók bls. 188—89; A eignar kvæðið engum, en Jón Sigurðsson segir við afskrift sína af því: „Vísur þessar sýnast vera svipaðar Sr Stepháni í Vallanesi". Þ eignar Sr Stefáni kvæðið.]

---

Góðu árin gera það hér,
að giptist hver, sem aktar sér,
furturinn, durturinn,
ef brókarlindinn bundinn er,
bryðjunnar þá óska fer
durturinn, furturinn,
þó ekki eigi hann ílepps spér
og ekki heldur durturinn, furturinn.

Á kennimanninn kallar strax
og klófestuna ráðahags
kollurinn, þollurinn;

---

Fyrirsögn: „Nokkrar vísur skrítnar" A; 2. ætlar sér Þ; 5. brúðarinnar þá leita fer Þ; 7. ílepps spér, tvítekið í Þ; 8. og ekki heldur = og ekkert heldur; furturinn, durturinn Þ; 9. Á sl. Þ; 10. klófestina Þ; 12—16. er skipað nokkuð

Hjóðið hefur fært til taks
ferðugur til blíðu lags
kollurinn, þollurinn;
alt skal búið annars dags,
anzar þessi kollurinn, þollurinn.

Vikuna fyrstu bæði blíð
búa saman hjartaþýð,
svo ekki vantar brellurnar, rellurnar;
aðra flóknar yndisklíð,
öll er horfin kossahríð
og rellurnar, brellurnar;
þriðju byrjast nagg og níð,
nú eru horfnar rellurnar, brellurnar.

Lafa þau saman árið eitt,
er þeim hjónabandið leitt,
svo hvorugt má annað sjá þá, þá;
brjótast um með hjartað heitt,
af hrakyrðingum bæði sveitt,
því hvorugt má annað sjá þá, þá;
loksins skilja þanninn þreytt,
þaðan í frá hvorugt má annað sjá þá, þá.

---

öðruvísi í Þ; 12. flutt til lags Þ; 13. til blíðu taks Þ: 15. annars dags, tvískr. í A, en tvítekið í Þ; 16. anzar þessu A; 18. búa þau Þ; 19. svo hvorki vantar rellurnar brellurnar Þ; 20. aðra fölnar yndisklíð A; 23. nagg og níð, tvítekið í Þ; 24. og nú eru úti Þ; 25. Lafi þau Þ; 27. svo hvorki má Þ; 29. bæði þreytt Þ: 30. svo hvorki má Þ: 32. þaðan

Erfinginn, sem eptir stóð
illri náir húsgangs slóð,
og vex svo upp í vömmunum, skömmunum,
foreldranna birtir blóð,
bölið eykur, sveitir þjóð
í vömmunum skömmunum;
útför verður ekki góð,
ef endar líf í vömmunum, skömmunum.

Laga veldur leysi því,
að landinu gengur þanninn í,
margir þyrma þjófunum, bófunum,
landsbúanna mörg sem mý
millum æða vonzkuþý
af þjófunum, bófunum,
valdið gefur frelsi og frí
f[yrir] gagn af þjófunum, bófunum.

## ÓMENSKUKVÆÐI.

[Útg. bls. 34—46; Fs = Skýrsla um forngripasafn Íslands í Reykjavík II. bls. 25 og 158 neðanmáls; Varðgjárkver; hdr. Sr Þorvaldar Böðvarssonar; D = A Magn. Nr. 149. 8vo. (Vallakver); $Br_1$ = Brot af kvæðinu í A Magn. Nr. 441. 12mo.; $H_1$ = Heil afskrift af kvæðinu í A Magn. 441. 12mo.; Kvæðasafn Jóns faktors Stefánssonar á Berufirði (Bmfél.

---

i frá, því hvorugt A; þaðan í frá hvorki má þ; 34. á illri reikar húsgangs slóð þ; 39. útförin þ: 40. ef endast líf þ; 41—48. vantar í þ.

Nr. 9. 8vo. brunnið; 11 erindi að eins, en hefir hér ekki verið lengra); Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.: Rask 46. 4to. (Rasks eiginhdrr.); Páls safn Nr. 1. 8vo. XXII. b. (orðam. sem Páll hefir skrifað inn í expl. sitt af prentuðu kvæðunum); Bmfél. d. á Ísl. Nr. 111. 8vo.; $H_2$ = J Sig. Nr. 271. 4to. (með hendi Halldórs Hjálmarss.); $Br_2$ = British Museum Nr. 11,185. 8vo. (F Magn. 413. 8vo.); Sk = J Sig. Nr. 263. 8vo. (úr nótnasöng á skinni utan um); J Sig. Nr. 92. 8vo. bl. 112—16; J Sig. Nr. 82. 8vo. bls. 57—74; J Ól. = Jón Ólafsson frá Grunnavík í orðabók sinni undir: bóndi, dofi, dorri, hönd, korra o. v., og Add. B. U. H. Nr. 6, 4to. bls. 891, Nr. 7. 4to. bls. 1906, Nr. 8. 4to. bls. 2893, 2913: Hálfdánarbók mín 4to. bls. 51—53.]

---

Hvað mun því valda
að vorrar aldar
er víl svo hátt?
Þeir fénu ei halda,
þá fjúkin tjalda
um fenta gátt;

---

Fyrirsögn: „Ómenskubragur“ H, H E; „Óaldarbragur“ J Ól. (á einum stað); „Ómenskukvæði. Raustin er Jakobs &c. S. Th.“, Sp; Jón Ólafsson segir að Sr Stefán hafi lesið kvæðið upp við kirkju eptir messu fyrir sóknarbændum sínum, er honum hafi þótt þeir ríða of mikið út og gefa sig við öðru sukki og segir, að mælt sé að þeir hafi látið sér segjast: „Dominus Stephanus Olavii, quum aliquando videret rusticos parochiæ suæ desidiæ, ut illi videbatur, excursionibus equestribus et id genus aliis, quæ curam oeconomicam impendiunt, deditos esse, concinnavit carmen, vulgo dictum Ómenskukvæði, quod publice post sacra peracta coram colonis parochiæ suæ recitavit, quo audito, ut ferunt, diligentiores facti sunt“ J Ól. undir bóndi sbr.

sú grandaði ei alda
þeim gömlu þrátt;
mig girnir að skjalda
um slíkan hátt.

Hjá fyrri mönnum
sér undi í önnum
hið ítra geð,
þeir gnístu tönnum
með sæmdar svönnum
og sóttu féð;
svoddan grönnum
var lukkan léð,
en letin bönnuð
og sjálfræðeð.

Til hlýku klæðum,
en hlífðar skæðum

---

Add. Nr. 7. 4to. bls. 1906. 4. sér fén ei halda Útg, S, Sp, $Br_2$, Re, R, Bm; 6. við fenta gátt K; um fenta átt Sk; 7. það gerði ei valda V; sú grandaði ei valda(!) $H_1$; sú grenjaði ei alda Sk; 9. að sl. V; 10. svoddan hátt H E, V, $H_1$, St, $H_3$, Sk; 7—10. „Non recordor sequentia primæ hujus strophæ (tilvitnanir Jóns eru því eptir minni), sed apponere libet, ut ratio metri conspiciatur:

Letin margfalda
liggur þrátt
á lundum skjalda
og leikur þá grátt“

J Ól. undir: bóndi; 12. undi önnum St, P; sér untu $H_1$; 13. hið innra geð Sk; 14. D byrjar hér; 15. með sóma Útg; með sæmdum V; 17. því svoddan Bm; mönnum $H_1$; 18.

þá hagað var,
um hispursfæðu
og húsgangsræðu
þeir hirtu ei par,
þó blæddi úr æðum,
þá broddur skar,
brosandi kvæðin
heyrðust þar.

þá girnti ei kaupa,
ei rölta né raupa
eða ríða þrátt,
en millum staupa
nam hjaldur að hlaupa
um hug og mátt,
auðurinn draup
að yrkti gátt,
ómenskan kraup,
en leit ei hátt.

---

listin léð V, St, R, K, Sk; 19. en leti Útg, D, S, St, R, Sp; 21—30. skiptir sæti við 31—40. í H E; 21. Til hlífðar skæðum H E, V, K, $H_1$, $H_2$; 22. en hægðar skæðum Útg, Sk, St, R, Re; og höfðings klæðum V; en hlýku klæðum H E, $H_1$, K, $H_2$; 23. þá hegðað var Útg, St, $Br_1$, R, $H_2$, H E; hefðað $H_1$; 25. og húsgangsmæðu $Br_2$; 26. ei hirtu par H E, V, D, $H_2$, K; 26. þá blæddi úr æðum H E, $H_2$; er blæddi V, D; 27. ef blæddi S, St, Re, R, Sk, Sp; 28. er broddurinn H E, $H_2$; þar broddur V, D; þar broddurinn St, Re, $Br_2$, Sp; 29. kvæði H E, Útg, St, Re, S, R, $H_2$, $Br_2$, Bm, Sp; 31. ei að kaupa H E, $H_2$, $Br_2$, Sk; 32. ei sl. Re, Sk; 34. en sl. $Br_2$; á millum H E, V, $H_2$, K; 35. réð

Víkur nú efni
frá vinnugefni
að vorri þjóð,
sem einatt nefnir
í áti og svefni
sé unun góð,
þótt að mér stefni
hún sterkum móð,
stöðva ei vefnað
þessi ljóð.

Af þessu mengi
vill þegn ei lengi
sér þjóna brauð,
svo verk ei sprengi
sig gipta gengur
í grönnum auð,

---

hjaldur Re, P, Sp, Bm; nam háaldur hlaupa $Br_2$; að sl. V, D; 36. um huga og H E, $H_2$; um hyggju dátt V; 38. að ytri H E, V, $H_2$; jtri $H_1$; 39. en ómenskan K; 40. og leit ei H E, K, D, $H_1$, $H_2$; og misti sinn mátt Sk; og misti mátt V; 41. Nú víkur efni V; 42. að vinnugefni V; hjá vorri þjóð V; 44. sem optast D; nefni Sk; 46. ununin H E, St, Re, R, P, Bm, Sk, Sp, K; 47. að þó mér H E, $H_2$; þó að V; þó að mér stilli $H_1$; 48. sterkan Sk; ströngum H E, $H_2$; stoltum V; 49. stöðva ei vefnaði S, St, P, Bm; stilla ei vefnaði R, Sp; þá stöðva $H_1$; stilla ei vefnaðinn Re; stilli eg í vefnað V; stilla ei vefnað B, $Br_2$, Sk; stöðva eg efni K; stilli eg það efni H E, $H_2$; 50. um þessi ljóð K; í þessi ljóð H E, $H_2$; 51. Hjá þessu V; 52. sér lengi $H_1$; 53. ei þéna $H_1$; sér þéna Útg, V, D; 54. ei þrengi Re, P; 55. sig gipta gengi Fs; 56. með grönnum V; og grónum Fs; 57.

með kjól og hengi,
sem bringan bauð,
í buxurnar strengist
peisan rauð.

Með gagnlegu hári
í gyllini-ári
sig giptir hann;
beizlar nú klárinn
með bólginn nára,
og bólstað fann;
um sumarið dára
seggi vann,
en setti skára
á túnhalann.

Við sína maka,
sigurinn slakar,
nú svallar fyrst,
með þeim er að kvaka

hengi (ɔ: sverðfetill) Fs; 59. í buxunum HE, D, Bm, Re, $H_2$, K, $Br_2$, Sk, Sp; í buxunum strengir $H_1$; 61. með gagnlegu hári V, D; 62. í góðu ári V; í gagnlegu ári D; og góðu ári Sk; 63. svo giptist hann Re, R, $Br_2$, P, Bm, Sp; 64. nú sl. V; 66. og bústað Sk; 67. en sumarið $Br_2$; 68. hann seggi Sk; 69. er settu skárann $H_1$, P; er settu skára HE, Sp, Bm, V, D, H, S, St, Re, R; er setti $Br_2$; sem settu K; 72. á sigurinn slaka Útg, St, V, Re, R, Sp, D, $Br_1$, K; á sigurinn laka $H_1$; er sigurinn slaka $Br_2$; 73. að semja fyrst Sk; að segja fyrst V; 74. við þá, sem kvaka

og tóbak taka,
það talin er list;
hey þarf ei raka
hringarist,
af hestinum vakra
engið bízt.

Þá húsgangsdretta,
sem ljúga af létta
að löndum ber,
þeir spyrja þá frétta,
og fá sig metta
við froðuker,
af sköllum detta,
en sérhver sver,
að satt muni þetta,
er fregnin ber.

Með hattinn í vanga,
þeir spjátra, þeir spranga,

---

H E, K; við þá kvaka V, $H_1$, $H_2$; 75. og tóbakið H E, Sk, Sp, $Br_2$; sem tóbakið D; að taka Re; 76. sem talin er V; 79. við hestinum vakra H E, $H_2$; 80. enginn býst H E, $H_2$; 81—90. skiptir um sæti við 91—100. í H E; 81. Þá húsgangsdretti H E, $H_2$; nær húsgangsdretti Útg, R, St, Re, Sp, $Br_2$, Sk; dretter D; „drettr ɔ: døgenigt" Re; 82. er ljúga Útg, $H_1$, H E, $H_2$, $Br_2$, St; sl. bæði er og sem D; 83. að landi V; og að löndum D; 84. þá spyrja þeir frétta Útg, D, $H_1$, St, Re, Sp, H E; 85. og fara að Útg, H E, St, Bm, $Br_2$, $H_2$, K, Re, R, Sp; fá að D; 86. við sl. Útg; 87. sköllunum D, $H_1$; 88. nú sérhver $H_2$; 89. satt er $Br_2$; 90. fregnin ber H E; sem fregnin V, $H_2$, Sk, K; 92. þeir spreita

þeir sperra sinn legg,
þeir stíma, þeir stanga,
þeir masa, þeir manga
við moldarvegg,
með skúfana langa
þeir laga sitt skegg,
og láta þá hanga,
þó úti sé hregg.

þeir renna, þeir ríða,
þeir skrefa, þeir skríða
á skjótum jór,
með hempuna síða
og hettuna víða
á heilakór;
sá undan kann hýða
læzt ekki mjór,
en eptir að bíða
er minkun stór.

Frá morgnum til kvelda
að matnum velda

D; þeir sl. V; 93. sperra sinn legg $Br_2$; og sperra legg V; og sperra sinn Útg, St, R, Re, Sp, Sk, K, Bm; 95. mása V; 98. þeir laða D, $H_1$, Sk; 99. og láta það hanga Fs, H E, Re; 102. þeir skrafa V; þeir skunda D; 104. með hempuna víða Sk, J Ól.; 105. og hettuna V; og hettuna síða Sk, J Ól.; 106. um heilakór Útg, V; 107. sá undan kann ríða H E, $H_2$; sá undan vill D; 108. er ekki H E, $H_2$; læzt ekki sljór $H_1$; ei læzt $Br_2$; 109. en eptir bíða V; 110. minkunin H E; óvirðing J Ól.: 111. Að matnum velda H E,

þeir mingra sér
við tóbakselda,
en taðan ófelda
á túnum þver;
kvíærin selda
í kaupstaðinn fer,
hvort konunni geld
eða mylk hún er.

Fyrir kjarnann strokka,
kvíærnar, sokka
og klæðin úr ull
tóbakið lokka
úr kistum kokka,
það kaup eru öll,
brydding, þráðdokka
og barnagull,
og borða að plokka,
er gagnsemd full.

---

K, $H_2$; Af matnum velda Bm: 112. frá morgni til kvelda Bm, K, H E, $H_2$; af matnum velda Re, V; á matnum Sp; við matinn Sk; 113. þau mingra Sk; þeir sl. V; 115. en taðan felda K; 116. á túnunum $H_1$, H E, $H_2$; á túninu V, Sk; 121. kjarna $Br_1$ (byrjar hér); 122. kvíær og sokka V; kvíærin Sokka $H_1$; 123. klæði Útg, H E; klæðið Sk; 124. tóbak K; 126. eru full V; 127. þráðsdokku Útg, St, R, Re, Sp; þráðs dökkva $Br_1$, $H_1$; þráðsdokka $H_2$, P, Bm; 128. sem barnagull Útg, H E, $Br_1$, Bm, K, Sp; 129. og borðann V; 130. er gagnsemin H E; er gagnsemdin P; er gagnsemd öll V; 131. þeir hrjóta, þeir sofa Útg, D, St, Re, R, $Br_1$,

þau hrjóta, þau sofa,
það hjúin lofa
þá hinir slá,
hún fyrir ofan
með handadofann
og hóstann smá;
í hlöðukofann
er hrygð að sjá,
til heys og rofa
á kapla þrjá.

Í túninu stendur,
en seppi er sendur
og sigað á það,
en bóndinn og kvendið
breiða hendur
báli að,
fingrinum benda,
en fara ei úr stað,
fénaður lendir
uppi við hlað.

Sp; þau hrjóta og sofa H E, K; 132. hjúin það lofa Sk; 133. en hinir slá D, $H_1$; 134. en hún H E, D, $H_1$, Re, R, $H_2$, Sp, K; og hún $Br_1$; 135. með handardofann $H_2$; 136. og hósta smá H E, V; 139. heys er þar hroði H E, $H_2$; til heys órofaðs $Br_2$; 140. á kaplana þrjá $H_1$; 141. í túnum Útg; 142. og seppi $H_1$; þá seppi Útg; 143. og sigað af (á $H_2$) stað B, Br, St, Re, Sp, H E; að siga á það D; 144. en bóndi og kvendi D, $H_1$, Bm, Sk; bóndinn og kvendi Sp; 145. nú breiða Utg, Re, St, Br, Sp, Bm; þau breiða $H_1$; 146. bálinu H E, V, $H_1$, $H_2$; bóli $Br_2$; 147. fingrum $H_1$

Konurnar dóla
á kvíabóli,
þá kvöld er nær,
með tómar skjólur
títt heim róla,
því týndust ær,
margar sig fólu
í fyrra gær,
um fjöll og hóla
svo tvistrast þær.

Nú kemur hann þorri,
en krýpur hann dorri
og koltna ær,
þá segir hann Snorri,

---

fingrunum V; 148. ei fara úr stað Útg; og fara ei $H_1$; ei fara af stað V, Re; en fara eigi af Sp; hann fer ei af Sk; 149. fénaðurinn H E, D, $H_1$, St, Re, R, $Br_2$, Bm, Sp; stendur Sk; 150. heima við H E, $H_1$, $H_2$, D; heima um V; heim við K; 131—50. vantar í $Br_1$; 151. En konurnar V, D, Sk; 152. á kvíabólið Útg, R, Re, St, Sp; á kvíaból $Br_2$; 153. kvöldi er H E, Útg, D, $H_1$, S, St, $H_2$, Sk; 154. tóma skjólu P, Bm, Sp; 155. en títt Útg, St, Re, R, $Br_2$, Sp; þær títt $H_1$; 156. því týnast R, P, Sp; 160. svo sl. H E, S, V, Br, K; tvistuðust H E; svo tvistruðust $H_1$, $H_2$; 161. Kemur hér Útg; kemur hann H E, J Ól.; hér þorri Re, R, $Br_1$, K, Sp; 162. svo krýpur Sp; en krýpur dorri V; þá krýpur hann Útg, St, R, Re, D, $H_1$; krýpur hann J Ól.; 163. klekkna (ekki: klökkna, eins og útg. segir) $H_1$; kólkna V; kolpna D, $Br_1$; kolpa P; kóldna Sp; en kolkne K; og krókna J Ól. (Add. 7. 4to. bls. 1906); en kropna J Ól. (Add. 8. 4to. bls. 2893); 164. segir hann Snorri Sk, J Ól.; nú

í sumum korri,
en svelti tvær,
að ætlan vorri,
sér ennið klær,
en ei veit hvorri
nú bjargað fær.

Fyrir lötum aula
kemst alt í þaula
og auratjón,
nú drynur hún baula,
en börnin raula
við baðstofu-ón,
af sultinum gaula
þau Gunna og Jón,
þeim gefst ei að maula,
en komið er nón.

Fyrir aumu hreysi,
það aflar hneysu,
er engin hurð,
nú kastar hann meisi

---

segir $Br_1$; hann sl. $Br_1$, K; 168. sér endann klær HE, $Br_1$ (í orðam.), K; 169. og ei HE, Sk; en sl. V, D, $Br_1$; 170. nú björg að fær $Br_2$; nú sl. HE, Sk, V, D, $H_1$, St, $H_2$, K; 171. Fyrir örmum HE, V, D, $Br_1$, $H_1$, St, $H_2$, Sk, K; 172. alt kemst nú í þaula(!) P; 173. að allra sjón D; 177. af sultnum Útg; 178. og hann Jón HE, $Br_1$, $H_2$; hún Gunna og hann Jón St, Sk, J Ól.; 180. þó komið sé nón D, $Br_1$, $Br_2$, K, Sk, $H_2$; 181—90 er í flestum hdrr. á undan 191—200 í röðinni; 181. örmu hreysi HE, V, $Br_1$,

í mjólkurleysi
og matarþurð,
þó þyrillinn geisi
og þél séu urð,
þróast nú kveisa
af innanskurð.

Það þori eg að sverja
að saumuð er verja
á svanga kú,
í fjúkum að berja
og brumið að merja
á baula nú,
ef sér til skerja·
þá skröltir sú,
um skorpuna hverja
hún sveltir í bú.

---

$H_1$, $H_2$, Sk; 182. hneysi $Br_2$; 184. kastar nú $Br_2$; hann kastar nú Sk; 185. af mjólkurleysi, öll, nema H E, Útg, St, $H_2$; 188. en þélin séu urð V, $Br_1$; en þél Re, $Br_1$, P, Bm; 189. nú sl. $Br_1$; 190. með innanskurð $H_1$; 191. Hér þori eg sverja Útg, Bm, Sp; Hér þori eg að sverja St; þori eg nú sverja Re, R, P; Eg vil það sverja Sk; 192. að sl. $V_1$, K, H E; en saumuð er D; 193. um svanga H E, D, K, $H_2$; yfir svanga $H_1$, $Br_1$; 194. í fjúkinu að herja D, Sk; í fjúkin að herja $Br_1$, $H_1$; að herja H E, K, V; 195. að berja H E, K, V, D, $B_1$, $H_1$; og brynjuð að berja Sk; 196. á baulan Útg, Re, R, Bm; er baula D; er baulan Sk; þarf baula $Br_2$; 197. hvar sést til H E; nær sést $Br_2$; ef sést St, Re, Sp; þá sést $H_2$; það sést D, K, Sk; 198. þar skröltir H E, $H_2$, Bm; þar skjögtir $H_1$; þar og þá sl D, $Br_1$; 199. við skorpuna K, Sk; við skepnu D; við skepnuna V; 200.

Nú kemur sà dagur
að klárinn magur
í kreppu er,
á litinn fagur,
að rísa ragur
og rifjaber;
það er nú slagur,
hann segir með sér,
og sorgarbragur,
ef þessi fer.

Svo líður af nóttin,
þá lifnar sóttin
og lukku bann,
fákanna óttinn
þá finst hinn skjótti,
er flesta vann,
dávakur þótti,
en dauður er hann,
daprar hugsóttin
eigandann.

---

sveltur V, D; svelt er hjú $Br_2$; 201. Nú sl. $Br_1$; þá kemur D; 203. í kreppu fer Sk; 205. en rísa D, $Br_1$, $H_1$, K; en reisa Sk; 206. þó rifjaber $Br_2$; með rifin ber P, Bm; 207. það er nú, tvískr. í $H_1$; bragur Sk; 208. hann segir og sver V, $D_1$, Br, H, Sk; 209. og sorgarslagur Sk; 211. Nær liðin er nóttin Útg, St, R, Re, Sp, Bm; Nú líður nóttin HE, $H_2$, K; þá liðin er D, $Br_1$, $H_1$, $Br_2$. Sk; 212. þá sl. HE, $Br_1$, K, V, D; lifnar flóttinn V, $H_1$; en lifnar flóttinn Sk; lifnar úrflóttinn(!) $Br_1$, $Br_2$; 213. HE, $H_2$, K; lukku bann D; um lukku bann, öll hin; 214. D, $Br_1$, $H_1$; öll

Hann anzar nú þjáður
af örbyrgð smáður,
því innan sker:
Hvað mun til ráða,
því skemdin skráða
nú skollin er?
Eg hefi ei dáð
að hjálpa mér,
hamingjan náði,
þá svona fer.

Sér öllum ekur
og ráðin rekur
um rænu mið, —
samvizkan vekur —
og svarar nú sekur
með sáran kvið:

hin hafa: ótti; 215. þá sl. HE, K; nú finst $H_1$; þá fanst $Br_1$; 216. sem flesta V; 217. og dávakur Re; dágóður þótti $H_1$; 218. og dauður er Útg, Sp; 219. dapra hugsóttir Útg, Re, R, Bm, Sp; 221. anzar nú smáður $Br_1$, V; hann anzar sem áður, D; anzar nú fjáður $Br_2$; anzar nú hrjáður Sk; 222. og öbyrgð hrjáður D; og örbyrgð Sk; af örbyrgð hrjáður Útg, St, R, Re, $H_1$, $Br_1$; af örbyrgð þjáður V; háður B, P, R, St; 224. er til V, D, $B_2$, Sk; 225. því sl. $Br_1$, $Br_2$, Sk; mér skemdin V; 226. nú sl. $V_1$, $Br_2$; á skollin er K; 227. eg hafði $H_1$; ei hef eg K; 228. að hjálpa þér $H_1$; 230. þá svo HE, $Br_1$, $H_2$, $Br_2$, Sk, P; að það svo V; 232. en ráðin HE; 233. um ræðu mið HE, D, Sk, K, Sp; 234. hann ræðu vekur HE, $H_2$; þá vizku vekur Útg, St, Bm, V, Sp; samvizku vekur $Br_1$, $H_1$, Re, R, Sk; hann vizku vekur K; 235. og sl. Sk; og segir sekur V; hann segist nú sekur D; og

Ef aurafrekur
ei leggur lið
oss lengi tekur
sveitin við.

Nú tekur að hagga,
í vesöld vagga,
hann veruna sleit;
með hópinn kjagga
í hýði plagga
á hennar sveit;
hans eru nú baggar
börn ófeit,
en blossann þaggar
í eyðireit.

Eg segi þær fréttir
að svo gár þetta
í sveitum nú,
ómenskan sprettur
og álnum flettir
hin öflgu bú,

---

anzar sekur $Br_1$; 236. við sáran Útg, H E, $Br_1$, St, R, $Br_2$, Bm, K, Sp; við sjálfan sig $H_1$; 339. o s s sl. H E, $H_1$, $H_2$, D, $Br_2$, K; 241—50. skiptir í H E sæti við 251—60; 241. um hagga Útg, $Br_1$, Sk, Sp; 242. að vagga Sk; 243. hún veruna H E, $H_2$, K; hann verju $Br_1$; hann vöruna St: og veruna $Br_2$; 244. kjaggar Sk; 245. og hýði plagga H E; og hýðin plagga $Br_2$; 247. n ú sl. H E, D, Sk; 249. en blossar Útg, St, R, Sk; blossinn $H_1$; þagga $Br_2$; 251. að sl. V: sorg er þetta Bm; 254. prettar Sk; 255. og auði V, D, $Br_1$.

fullrösk að metta
húsgangshjú
er haldin hin rétta
og sanna trú.

Ábyrgðarminna
er ærlega að vinna
og eta sitt brauð
fyrir orkuna stinna,
og láta ei linna
að lofa sinn guð,;
hann gætir vel sinna
og gefur þeim auð,
góður þjón finnur
björg í nauð.

Að hróðrar safni,
þó héðan af kafni,
nú hyggi drótt,
ómensku hafni.
svo aurar dafni
af iðnum þrótt,

Sk; en auði $H_2$; en auð H E; 256. hin auðgu V; hin öflugu H E, $H_2$; 261. er haldin rétta $H_1$; 261—70. vantar í $Br_1$; 262. er ærleg vinna V; er erlega að $H_2$, K; 264. orku H E, Útg, St, Re, R, K, Sp; 265. og sl. V; ei láta linna $Br_2$; 267. vel sl. Útg, H E, D, $H_1$, St; 271. Hróðrar safnið Sk; Hróðrarsafni D, $Br_1$; „hrodar$^{r}$" $H_1$; 272. dafni V; drafni D, $Br_1$, $H_1$, $Br_2$, Sk, K; 273. nú sl. H E, $H_2$; hyggja V; þá hyggi D, $Br_1$, $H_1$; hyggin St; 275. svo auðurinn D,

slensíunafnið
er leitt og ljótt,
í leti að drafna
er versta sótt.

Búmönnum góðum
og bænda fljóðum
eg blessan sel,
og vinnumóðum
síns verks á slóðum
þó vaxi jel.
Máist svo óður
og mælsku þél.
Minnist þér ljóða,
og farið vel.

---

$Br_1$, svo auðurinn D, $Br_1$; svo aurarnir H E, $Br_2$; en aurum safni V; 276. af iðnis þrótt V; 277. slensíunafn D; 278. er slétt og ljótt Re, Sp; 279. að kafna, öll, nema Útg, St, Sp; 280. er lakasta P, Bm; 281—90. vantar í $Br_2$: 282. sem bændafljóðum, Útg, H E, St, Sp, $H_1$, Re, $H_2$, K; 285. á vegar slóðum D; 287. nú hróður Sk; máist óður H E, K; 288. og mærðar (nærðar(!) $H_2$) H E, $Br_1$, D, $H_1$, Sk; af mærðar V; 289. minnist nú ljóða H E, $H_2$, K; minnist þó ljóða D; minnist ljóða Sk; 290. og farið nú vel Útg, St, R, Bm; farið þér D, $Br_1$, $H_2$, K; búi þér $H_1$.

## Vinnumannakvæði.

[Stokkahlaðabók (eignar Sr Stefáni); G = Kvæðabók Gunnlaugs Jónssonar á Skuggabjörgum II. bls. 248—53 (eignar engum); Jón Ólafsson frá Grunnavík tilfærir tvívegis, að eg hef fundið, 29—30 úr þessu kvæði, og eignar á báðum stöðum Sr Stefáni Ólafssyni.]

---

Langsamt þykir að þreyja,
þjóð er á skemtan fús,
þar allir þumba og þegja
það er ei glaðvært hús,
því vil eg skemta þjóð
og þessi færa ljóð,
engum vildi eg auka mein,
angur, stríð né móð.
Þundar vín skal þilja,
þeir hlýði, sem vilja.

Öfugur er mjög heimur
orðinn hjá því var,
margur kátlegur keimur
kominn hér og hvar
Ísalandi á
almúganum hjá,

---

Fyrirsögn: Vinnumanna látgæði J Ól; Kvæði um vinnumannanna látgæði St; 2. er sl. G; 3. þá allir G; 4. þá er ei G; 5. því skal skemta G; 6. og sl. G; 8. angur, stygð G; 10. þeir hlýða St; 11. mjög sl. G; 13. mjög kátlegur keimur G; 18. eg skal greina G; 19. hér vantar annan stuð-

örfátækir iðka mest,
eg vil greina frá,
heims ósóma þrenna,
þá skal hinn fjórða kenna.

Eitt er yfirlæti,
eg sé á mörgum mann,
en hvorki í sess né sæti
siðlega standa kann,
hristir hvirfils reik,
hann þegar kemst á kreik,
þó geti varla gyrt sig vel
sér gamna að þessum leik,
hárprýðinni hampa,
herlega snúa út kampa.

Meina eg það þykist maður
mikið eiga að sér,
ef hans hvirfilvaður
hylur kjálka ker,
státar mest sem má,
þá mönnum stendur hjá,
en ef nitur glittir í glögt,
svo gerla megi sjá,
held eg hægan sóma
að hárprýðinnar ljóma.

---

ulinn; heims ósómann þrennan St; 20. þó skal G; 21. Eitt það yfirlæti G; 26. hann þá kemst G; 28. sér gamna að þeim leik St; 30. herlega steyta út kampa J Ól; 31. Eg meina það þykist G; 33. ef hans hvirfils vaður G; 36.

Annað jeg vil inna
í óðarsmíðis þátt,
má þann margan finna,
hann metur sig svo dátt,
hverskyns heims hoffrakt,
hispur og klæðadrakt,
sem aðrir menn með efnin góð
upp á sig hafa lagt,
húsgangs heimskan tóma
heldur það fyrir sóma.

Hvort skal eg kaupa klæði
og klenódíin mörg,
silki og samet bæði,
en sjá mér enga björg?
Heyrðu, maki minn,
megn er fátæktin,
hugsaðu ei þú haldir þig
sem herramaðurinn,
sem alskyns aura hefur
og öðrum með sér gefur.

Þriðja er tóbakstekja,
sem tíðum gengur ríkt,

mönnum er stendur hjá G; 37. en ef nitur glitta í glögt St; 40. blóma G; 43. má þar margan G; 44. hann meti St; 45. heimsins frakt G; 46. hefð sem klæðadrakt G; 47. er aðrir menn með efnin nóg G; 48. ei á sig hafa lagt St; 50. heldur sér það sóma G; 51. Hvar skal eg St; 52. eða klenódíin G; 56. sem megnar fátæktin G; 57. hugsaðu ei þótt haldir þig G; 59. er alskyns G; 62. sem sl. G; 63.

má það margan vekja
mann að gera [líkt],
það gerir lítið gagn
og gæfu lítið magn,
kalla eg slæmt að kaupa slíkt
kátlegt peninga agn,
sá, sem sumar og vetur
sig ei lífgað getur.

Enn skal hinn fjórða auka
óð að gamni sér
um bifsaða tóbaksbauka,
sem brúkast taka hér,
um prédikun opt
þeir eru teknir á lopt,
þegar gera á blíða bæn
þeir belgja við sinn hvopt,
svo um máltíð miðja
magnast þessi iðja.

Ei má nú á minna
undirgefinn lýð,
og ekki að við finna
uppi er fors og stríð,
húsbóndans hýra þekk
við hvern ofstopa rekk:

mun það margan G; 64. gera slíkt G; 66. eða gæfu nokkurt magn G; 77. þegar þeir gera blíða bæn G: 78. þeir sl. G; 81—90. vantar í St; 87. línan ólæsileg í hdr. frá: vilja í,

Vilja í friði stiltir stá,
stingi pípu í sekk.
Hugmóð hinn ei sparar,
til hnífs og skeiða svarar.

Verknám varla kunna
vinnumenn sem ber,
það þarf ei neinn að nunna
að nokkur fáist hér
fyrir minna fé
en full tíu aurar sé,
átta stikur vaðmáls víst
verður að láta í té,
að auki aðra hýru,
alt þeir leggja að rýru.

Veit eg vinnumanna
vera slíkan sið,
það má sérhver sanna,
sem þá skiptir við,
tóbak fala ef fæst,
firn eru þetta stærst,

---

en sýnist helzt vera: friðe stillin stár eða: friðu stillin stór; 91—94. er svo í St:

Veit eg vinnumanna
vera slíkan sið,
þér þurfið ekki að inna
að nokkur fáist kyr;

91. í G stendur: Verk nam; 96. en fulla tíu St; 97. vaðmáls vest (= veft?) G; 98. verða að láta G; 100. alt þó

í öllum áttum út[i] um það,
ef einhverstaðar næst,
alt sitt kaup út selja,
ef eiga um það að velja.

þegar þeir verða að vinna,
veit eg það svo títt,
og húsbóndanum hlynna
hárið kemba sítt,
krúsa það í kring,
kalla dýrmætt þing,
eins og ættu ærið nóg,
undur af fofnis bing,
svo telja þeir tíma,
tíðum standa og slíma.

þegar þeir hlaupa að hátta
heimta tóbaks eld,
í náðum eiga að nátta
nálega sérhvert kveld,
iðka þá íþrótt
alllangt fram á nótt,
en ef missa eitt sinn það,
ekki er geðinu rótt,
fara seint á fætur
fyrst þeir vaka á nætur.

---

leggja G; 101—20. vantar í St, að öðru en áður getur 91—94; 127. af sl. G; 130. vaka um nætur G; 131—41.

Eld á engjar flytja,
eg hefi séð upp á,
í fylgsnin flýja og sitja,
þá fara eiga að slá,
eða á bæji burt,
bóndinn fær það spurt,
láta sækja glaða glóð,
svo geti tóbaks nurt
sogið í sínu starfi,
svoddan menn eru þarfir.

Lata í lestaferðir,
líka er þetta satt,
hver upp annan herðir,
hjartað danzar glatt,
víkja vinnu frá,
veitir þungt að slá,
binda hey og bera það upp
bölið heita má,
betra er að ramba og ríða
og róla um landið víða.

Flýta ferða greiða,
fákana keyra í hlað,
harðlega heiman skeiða,
hleypa svo af stað

---

vantar í St; 141. Látum í lestaferðir G; 142. líka er það G; 145. víkur St; 151. þeir flytja farargreiða G; 153. hraust-

ýmsa bæi á,
ætla tóbak fá,
ellegar eld þeir sækja sér,
svo tefjast þeir frá,
ófærar urðu heiðar,
en árnar varla reiðar.

Ef manninum líkar miður,
er mennina sendi af stað,
hann spyr: Hvað tafði yður?
með hægð þó gerir það;
þeir svara sem þeim lízt,
sár um hjartað brýzt,
móður af því hann mælti svo,
málið í hugmóð snýst:
Ávítanirnar þínar
ei þurftir oss að sýna.

Bóndann fýsir að fala
fáist hann heima kyr,
ólund tekur að ala,
anzar hann nú sem fyr,.
hugsar hann helzt með sér:
Hollara er það mér
að koma betur kauphlut mín
en kveljast samt hjá þér,
þú færð þann í vetur,
sem þjónar langt um betur.

---

lega heiman G; 158. svo tefja þoir þá G; 159. verða heiðar G; 162. er sl. G; 164. með hógværð þó geri G; 165. þeir

Bý eg mér bónda sæti
og ber eg saman plóg
með alskyns eptirlæti,
efnin hef eg nóg,
þarf eg þá ei þín
þú heldur en mín,
þó lengi hafi eg þjónað þér,
það ei á mér skín,
sýni eg mig sjálfur.
Svoddan hafa þeir gjálfur.

Hann fýsir að fara að búa,
fljótlega giptast skal,
að kotinu kalda snúa,
en kvikfé er ekki val,
ekki orf né ljá
eiga þá fara að slá,
ekki reip né reiðing neinn
né reiddan klifbera á,
koppur og kolla er engin,
ketill að láni fenginn.

Einn fer ofan á Eyri
og ætlar að kaupa sér

---

segja sem G; 169. Ávíturnar G; 170. ei þarft oss G; 175. hann sl. G; 177. að koma ei betur kaupahlut St; 184. efnin hef eg þá G; 189. signi eg mig St; 191. þá fýsir G; 194. en sl. G; 195. hvorki orf né G; 196. þá eiga að fara að slá G; 199. klápur og kippa er engin G; 201. Einn fór St; 202. og sl. G; 203. svo í báðum hdr., ætti að vera tóbaks-

tóbakskorn sem fleiri,
og flytur þangað smér,
annar afla og á
ætlar í burt að fá,
þriðji sauði, og sokkapör
sá eg hinn fjórða þá,
fúinn tóbaks fraka
fyrir það allir taka.

Þegar að gjöld skal gjalda,
greiða landskuld út,
efnin vilja valda,
vandi eykst og sút,
ótæpt vantar á,
iðrast tekur hann þá,
að hann seldi sauðinn sinn
sínum skuldum frá,
leignabrestur líka,
lézt hann smérinu flíka.

Þá gestur að garði gengur
gefst hann upp að slá,
ei á eg við það lengur,
anza tekur hann þá,
velkominn, vinur minn,
vík þú í bæinn inn,

föng eða þvíuml.; 205. afla sá G; 206. ætlar burt G; 207. en sokkapör G; 209. frakka St; frakki og fraki þýðir víst hið sama, eða hér um bil: frugg (sbr. orðab. Bj. Halldórss. undir fracki og frugg); 210. allir þakka St; 211—20. vantar í St; 221. Ef gestur G; 222. gefur hann G; 226

meðan við okkur tökum tvær
tóbakspípur um sinn.
Hinn réð það að þakka:
það vil eg gjarnan smakka.

Minka morgunteigar,
maðurinn sefur fast,
þar til vefjan veiga
vekur hann upp með hast,
fer hún þá til fjár,
fjandans stóran skár
stýfir hann af um stundarkorn,
strýkur krúsað hár,
þreyttur þá heim gengur:
þoli eg ei tarna lengur.

Örþreytt auðar tróða
ei til fjárins sá,
heim kom hrundin rjóða,
hjalar hún þanninn þá:
Svo böngulega mér
búskapurinn fer,
ærnar okkar missa máls,
maður, hvað er þér?
þú þjónar ei neitt til þarfa,
þó er nóg að starfa.

víkur í St; 227. tökum tveir G: 228. tóbakspípu G: 229. hinn gerir það G: 233. um síðir vefjan veiga G; 239. þreyttur þá hann gengur G, 240. þolir, skr. G; þolir ei þetta lengur St: 241. unga tróða St; 244. hjalar hún þetta þá G; 245. Svo

Allar kindur illa
útleika hans hey,
hættlega sparka og spilla,
spornar hann við því ei,
sveltur á sumartíð,
sölna grösin fríð,
kýrnar rífa, en krafsar féð,
krapa rignir hríð,
[en] hann og auðarbrekka
inni tóbak drekka.

Eptir það hann elur
allvel hestinn þá,
heyið honum velur,
hvað, sem kýrnar fá,
kviklátur er klár,
kliptur um höfuð og nár,
lifir í sæld og leikur sér,
líka á ísnum frár,
herlega halurinn ríður,
höndum stingur á síður.

Af fer yfirlæti,
á útmánaða tíð
megrast hesturinn mæti,
magnast fjúka hríð,

ambögulega mér St; 249. þú vinnur ei neitt G; 250. þó hafir nóg að St; 252. útverka hans G; 253. bæði sparka og spilla G; 255. sverfur að sumartíð G; 257. kýr þau rífa, krafsar fé G; 258. en krapa G; 260. drekka tóbak = taka í

holdlétt hans er féð
og hungrar kúnum með,
ásakar hann einatt sig
að illa hafi fyrir séð,
hann beitti ei fénu betur
og bjó sig undir vetur.

Ó hvað eymdarlega
ógæfunnar stig
ofmjög alla vega
umkringdi þá mig,
eg gekk úr góðri vist
fyrir galda holdsins lyst,
þoldi ekki þótta orð,
þar fyrir hef eg mist
aðstoð allra manna,
einninn húsbændanna.

Ei hef eg svo nægi
annað ráð hjá mér,
en biðja bændur um bæi
að bjarga kúnum hér,
heylaup gefur hvör,
hörð eru búmanns kjör,

nefið; 268. á ísum G; 272. útmánaðar G; 275. hold sitt lét hans féð St; 276. og sl. G; 278. að sl. G; 279. og beitt ei G; 280. og bjó mig G; 281—90. er í St á eptir 291—300; 291. Æ, hvað St; 283. aumlega alla vega G; 287. þoldi varla G; 292. annara ráð G; 293. bið eg bændur G; 295. gefa G; hvör, svo skr. bæði hdrr.; 299. hér við

þeir, sem geta, gera það,
og gefa ei nein afsvör,
kýrnar hér með hjara,
hverninn sem ærnar fara.

Eitt þó á mig bítur,
ærleg er sú neyð,
að blakkurinn brúnn og hvítur
bíður hér af deyð,
sem grátlegt gerði eg fól,
gaf honum fram á jól,
öllu heyinu eyddi hann,
því ákaflega hann ól,
það kennir nógra nauða,
nú er hann kominn að dauða.

Allar ærnar reisa,
eigi gott er vor,
á básnum baulur kreisa
báðar dauðar í hor,
lömbin lítast smá,
líka mögur að sjá,
af þeim hrörnar einatt þó,
orðin eru nú fá,
lukt ei landskuld getur,
lóguðust þau í vetur.

---

hjara G; 301—10. vantar í St; 311—20. er í St næst á undan 291—300, sem aptur er á undan 281—90; 311. Eru nú ærnar reisa G; 312. ekki gott er G; 233. af bás má baulu leysa G; kreisa, hér sögn, sbr. nafnorðið kreisa,

Á haust þegar kemur hritja
hugsar hann með sér,
hreppstjórans verði að vitja
og vita hvernig fer,
tillag taka ef fæst,
og tíundin nokkur næst;
seint hann gáði að svallinu því,
þá sumarið stóð hærst,
hann hirti ei hvað hann gerði
af hverjum matarverði.

Maður máttu skilja,
sem manngreind hefur á,
víst þarf meir en vilja
að velkjast kotinu á,
þú bragðaðir aldrei það,
né þenktir um þann, sem kvað,
að hann sæi fyrir fram
hvar fær þú heyið að,
þá efnaleysið eimir,
ekki er alt, sem dreymir.

---

kvk., sem þýðir eystra líkt og kytra; 317. af þeim rosnar G; 318. nú sl. G; 322. hugsar hann svo með sér G; 323. Húsbóndans verð eg að vitja St; 324. og sl. G; 326. og sl. G; 327. seint hann gáði að svara því G; 328. þá sumarið var sem G; 330. af hverju G; 332. hefurðu á G; 336. ef þenkir um hvað eg kvað G; 337. og þú spyr fyrir fram G; 338. hvað þar fær hundrað St; 339. efnaleysið reynir St; 340. ekki er alt sem greinir St; 341—50. vantar í St; 353.

Víst mun betra vera
vinna sér föt og mat
en byrði þá að bera,
sem borið ekki gat.
það heptir hungurs nauð,
þó hafir ei mikinn auð,
ef þú þér með iðni og dygð
um sér daglegt brauð
hjá þeim, sem þér verk getur,
það fer langtum betur.

þó maðurinn dugi minna
en mengrund rækslusöm
hvar að sem hún skal vinna,
ef hússtjórnin er töm,
þegar hún þrífur sig,
þar með líka þig,
enn þó að verði efnafátt
og megi veita um svig,
heldur má það hjálpa
hvað, sem á kann dálpa.

---

hvar fyrir hún skal vinna; 354. og hússtjórnin G; 355. þrífur þig St; 356. þar með líka sig St; 357. aflafátt G; 360. *dálpa*, sbr. bænarvísu Sr Grímólfs Bessasonar af stól í óþurkatíð:

Mörg vill á *dálpa* mæðan ströng,
minn guð þú hjálpa hlýtur,
erfiði vort og aflaföng
ætlar að verða skítur.

Margur er þó vor þarfi,
þjónar með dygð og trú,
hollur í hverju starfi
húsbóndanum nú,
þeim segir öllum eitt,
sem ætíð fá svo breytt,
blessan guðs þeim byggir hús,
björg mun þá nógleg veitt,
hvort það er karl eða kvinna,
Kristur mun þeim sinna.

Slíkt eru dagleg dæmi,
dæmi eru þar til rík,
rík þó sumarið sæmi
sæmir vel hvað slík,
slíkt er búmanns böl,
böl þrátt er sú kvöl,
kvöl þá reynir sérhver sá
sá, sem þess á völ,
völ er opt á því illa,
illu skalt hjá stilla.

Viljir þú heiður hljóta
og hverskyns blessan fá,
lengi lukku njóta,
ljúflegur vertu þá,

---

361. þó vel þarfi G; 362. þjóni með G; 366. er ætíð G; 367. bjargi helzt St; 370. Kristur vill St; 372. dæmi hér til ríkt G; 373. þó að sumarið G; 374. sæmir ei mart sem slíkt; 376. bölþraut sérhver kvöl; 377. sjálfur sá G; 380.

þjóna þeim með trú,
er þig til gefur þú,
sjáðu að augu eilífs guðs
á þig horfa nú,
sem Pétur og Paulus mælir.
Piltar, lifi þið sælir.

---

## NÝBÝLINGURINN.

[Stokkahlaðabók; Jóns Stefánssonar hdr. í Bmfél. 9. 8vo.; J Sig. 271. 4to. (á blöðum úr safni Finns Magnússonar, sem á eru viðbætur með hendi Hallgr. djákna við útgáfuna af kvæðum S[r] Stefáns, og er þetta eitt af þeim); K = J Sig. 239. 8vo.; Þingeyrabók bls. 169. Kvæðið kunna margir á Íslandi, og er það opt sungið í tvísöng.]

---

Nú er hann kominn á nýja bæinn,
ný er orðin síðan um daginn
baðstofan;
heldur honum heima snaginn,
heystabbinn og konumaginn.
Hver er hann?

---

illu hjá skal G; 385. af trú G; 387. sjáðu augað eilíft St; 388. á þig horfir St. Aptan við afskr. í St stendur: „Þetta kvæði hygg eg (ɔ: Þorsteinn Gíslason á Stokkahlöðum skrifari bókarinnar) sé mögulega afbakað, en gat þó hvergi fengið það réttara“.

Sá, er áður átti í málum
og í fyrra drakk af skálum
títt við tvo,
á mammons vegi mjög svo hálum
mótstríðandi kristnum sálum.
Á, er svo?

— — — —

## Um þá fyrri og þessa öld;
til skemtunar.

[Útg. bls. 62—64; Bm = Bmfél. d. á Ísl. Nr. 111. 8vo. p. 58—61; Orðam. Páls í expl. hans; þingeyrab. J Sig. Nr. 231. 4to. p. 183—84; J Sig. nr. 82. 8vo. p. 101—103; Stokkahlaðabók; Rask 46. 4to. (Rasks eiginhandarrit); Rask 83. 8vo.]

— — —

Mjög var farsæl fyrri öld í heimi,
undi sér við akurplóg,
af honum þóttist hafa nóg
fráskilin þeim illa óhófs keimi.

---

Fyrirsögnin svo í F, annars engin fyrirsögn eða þá „vísa“ eða „vísur“; í F, K, þ er kvæðið skýlaust eignað Sr Stefáni, og í S, St er það meðal kvæða hans, og er það því án efa hans. 2. ný er hún orðin þ; 5. heystabbarnir þ; heystálið S, F; 6. Á, hver er K, þ; 7. Sá, sem K; það er hann, sem S; það er sá, sem F; 9. dikt(!) við tvo þ.

Eikin gaf þá ávöxt sinn til neyzlu;
ei var bruggað öl né heitt,
ekki hunangs blandið neitt,
ellegar borið vín til stórrar veizlu.

Ullar reifin hvít voru höfð til klæða,
en ekki velkt í eiturkorg,
er upp kom fyrst við Týrusborg
skarlatsrauður, er skelfiskarnir blæða.

Í grasinu var sofið sætt með yndi,
þorsta létti lindin af,
laufgað tré, sem skugga gaf,
forsvar var það fyrir sólu og vindi.

Þá var ekki skorið hafið á skeiðum,
gestum ekkert gekk í hönd
góz á nýrri sjávarströnd
með ráni fengið eða skulda reiðum.

Herlúðrarnir þögðu þá um stundir,
enginn vildi fúss á ferð
að fyrra bragði reiða sverð,
því blóðs voru launin ei nema sollnar undir.

2. er undi sér Re, R, Bm, Sp; 3. heppin nóg P; 8. borið um til Re; 10. velgt Þ; veikt Sp; 15. skuggann gaf Re, R, Bm, Sp; 16. sól og Bm, Sp; 20. sint var ei okri

Óska mætti, yrði vorar tíðir
rétt umbreyttar í þann sið,
er átti sitt í kyrð og frið,
og stóðu í fögrum blóma lönd og lýðir.

En nú brennur ágirndin sú illa
heitara en Heklu glóð,
hvorki er sparað líf né blóð
í það bál að bera, er seint má fylla.

Ekki sefar eldinn það, er hann spennir,
þess meir vex sem meir fær hann,
mettast ekki af því, sem brann;
svo er um ágirnd, aldrei nægist henni.

Fyrstur manna hver mun vogað hafa
gimsteina og gullið skírt,
er gjarnan vildi liggja kyrt,
dýran háska, djúpt úr jörð að grafa?

eða P, Þ; 32. mun fyllast Re, R, Bm, P, Þ: 33. það, hann Re, Sp; 36. um sl. Þ; 40. jörðu grafa Bm, Sp.

# HEIMSÁDEILA.

[Útg. bls. 160—62; J Stefánss. (brot); Stokkahlaðabók; Rask 46. 4to. (Rasks eiginhandarrit); Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. p. 262—65; Br = British Museum 11,175. 8vo. (F Magn. 181. 8vo.) 156 b — 157 b önnur erindaröð.]

---

Þessi öld er undarlig,
allir góðir menn um sig
ugga mega að mestu;
illir taka yfirráð,
að því hef eg um stundir gáð
að þeim er fylgt í flestu.

Fer eg með efnið undarlegt:
Ef þér girnist nokkuð frekt
manna fylgi að fanga,
þá skal hann ekki óttast guð
og ekki stunda hans heilög boð,
heldur rækja hið ranga.

Þingheimurinn þýtur upp,
þegar hann sér Belzebub
dýrkaður er af einum,
aðhyllast og elska hann,
einnig verja, hver, sem kann,
bæði í ljósi og leynum.

Þeir sem seilast aðra á,
orga, deila, stinga, slá,

---

8. Ef hér St; nokkur frekt R; 20. okra eða deila Br; 23. vörn er þeim til reiðu sterk Br; 24. af flestum Br; 25.

strjúka, stela, ljúga,
og útlegðar vinna verk,
vörnin er þeim nógu sterk
hjá flestum manna múga.

Sá hinn góði er gjarðafár,
gisna má hann síð og ár,
dittar að honum enginn,
sem sú eik fyrir utan tröð,
er engan hefir börk né blöð
og öll er af sér gengin.

Mútan tekur máttar-skref,
má hún það rétta aflátsbréf
segjast verstu synda;
þá hefur fjandinn skrifað skrá,
og skvett forgyltum sandi á,
sem bæði augun blindar.

Hún réttlætir ranglátan,
ranglætir hinn fróma mann,
gerir svo greitt að flækja;
þeim hana tekur, talar hún í,
tekst þeim varla upp frá því
réttdæmið að rækja.

---

því er hinn góði gjarðafár Br; 27. dyptar Útg, St, Re, R, Sp, Br; 28. er engin hefur Br; 31. tekur nú Br; 32. hið rétta Br; 39. gerir hið greiða Br; 41. tekst honum aldrei upp frá því Br; 43. Svo er nú orðið Br; 44. að sl. Br; 45. sem gerir Br; 47. en brýtur Br.

því er nú orðið ilt í heim,
að enginn sinnir manni þeim,
er gerir sinn guð að stunda
og breytir eptir boðum hans,
brýtur ríkið andskotans;
hann má fara til hunda.

## VÍSA.

[Safn Páls Pálssonar Nr. 1. 8vo. bindi XV. bls. 73. Vísan finst bæði eignuð S^r Hallgrími Péturssyni og S^r Stefáni Ólafssyni, og Páll hefur fært hana inn í kvæðasafn S^r Hallgríms, en getið þess í kvæðasafni S^r Stefáns, að hún væri og eignuð honum og því vafasöm. Saman með vísunni eru tvær aðrar vísur með öðrum hætti, sem ekki finnast eignaðar S^r Stefáni: Réttur þver, rjúfast sættir &c. og: Mæðir stríð móðar þjóðir &c.]

Veslingshæfi varla er á
voldugum móti að stríða,
réttinum halla maktin má,
þá málið rekst til klíða,
strax er fátækur stunginn frá,
styður ríkan alþýða,
Ferdinandus, Concordia
klakkhalla muninn ríða.

8. klakkhala, hdr. Jóns Árnasonar.

## GRIÐKUVÍSUR.

[Útg. bls. 64—67; Stokkahlaðabók; Hálfdánarbók mín; B = Bmfél. Nr. 208. 8vo. (erindaröð rugluð, vantar í 49—56); Jóns Stefánssonar handrit í Bmfél. Nr. 9. 8vo. (brot af síðasta erindi); Thotts safn Nr. 489. 8vo.; Rask 83. 8vo.; Þingeyrabók bls. 184—86; J Sig. 82. 8vo. bls. 103—107; J Sig. 271. 4to. (blöð í 8vo. með hendi Halldórs Hjálmarssonar); Bmfél. d. á Ísl. Nr. 111. 8vo.; Páls safn Nr. 1. 8vo. XXII. b. (orðamunur Páls í expl. hans); Bd = F Magn. Nr. 6. fol. 37 b²—38 a¹, í Bodleys safni í Oxford, skr. um og eptir 1766; J Ól. í orðabók sinni undir: vara hý o. v., og Add. B. U. H. Nr. 6. 4to. 138 (1106), 141, Nr. 8. 4to. 59, 2852 og víðar.]

---

Griðkan girnist manninn
og getur ei haldið sér,
einatt syrgir svanninn
og sitt á brjóstið ber,
biður hún hann með blíðu
að leika við sig í leyndum stað.
:|: Hann gengur ei að :|:
að leika við hana í leyndum stað.

Hún hugsar hörundið svarta
hræði hann burt frá sér,
nuddar hún því og nartar,
um nasirnar hvar sem fer

---

Fyrirsögn: Griðkukvæði J Ól., T; Griðkonukvæði H, H E, Bd; 1. Griðka Bd; 2. hún getur ei J Ól.; 3. óðan syrgir H; óðum syrgir Bd, H E; 4. sér á brjóstið T; 5. býður hún honum með blíðu P; 6. við sig B, H, H E, T, Bd; hin: við hana; 9. Hyggur hún B, T; hugði hún H E, Bd, J Ól. (Add. 8. 4to. 2852); hélt hún J Ól. (Add. 8. 4to. 59); 10.

# TÓBAKSVÍSUR.

## I.

### Fjórar tóbaksdygðir.

[Útg. bls. 111—12; Jón Stefánssonar hdr., hefur að eins fyrirsögnina, og er hún samhlj. Útg.; Stokkahlaðabók; Rask 46. 4to.; Rask 83. 8vo.; Bmfél. d. á Ísl. Nr. 111. 8vo.; $K_1$ = J Sig. 239. 8vo.; $K_2$ = J Sig. 239. 8vo. (afskr. eru tvær, sú fyrri $K_1$, seinni $K_2$); J Sig. 271. 4to. (orðam. Páls eptir Sr Grímólfi); British Museum 11,185. 8vo.; Bb = Bergsbók Jóns Árnasonar A. V. 8vo.; Orðam. í expl. Páls; J Sig. 82. 8vo.; Þingeyrabók.]

Minn vin, eg gef
þér mæta ráð í kvæði,
hafir þú kvef,
hóstann og þunga mæði
tóbak er bezt,
tóbak, tóbak, tóbak er bezt
að breyzkja og saxa í nef.

Vilji þinn munn
vessinn og slímið fylla,
sú veiki er kunn
og vill jöxlunum spilla,
tóbak er bezt,
tóbak, tóbak, tóbak er bezt
að bíta og spýta um tönn.

---

Fyrirsögn: Tóbaksdygðir $K_1$; 1. Vin minn Br; 4. hósta $K_1$, $K_2$; 7. taka í nef P; 11. og vön jöxlunum Gr; 15. Setjist

Sígi þig á
svíðandi augnakláði,
svo veikist brá
og verði fátt að ráði,
tóbak er bezt,
tóbak, tóbak, tóbak er bezt
að bera í augna krá.

Skorti þig leik,
er skemtan auka kynni,
svo hyggjan veik
hindrast af langseminni,
tóbak er bezt,
tóbak, tóbak, tóbak er bezt
að brenna og sjúga í reyk.

## II.

### Um tóbak.

[Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. bls. 253—54.]

Tóbakið því þykir
þér gott, að hér vottast,
það bætir með máta,
manns heila rann deilir,

þig á $K_1$, $K_2$, Bb, Gr, Þ; 17. svo veiki brá $K_1$, $K_2$, Þ; 21. hvarmakrá Br, Gr, $K_1$, $K_2$; 23. sem skemtan $K_1$, $K_2$; 24. svo hyggjan $K_1$, $K_2$; 25. hindrist Br, P; Mismunur á erindaröðinni hér og í Bb, Br, $K_1$, $K_2$, P, Þ er þessi: 8—14 hér = 15—21 þar, 15—21 hér = 22—28 þar, 22—28

brjóstmæði bezt eyðir,
bætir mjúkast vatnsjúkan
blóðvæsir ver nösum,
ver kvefi, hnerra gefur.

Ef brúkast ofmikið
yfirvinnur þrif vinna,
deyfir sjón og dug rænir,
dapurleika skap eykur,
lykt stelur sókt svæla,
svartbrennir part ennis,
matleiða fljótt fæðir,
fró þorsti ókostar.

III.

Neftóbak.

[Útg. bls. 175; Stokkahlaðabók; Rask. 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo.]

Eg læt ei langt á milli
að leggja í nasir mínar
tóbaksgrasið gott,
hnerrana hægt svo stilli,
hafa þær náðir sínar,
ef í þeim verður vott,
en sú jurt, sem eykur nefinu farða,
ilskudaun og skófartetrið harða,
ætti að berast undir tóptargarða,
því öllu betri er mylsnan sauðasparða.

---

hér = 8—14 þar. II. 5. hdrr. sýnast að skrifa æðir fyrir eyðir, og er það auðsjáanlega misskrift; 7. blóðræsir

## IV.

### Tóbakslast.

(Tröllaslagur.)

[Útg. bls. 146; Varðgjárkver; Stokkahlb.; Thott 489. 8vo.; Rask 83. 8vo.; Bergsbók; Hálfdánarbók mín; J Sig. 82. 8vo. bls. 240—41.]

Tröllin öll í Týs höll
taki nú hrakið, tóbakið,
nýt ýta öll sveit
ælir og svælir þá brælu,
pípu grípa súrt saup,
sjúga og kúga sig bjúga,
nasir mása nóg hvæs
nudda við suddann af rudda;
reykur stórum strýkur,
strax af munni fýkur,

---

skr. R, St, sem einnig er rangt; 10. svo hdrr. IV. Fyrirsögn: Um tóbak HE; Tóbak R, Sp, St. Tröllaslagir eru með mörgum tilbreytingum, og er þeim stundum alveg slengt saman við langlokur, og kalla sum handrit það tröllaslag, sem önnur kalla langlokur. Þessi bragarháttur finst ekki í háttalyklum eldri en frá 17. öld ofanverðri, en er þó miklu eldri, því á dögum S^r Magnúsar Ólafssonar í Laufási (d. 1636) er hann kallaður gamall. Elzt handrit af hinum elzta tröllaslag, sem menn þekkja, er í kvæðabók skrifaðri af Magnúsi Jónssyni digra í Vigur 1676—77, og er hún í AM. 148. 8vo., og er á honni, auk fjölda af ýmsum kvæðum, háttalykill með langlokum, tröllaslag og ýmsum bragarháttum. Annað gamalt handrit er í safni Magnus de la Gardie í háskólabókasafninu í Uppsölum í Svíþjóð Nr. 54. 4to. Þar stendur svo: „Þetta segir Magnús

svoddan æði sælugæði
segir margur ríkur;
leikmenn, prestar og píkur
púkinn með því svíkur.

---

prestur Ólafsson frá Laufási, að „„nostri antiquiores"" hafi kallað Tröllaslag — „„eo quod a sagis prædicto loco primo editum et auditum sit"." En tröllaslagurinn er svo:

Fer her ei fótspar,
fokkum vér brokkum með stokkum
undir grund og yfir lund
á eykjum, svo feykjum vér reykjum,
vindur blindar vogs sund,
vökum vér tökum við rökum,
hryllir villir hríð göll
hreppum vér greppum af sleppum,
gull er grams múta,
geymdu það Rúta,
svo kváðu meyjar undir Skjaldbreiðarskúta.

Vísan er hér eins og hún stendur í Uppsalabók, en Vigursbók og flest önnur hdrr. bæta aptan við:

fimtíu í flokki saman
frömdu þetta gaman.

Hér er annars enginn orðamunur tilfærður eptir Vigursbók. „Það, sem vér (ɔ: Grímur Thomsen) kunnum af" þessum tröllaslag er prentað í Ísafold VI. (1879) Nr. 1. neðanmáls, og er það öðruvísi en hér er haft, og kallað Litli tröllaslagur. Þessi tröllaslagur er ekki yngri en frá miðri 16. öld. Á 17. öld fara menn að sækja í sig veðrið með að yrkja dýrt tröllaslagi og langlokur, en á 18. öld keyrir það alveg fram úr hófi. Tröllaslagur er upphaflega danz. 1. Tröll Útg, H E, R, St, T; 2. taki það Bb; 3. níutíu ótt öll T; 4. æla væla þá T; 5. pípur taka súr sal(!)

V.

Tóbaksádeila.

[Útg. bls. 153—54; Stokkahlaðabók; J Sig. 82. 8vo. bls. 251—52.]

Læðst hefur inn í landið hrak,
lýðir kalla það tóbak,
hingað þessa ragur rak
reykjarsvælu hinn armi;
drusslega margur dánumann
drekkur í sig þrekkinn þann,
án hans vera ekki kann
í ölinu þó hann svarmi;
af reyknum fylla kjálkaker
og koma honum út um nasir sér,
þeim illa ódauns farmi.

Nú er þessi ramma rót
reiknuð fyrir heilsubót,
hvar einn kemur á manna mót
má hann reykinn smakka;
inn í landið upp á hest
árlega sendir Jason Vest,
margan gleður mann og prest,
mega þeir honum þakka,

---

T; 6. og sl. Útg. R, St, Sp, T; 7. kvása Útg, H E, R, Sp, St; hvasa T; kvás Útg; hvas Sp, T; hvás R; has(!) H E; 8. nutta rutta við sutta T; sudda Útg, R, Sp, St; 9. stundum strýkur V; 10. úr, nema Útg, H E, Sp, St. V. Fyrirsögn: Tóbaksvísur Sp; 6. drekkur sig í Sp; 9. falla kjálkaker Útg; 17. Jason Vest er kaupmaður á Eyrarbakka fyrir og eptir

20. hundrað sex af hreinum leir
honum fylgir, og nokkuð meir,
pípur í einum pakka.

## VI.

### Um tóbak.

[Stokkahlaðabók; Rask. 83. 8vo., J Sig. 82. 8vo. bls. 252—53.]

Presta tóbak prísa eg rétt,
páfinn hefur það svo til sett,
að skyldi þessi skarpa rót
skilning gefa og heilsubót.

## VII.

### Tóbaksvísur.

[A = A Magn. Nr. 615 K 4to., stendur hér meðal kvæða eptir Hallgrím Pétursson; Hrafnadalskver, og er með fyrirsögn „Tóbaksvísur Sr P.“ „Sr P.“ á líklega að vera = „Sr Péturs“ (sbr. 18. kvæðið í hdr.), en mér dettur enginn Sr Pétur í hug á 17. öld, sem hafi getað ort vísurnar, nema ef það kynni að geta verið Sr Pétur Gissursson, sem verður prestur á Ofanleyti í Vestmannaeyjum 1658 (er skrifaður í stúdenta tölu við Khafnar háskóla 25. nóv. 1636: „Petrus Gysarius Islandus e schola Schalholtensi“). Sr Pétur Gissursson og Sr Hallgrímur Pétursson voru að öðrum og þriðja. En yngri geta þær eigi verið en frá 17. öld, því hdr. A er frá 17. öld, og höndin ekki ósvipuð Sr Hallgríms Péturssonar, og eru Flóres rímur hans framan við; hugsast gæti að þetta væri ritvilla, og ætti að vera „Sr H. P.“ (= Sr Hallgrímur

---

miðja 17. öld. Hann var enskur (sbr. bls. 76): 21. hér með

Pétursson); G = Kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum I. 97 (eignar Sr Stefáni Ólafssyni); Bl = J Sig. 283. 8vo. (eignar Sr Stefáni Ólafssyni); Sk = J Sig. 271. 4to. hdr. Páls „eptir hdr. Dr. Schevings“ (eignar Sr Stefáni Ólafssyni); Y = Yrpa Geirs Vigfússonar í safni Jóns Borgfirðings í 4to. bls. 55—56 (eignar Sr Stefáni Ólafssyni). Bæði í G og Y er kvæðið næst á eptir Tóbaksvísur: Sá er í landi leikur &c., sem þar eru eignaðar Sr Hallgrími Péturssyni. J Ól. vitnar þrisvar í þetta kvæði, undir: langur, þorna og Add., Nr. 2. 4to. bls. 73, og eignar alstaðar Sr Hallgrími Péturssyni. Líklegast þykir mér, að það sé eptir mann, sem hefur heitið Pétur (sbr. 11), en það er sett hér af því að það er svo víða eignað Sr Stefáni.]

Nú þorna nefin,
norðan stendur kul frá,
þrýtur tóbaks þefinn,
þann hér ekki má fá,
heila klessú klefinn -
kúga tóman bauk má.
*Ut re mi sol fa.*

Af kvefkvilla flæktum
kann með öllu vel ske,
helzt ef þér er hægt um
hjálpa muntu Pétre,
væri nóg af nægtum,
nú er ei sem það sé.
*Sol fa mi ut re.*

---

fylgir nokkuð meir, sum. VII. 4. má sjá A; menn sjá G, Hr, Y; 6. bauk á Y; 7. lýð eykur það þrá G, Y (sem útlegging(!)); 8—14. er í Bl, Hr, Sk, Y á eptir 15—21; 8. Í kvefkvilla A; 9. kann ei vera fjær sé A (máð, en sýnist svo); 11. hjálpar

Langar mig í láshöll
þar liggur tóbaks í ról,
sú er þétt og þrykt öll
og þung sem annað blýhjól,
særi eg þig við sex tröll,
þú sendir mér í neftól.
*Ut re mi fa sol.*

Hollenzkir hérna
horfa upp á vindský,
þeir þekkja að térna,
það er ekki frá því,
góma kólfur kverna
kjálka veltur um bý.
*Ut sol fa re mi.*

Liggja þeir og lúra,
lítið rýta smákrut,
mettast milli dúra,
míga út af háskut,

---

muntu þá té A; 14. La sol fa mi re Sk; sol fa ut mi re Hr; tóbak er ei falt fé G, Y (sem orðam.); 16. liggur tóbaks þar ról Y; þar liggur tóbak í ról A; 17. sú er þrýstin, þykk öll Sk, Bl; sú er þétt og þykk Y; sú er þykk og þétt G, Hr; 18. blýtól G, Y; 19. eg særi þig Bl, G, Hr, Sk; 20. í nef ból G, Y; 21. helzt fyrir helg jól G, Y (sem orðam.); 23. hoppa upp í Bl, G, Hr, Sk; upp í Y; 27. kjálkum G; 28. La sol fa re mi Bl, Sk; nudda svo nef frí G, Y (orðam.) 29—35 er 36—42 Bl, Sk, Y; 29. A; hin: þeir liggja; 31. A; lítið veita Y; lítið hafa, hin; smákrit G; 31—32 er 33—34 í Bl, G, Sk, Y; 31. millum Bl, Hr, Sk, Y; 33. í

í káetunum kúra,
klóra sér um bakhlut.
*Sol fa mi re ut.*

Úr skerjum burt skroppnir
skeljungs rata leið blá,
þeir þykjast sloppnir,
það er ekki langt frá,
kaldir, krókloppnir
krús og brauði halda á.
*Ut re mi sol fa.*

VIII.

[Vísan stendur sem hin fyrsta meðal tóbaksvísna þeirra, sem eru erindi úr nærsta kvæði, og standa sérstök í ýmsum hdrr. og mitt á meðal kvæða Sr Stefáns Ólafssonar, og fyrir því er vísan tekin hér. Hún finst í þessum hdrr.: Stokkahlaðabók (stendur meðal kvæða Sr Stefáns), Varðgjárbók (ekki meðal kv. Sr Stefáns), Bergsbók Jóns Árnasonar A. V. 8vo. bls. 40, meðal kvæða Sr Stefáns.]

Öllum vonum fjarri fer,
fyrðum loði við hendur
hlutur sá, sem sífelt er
soginn, tugginn, brendur.

---

káetunni Bl, Hr, Sk, Y; í káhyttunni J Ól.; á káhyttum G; 34. og klóra G, J Ól.; í bakhlut A; 35. Segja líka put put G, Y (orðam.); 36. Af skerjum Bl, Sk; 37. skal með öllu vel tjá Sk, Bl; heið blá Y; á heið blá G, Hr; 38. Bl endar hér; 39. þar er öll, nema A; ekki sl. Hr; 41. „krjs" A; kesju og brandi halda á Hr; 42. gengur svo góm (góms Y) krá G, Y (orðam.). IX. Fyrirsögn: Enn um tóbak A (því aðrar tóbaksvísur eru á undan); Tóbaksvísur Y; 1. Sá í A;

IX.

[þessar tóbaksvísur, sem hér koma, eru og vafageplar: í Stokkahlaðabók standa 9—24 og 33—40 meðal kvæða Sr Stefáns, og í Bergsbók 17—24, 33—40; sömu vísurnar sem í St eru og í Varðgjárkveri, en þar ekki meðal kvæða Sr Stefáns. Elzta hdr. = A, er í A Magn. 148. 8vo. í bók frá Vigur skrifaðri 1676—77, og er kvæðið þar engum, eignað, og er að eins 6 erindi; í Yrpu Geirs Vigfússonar (= Y), sem Jón Borgfirðingur á, er kvæðið 8 erindi, og eignað Sr Hallgrími Péturssyni, og er nærst á undan: Nú þorna nefin &c., sem þar er eignað Sr Stefáni. Sömuleiðis er afskrift af þessum vísum í kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum I. bls. 96, og eru þær þar 9 err., en sú afskrift er hér ekki notuð. þær eru og þar nærst á undan: Nú þorna nefin &c., sem þar er og eignað Sr Stefáni. það er ómögulegt að sanna eptir hvorn vísurnar eru, eða hvort þær séu eptir annanhvorn þeirra, en þær eru frá þeirra tímum. þær finnast prentaðar í: „Nokkur ljóðmæli eptir Hallgrím Pjetursson 1. hepti Rvík 1885“ bls. 34—36, eptir handriti í safni Jóns Árnasonar, en eru þar auðsjáanlega afbakaðar = Kv. þær eru þar 7 að tölu.]

Sá er í landi leikur
mér lízt hann gæðaveikur,
þá hver þykist keikur
ef þenur út kjálkasteikur,
hangir klessu kveykur
og kinna farfinn bleikur,
þurk og þorsta eykur
þykkur tóbaks reykur.

4. hann þenur úr (misskr.) A; ef þruma kjálka Y; 5. haugur klessu(!) Kv; 6. kinna far um(!) Kv; 13. reyksa af roti A(!) rísa af Kv; reyks af Y, Kv; 17—24. vantar í A, Y, Kv; 23—24. sbr. IV 13—14; 25. Nú skal byrja um bauka Y,

Bóndi og karl í koti
kvíða tóbaks þroti,
blökku pípubroti
báðir trú eg oti,
druknir reigsa í roti
og rasa í hverju skoti,
tóbaksvessinn voti
verður að litlu noti.

Fátækur rétt sem ríkur,
það reiknast ekki ýkjur,
um það toga sem tíkur,
þá úr tönnunum á þeim víkur,
mæða og mein af slíku,
margir gera líku,
leikmenn presta og píkur
púkinn með því svíkur.

Þá skal byrja um bauka,
og bera þá saman í hrauka,
séð hef eg sultargauka
hér syðra með þá hnauka
í sæti herjans hauka,
þeir heimsku slíka auka,
menn og lindir lauka
látast vilja brauka.

---

Kv; 26. þá sl. Y; 27. sá eg Y; 28. hér sl. Y; 30. heimskir slíka Y; 31. og liljur lauka Y; 32. sem látast Y; 33. Aðrir bauka Bb, St, V; 34. í bæði vitin Y; 35. hnerrar lengi lúka Y; hnerrar launin Kv; 36. þá lendabylgjar Y; og lenda byljir Kv; 37. innar við Bb, St, V; en við öskufúka Kv;

Margir bauka brúka,
í báðar nasir slúka
hnerra launin lúka,
og lendabylgjur fjúka,
inn við öskufúka
aðrir löngum húka,
kol af kömpum strjúka
og káma nasadúka.

Þegar í kirkju krjúpa
á kinnar tárin drjúpa,
í þumli handar hjúpa
er hulin birkikúpa,
ásján gerir gljúpa
og greitt í nasir súpa,
með hyggju heimsku djúpa
hiksta eins og rjúpa.

Einatt Yggjar'fengur
um þá bauka gengur,
harður hnerra sprengur
hristir kjálka tengur,
votur vessa strengur
verður eins og þvengur,
hygðu að horskur drengur
og hafðu það ekki lengur.

---

38. aðrir með þá Bb, St, V; 39. úr kömpum Y; með klýju kampinn Kv; 40. og kvola Y; 41. þá í kirkju Kv; 42. af kinnum tárin A; 43. í humli' A; 45. ásjón A; 47. með heimsku hyggju djúpa Kv; 48. hnerra eins og Kv; 53. af höfði hráka strengur Y; 54. hangir eins og Y; 55. hygg að

Margan heimskan hendir,
þá hyggjuvitið endir,
svinnur sér um vendir,
sér hann hvar það lendir,
birkibaukar rendir
af brögnum víða kendir
saman í hrúgu sendir
séu þeir allir brendir.

Þyki þorna rjóði
þýðum stygð að óði
mun í sinnu sjóði
sjálfrátt manni og fljóði,
ef þess ei finst góði
engum fyrirbjóði,
þó eg þar um ljóði
það er sízt af móði.

X.

[Þessi baukmerkingavísa er í Bergsbók og Stokkahlaðabók meðal tóbaksvísna þeirra, sem standa meðal kvæða eptir Sr Stefán Ólafsson, og sýnist með því vera eignuð honum. Hún finst og í Varðgjárkveri og Yrpu (= Y), og er þar engum eignuð.]

Bauk hér brúka ríkir,
bauk hafa sultargaukar,
bauk sá eg biskup taka,
bauk hafa prestar að auki,

---

Y; hygg þú Kv; 56. hafðu þann ei lengur Y; hafðu það aldrei Kv; 57—64. vantar í öll, nema Y; 65—72. vantar í öll, nema Y, Kv; 66. þeim sé stygð Kv; 67. sínum sjóði

5. bauk hefur bóndi í taki,
bauk hefur kona í hrauki,
bauk hefur böðull og skækja,
bauk hefur þræll í hnauki.

---

## ÖLKVÆÐI.

### I.

[G = Gaman og alvara Magnúsar Stephensens II. bls. 229—32 (1818); Útg. bls. 74—79; Snót Khöfn 1850 bls. 96—102, Rvík 1865 bls. 155-59; V = Bmfél. Nr. 37. 8vo. bls. 94—95 (viðaukar við kvæðið í útg.); Stokkahlaðabók; $V_2$ = Bmfél. d. á Ísl. Nr. 111. 8vo. (hönd S[r] þorg. Guðm. s.); J Sig. Nr. 271. 4to. (blöð í 8vo. með hendi Halldórs konrektors Hjálmarssonar); Hálfdánarbók mín bls. 55—56; hdr. S[r] þorvaldar Böðvarssonar (orðamunur eptir því í útg.); hdr. Jóns faktors Stefánssonar á Berufirði (orðam. eptir því í útg.); Bm = Bmfél. Nr. 338. 8vo. (nýleg hönd); Ad = Additam. B. U. H. Nr. 80. 4to.; Rask 46. 4to. (Rasks eiginhandarrit); Rask 83. 8vo.; A = A Magn. Nr. 155. 8vo. (óvönduð flskr. frá c. 1700, á einu blaði, að eins 11 erindi); þv = þingvallabók J Sig. Nr. 260. 4to. bls. 398—400; J Sig. Nr. 82. 8vo. bls. 116—21; J Sig. Nr. 271. 4to. (orðamunur með hendi Páls Pálssonar á blöðum í 8vo. eptir hdr. S[r] Gríms Bessasonar); Páls safn Nr. 1. 8vo. XXII. bindi (orðamunur, sem Páll hefur skrifað inn á spássíur í expl. sínu af útg. kvæðanna); F = Blað, sem eg á, í 8vo., með nokkuð gamalli flskr. (frá öndverðri 18. öld), að eins 11 erindi; Sk = J Sig. Nr. 271. 4to. (orðamunur og viðaukar með hendi Páls „eptir

---

Kv; 69. einn finst Kv; 72. er ekki af Kv; röðin er sitt hver í hdrr.; hér er fylgt þeirri röð er líklegust þótti. X. 5. bauk hafa bændur og strákar Y; 7. hafa boddar og skækjur Y.

hdr. í safni Dr. Schevings“); L = J Sig. Nr. 311. 8vo. (góð flskr., þar er á ágæt afskrift af Lofdikt Björns Sturlusonar um Guðbrand biskup, ortum 1620. Björn er fæddur 1559, því að hann segir að niðurlagi:

Vænni ber honum vísa en sú,
vildi drottinn bíða,
einn-um sextugt eg hef nú,
æfin tekur að líða.

Jón Marteinsson [„Jonas Martinius e schola Holensi“ skrifaður í stúdentatölu við háskólann 22. dec. 1732 á 25. aldurs ári; deyr („John Martini“, Lengnick) 1771 og er 63 ára; er því fæddur 1708] segir (Ny kgl. saml. Nr. 1274. fol.), að Björn hafi verið á Urðum, en getur þess ekki, hvar sá bær sé; alment er talið, að Björn hafi verið á Suðurnesjum); D = J Árn. A. II. 8vo.; J A = J Árn. B. III. 8vo. bls. 165—67; Þingeyrabók J Sig. Nr. 231. 4to. bls. 205—208; Bl = J Sig. Nr. 283. 8vo. (blöð með ágætri hendi, vantar framan af, úr safni Dr. H. Schevings); Lb = Lambastaðabók Jóns Árnasonar (afskr. Páls Pálssonar í J Sig. 130. 4to.); British Museum Nr. 11,185. 8vo. (safn F Magn. Nr. 413. 8vo.); $Br_1$ = British Museum 11,175. 8vo. (F Magn. 181. 8vo.) 154 a—155 a; $Br_2$ = Brit. Mus. 11,191. 4to. (F Magn. 194. 4to.) 176 b—177 b; Bd = F Magn. Nr. 6. fol. 38 a²—38 b í Bodleys safni í Oxford, „ný og önnur hönd“ heldur en sú frá 1766 og þar eptir, segir Eiríkur Magnússon; J Ól. = Tilvitnanir Jóns Ólafssonar Grunnvíkings í hinni íslenzku orðabók hans undir orðunum: fótur, veila og víðar, og Additam. B. U. H. Nr. 6. 4to. bls. 761, 909, Nr. 8. 4to. 2878, 2916, og víðar.]

---

Krúsar lögur
kveykir bögur
og kvæðin smá,
dæmisögur

og glettur grá,
skúmin fögur
fótaskjögur
færa margan á.
*Inter pocula.*

Öls til veiða
allir skeiða
og erindi fá,
sumir breiða
borðin á,

Ölkvæði. Fyrirsögn: Lofsöngur ölfanga G; Vísur um drykkjumenn Lb, Bd; Drykkjumannavísur F; Krúsarlögskvæði ejusd. Br; Ölvísur H E, $Br_2$, o. fl.; Carmen de inebriatis Þ; Carmen potatorium J Ól. 3. kvæði St, Bm o. fl.; kvæðin há J A, Þ; glettu Br, Bm, Ad, A, $V_2$, Sp; 8. H E, Útg, Br, Snót, L, $B_1$; hin hafa: færir; 9. „Viðkvæðið inter pocula, virðist óeiginlegt íslenzkum kvæðum, og má hér vel heita: er menn drekkast á, eða því um líkt, sem eg hér bendi til, ólærðra lesara vegna“, segir Magn. Steph. í G; í G segir og að $S^r$ Jón Þorláksson hafi valið þetta kvæði „og þess innihald, til eptirmyndunar annars með sama viðkvæði í hans ölvísu: Tveir voru að hvölfa — elfum ölva — í iðra sá &c.“ J Ól. Add. 6. 4to. bls. 761, segir um viðkvæðið: „Pronuntiabant enim veteres nostrates a finale ut a magnum, id quod etiam ego adolescens audivi senes quosdam latine loquentes facere, sed jam ista corruptio jam dudum, ut putem, penitus absolevit“; 11. ýmsir skeiða Gr; 12. erindin Lb, J A, Þ, Bl, Br, A, Þv, H, Bd, $Br_1$; og eyrenden $Br_2$; eyrendum frá F; 13. hinir breiða Útg, Snót, St, Re, R, G, Bm, Sp, Sk, Ad, A; en hinir Br: 14. borðið, Útg, Snót, St, Re, R, Bm, Sp, Sk, Ad, A, Þv, $V_2$: 15. upp reiða Útg.

mat til reiða,
milsku greiða,
magnast kætin þá.
*Inter pocula.*

Kviknar hljómur,
heyrist rómur
í hverri krá,
vöknar gómur
og vara strá,
blandast ómur,
bikarinn tómur
bellur yfir í rá.
*Inter pocula.*

Kalla skeilu,
ef hálfu og heilu
hafna má,
og láta ei beylu
bylja á,

---

Snót, St, Re, R, Sp, Bm, D, L, Ad, A; 16. milsku HE, eflaust hið rétta (sbr. Thomas sögu, útg. Eiríks Magnússonar II. Glossary) Sbr. bls. 355:

Ölið í kvæðum ýmist bjór
ellegar veig má heita,
hreina lögur, horna sjór,
hrosti og milskan feita.

Hin öll: mælsku, nema F: miskunn; 17. magnar G, $Br_2$; kætin há G, Ad, H, HE, JA, Lb, þ, Bl, Br; 19. Kviknar ómur HE, H, Gr, þv, Br, JA, þ, $B_2$; 20. heyrist hljómur HE, H, Gr, þv, Br, JA, þ, $Br_2$; og heiladómur Ad, L, F, $Br_1$; 23. vara skrá Bd; 24. blandast (blindast $Br_2$) rómur þv, HE;

af hugarins veilu
harðri deilu
hreifa, nei og já.
*Inter pocula.*

Sumir kífa,
hvetja hnífa,
höggva og slá,
kampa rífa
kinnum frá,
hárin drífa
hátt sem fífa,
hey eða þornað strá.
*Inter pocula.*

---

25. og bikarinn F; en bikarinn Bd; 26. yfir í krá F, Br, J A, H E, $Br_2$; brögnum gengur hjá P, Þ; Bl. byrjar hér; 28. kalla deilu P, Þ; kalla steilu F; hallar steilu Þv; hallar skeilu Sk, Bm; kallar skeilu (keilu $Br_2$) Bd, $Br_1$; 29. að hálfu F, Þv, H, Bl, Sk, $Br_2$; af hálfu og heilu Lb, Br, J A, Bl, St, Re, A, R, D, Sp; 30. hætta má Sk, H, Bd, $Br_2$; hafnar þá Bm; heita má F; hefna má Br, J A, Þ; 31. og lætur F, Sk, Útg, Snót, Gr, D, Br, Lb, Þ, J A, L, St, Re, R, Bm, Add, Sp; ei sl. $Br_1$; og láta beylu $Br_2$; beyla, sbr. Sjálfslýsing Mála-Davíðs Jónssonar á Brattlandi á Síðu (d. 1838):

Baraxlaður, beinastór,
beylu og kálfa skotinn,
armastuttur, mittismjór,
mikið herðalotinn.

31—32 og lætur ei bylja — báðum á F; 32. bila á Sk, Lb, Þ, J A, Bl; 32. „bilu a“ (!) Bd; 33. án hugarins veilu P; hin öll, nema Gr, hafa: í hugarins veilu; 34. og harðri Þv,

Einn er keikur,
annar bleikur
ýtum hjá,
færist reykur
augun á,
lúinn og veikur
líkt sem kveykur
limpast til og frá.

*Inter pocula.*

Sumir drekka
utan ekka
alt hvað fá,
vín og sekk
sem vatnið blá,

---

J A; harða D, Sp, Sk; harka deilu $Br_2$; 35. hreifir Bm, Ad, Bd, F, $Br_1$; og hreifir Bk, Bl; 28—36. vantar í H E; 37. Sumir stífa Bl, Lb, J A, Sk; Fyrir því kífa, Útg, Snót, G, H, Bm, D, L, St, Re, R, $V_2$, Ad, Sp; 40. hrífa, Útg, Snót, G, Lb, J A, Þ, Þv, L, D, Bm, H, A, $V_2$, Sp, St, Re, R; 44. eður F, Lb, Br, J A, Þ, H E, $Br_1$; 46—54. vantar í öll, nema Br, J A, V, Þ, Bd (en er þar hið 10. erindi í röðinni, og fer enda bezt á því); 51. lúinn, veikur Br, J A; 55. Aðrir drekka H, P, H E, Lb, J A, Þ, Br, F, Bl (í texta), $Br_2$; 56. fyrir utan ekka F; 57. alt það Útg, Snót, Ad, A, Sp; alt sem má Bm; 58. vín á bekk Útg, Snót; vín og sekk B, S, Br, $V_2$, St, L, Sp, Bm (en strýkur yfir og setur: vín á bekk), R, Re, Ad, Gr; Orðið sekk hafa þeir eigi skilið í fyrri útg., en Eiríkur Magnússon fer um það þessum orðum: „Lesmátinn seck er eflaust sá rétti = sherry, algengt nafn á víninu á 17. öld, á ensku (opt hjá Shakspere) sack; leitt af fr. vin sec = ensk. „dry wine.“ Ennfremur við afskrift sína

kalla rekka
þessa þekka
þeir, sem horfa á.
*Inter pocula.*

Skörum róta,
bekki brjóta
borð og slá,
könnur hrjóta
og fötin frá,
kraptar þrjóta,
en kúlan ljóta
kiprar augað blá.
*Inter pocula.*

Einn hann langar
út að ganga
og eykur þrá,
gjarn að stanga

---

af $Br_1$: „Vín mun hér vera sett samkvæmt orðtæki aldarinnar og þýða rauðvín. Vín og sekk = rauðvín og sherry." Í fornensku finst og seck, á þýzku sect, ítölsku og portúgölsku secco og spönsku seco, og er talið að vera komið af lat. siccus (þurr); vín og drykk H, D, HE, Bd, F, Sk, $Br_2$; vínið smekk þv; vín og smekk JA; vín og bjór A; vín og þrekk P, $Br_1$; 60. nefna Útg, Snót, G, Bm, A, Ad, R, Re, St, Sp, H, þv, $V_2$, L, D; rekkar HE, $Br_1$, $Br_2$: 61. þýða, þekka þv; 62. þeir eð horfa A, H, HE, F, $Br_2$; þeir eð hlýða Bl, JA, Lb, þ; þeir sem hlýða Sk; þeir eð heyra á Bd; 66. borð í slá HE, F, Sk, P, Br, þ, Lb, Bl, JA, Bd: borð um slá Gr; borðen slá $Br_1$; 68. fótum frá P, Sk, F; 68—69. konur hrjóta og fötin frá Bl; 70. en sl. F; 71. kemur

staupin frá,
þinir manga,
á hurðir banga,
hnefa í borðin slá.
*Inter pocula.*

Hinir drekka
utan ekka
alt í gjá,
neyðarþorsti
nærri lá,
aðrir lofa
aular sofa
upp við stein og slá.
*Inter pocula.*

Sofnar móður
munngáts sjóður
mengi frá,
hvílubróður

augað á F; kiprar augun blá P, Bd; 73. Enn hann Bl, Útg, Snót, St, L, Bm, R, Re, A, G, H, $V_2$, P, þv; Einn þar langar Gr; 76. gerir að, Lb, J A, H, þv, Bd, $Br_2$; gerir að spranga F; gerir hann stanga Bl; sumir stanga Br, þ; 77. staupum F, þ, J A, Bl, Br, Lb, H, þv, Bd, $B_1$; 79. á herðar, J A, Bl, Br, Lb, þ, Útg, Snót, Ad, A, L, Bd; hirðir F; 80. hnefum í (á $Br_1$) borðið H E, þ, F, H, P, Bd, $Br_2$; borðið, öll nema Bm, G; 82—90. er nokkuð frábrugðin hinum, er í V, Sk, Br, Bl, þ, J A, Lb, Bd; 84. alt í tóma gjá V, Br, J A, Lb, þ, Bd; 89. út við Bd; stein eða rá Bl, Sk; 92. munngáts rjóður Útg, Snót, G, D, L, Bm, A, Ad, St, Sp, R, Re, Gr; mundangs Lb, J A, Bl; 93. mengi hjá H E, H,

enginn á,
þar til rjóður
röðull góður
rennur loptið á.
*Inter pocula.*

Tekur að hrjóta,
en hinir blóta,
er horfa á,
til handa og fóta
hlaupa þá,
pínslum hóta,
ruska og róta,
rykkja í sætið há.
*Inter pocula.*

Vakna hlýtur,
virða lítur
og vínið hjá,
illa bítur
brisið á,
rjóður og hvítur
halurinn nýtur
heldur að lifi þá.
*Inter pocula.*

---

Þ; mönnum hjá $Br_2$; 95. engan á H E, F, Þv, Þ, J A, Lb, Br, Bd, $Bd_2$; 96. en þar til góður H E; en þá rjóður F; 97. röðullinn V, H, Þv, Þ, Bl, Br, J A, Lb, Sk, Bd, $Br_2$; röðullinn rjóður H E; 98. rennur um loptið há H E; rennur um loptið blá F, Br, Bl, J A, Þ, Lb, Bd, $Br_2$; rennur um loptin blá H; 100—108. í V, Sk, Br, Bl, J A, Lb, Þ, Bd; 105. þá pínslum

Úr rotinu frekur
rakna tekur
rekkurinn sá,
höfuðið rekur
í hverja slá,
um allar brekur
lútin lekur,
laglegur er hann þá.
*Inter pocula.*

Veikist kviður,
veltast iður,
vöknar brá,
bifast liður
og beinin smá,
úti er friður,
upp og niður
ölið leitar á.
*Inter pocula.*

---

Sk; píslum Bd; 106. raska og Br, Þ, V, Bd; 107. rykkja í sætið há Br, Þ; og rykkja Bd; reika í sætið há Sk, Lb, J A, Bl; hin: sætið þá; 116. að lifa þá Sk, V; 109—17. í V, Sk, Br, Bl, J A, Lb, Þ, Bd; 118. Úr rotinu freku G, H E; 120. rekkurinn þá F, Þ, Bl, J A, Lb; raumurinn sá H E, Útg, Snót, A, Ad, R, Re, St, Sp; 122. hverja krá, Útg, Snót, F, St, R, Re, Sp, A, Ad, Bm, D, L, G, $V_2$; 123. um ullar brekur Útg, Snót, R, Re, Bm, Lb, Bl; brækur skr. F, St, R; „brekur fyrir brækur“ G; 123—25. hugurinn sekur — hindrast tekur — af heimsku og vondri þrá A; 124. af lútnum Lb, Bl, Sk, Bd; 127—35. í V, Sk, Bl, Br, J A, Lb, Þ, Bd; 130. bifast iður J A; 134. ölið leitar þá Bl; 136—53.

þessi laman
þykir gaman
þeim, er sjá,
heimskutaman
herma þá,
allan saman
aptan og framan
ölinu klíndan á.
*Inter pocula.*

Illa settur
út af dettur
ýtum hjá,
hvomsar stéttur
ofan á,
vitinu flettur
fóta slettur
fær hann nógar þá.
*Inter pocula.*

þá hlýtur að klingja
dalanna dyngja
á dúkinu blá,
hallast pyngja

---

í V, Sk, J A, Lb, Bl, Br, þ, L (136—44), Bd (17. erindi); 138. þeim, sem sjá Br; þeim eð þ; þeim að Sk; 140. harma þá J A; 143. öli V, Sk; olíu klíndan á þ; 148. hvomsar skvettur Sk, Lb; ýmsar stéttar ofan á Br; „hvomsi sleittur“ Bd; 151. fínar slettur Sk, J A, Lb, Bl; 152. fær hann þá Lb, Sk, Bl; fær hann í kollinn þá J A, þ, Bd; fær í kollinn þá Br; 154. Hlýtur að klingja, Útg, Snót, G, St, R, Re, Bm, L, $V_2$;

opið á,
könnum hringja,
sumir syngja
sol sol fa sol fa.
*Inter pocula.*

þorstinn frekur
þessum vekur
þrautir hjá,
og viti ekur
öllu frá,
hugurinn sekur
hindrast tekur
á heimsku og vondri þrá.
*Inter pocula.*

Síðan halla
heila stalla
hægindið á,
stirðan pall

---

Alt hlýtur klingja F; þá tekur að klingja Br, Gr; því hlýtur að A, H, þv, D; 155. dala Sk; dáranna dyngja F; 156. á dúknum HE, Ad, H, Gr, þv, L, $Br_1$; á dúkum F, A; grá Gr; 157. pyngjan F, Bm, $Br_1$; 159. könnur hringja F, Sk, JA, Bl, Lb, Bd; 160. en sumir Gr; saman og Sk, HE, Lb, Bl, J A, Br, Bd; sumir og syngja $Br_1$, $B_2$; 161. sol fa mi re la Bl, Sk; sol sol fa sol la, J A, þ, H, þv, HE; sol sol la sol fa Br; ut re mi sol fa F; sol sol fa(!) Lb; 163—71. í V, Sk, JA, Lb, Bl, Br, þ, Bd; 164. þessum rekur Lb; 166. og sl. Sk; 169. hrærast tekur Br; 174. hægindi L, hægindin Lb, JA; 176. eða sterka rá J A, Lb,

eða stóra slá,
blunda valla,
blöndudalla
belgja tvo eða þrjá.
*Inter pocula.*

Hrörnar blíða,
hreifist kvíða
og hugarins þrá,
millum hríða
hugsun fá,
rauðum víða
velgjan stríða
veltir hvarma skjá.
*Inter pocula.*

Hóstakliður
ráma ryður
ræðukrá,
síga niður
hljóðin há,

---

Bl; eða sterka krá Sk; 179. belgja út tvo eða þrjá H, $Br_2$: belgja út tvo og þrjá H E, þv, D; belgja tvo og P, Br, þ, $Br_1$; tvo eður J A, Lb, Bl; 182. en hreifist Útg. Snót, Ad, R, H, þv; en hreifir L; hreifir Sk, J A, Bl; 183. í hyggju þrá Br; hugar Útg, Snót, St, R, Re, Sp, A, $V_2$, Bm, D; 184. í millum Br; 185. hugsun frá(?) Br; 186. rauðri Br; slær sig víða J A; blauðum víða H, H E, $Br_2$; 187. belgjan stríða H, H E, $Br_2$; 188. byltir hvarmaskjá H: byltir hvarmakrá H E, þv; byltir til og frá $Br_2$; hvarma krá Br: veltur hvarma brá J A; 190. hóstakviða þv; 191. rámur Gr; ráma riðu þv;

kreppast iður,
leggur og liður
leikur þræði á.
*Inter pocula.*

Fyrir því gæti
í sess og sæti
sér að slá
óhófskæti
allri frá,
siðug læti
mjöðurinn mæti
mönnum verki hjá.
*Inter pocula.*

Fróðir sverfi
kvæða kerfi
og kyngi smá,
staupum hverfi
stundum frá,
þó aðrir erfi
skjaldan skerfi,
skyggi nokkur á.
*Inter pocula.*

---

rámi Br$_1$; 195. kreppist H E; kúgast P, þ; veltast Sk, Bl; 196. leggir og Br; 197. leika Útg, Gr, Bl, Br, þ, Lb; 199. þar fyrir gæti Sk, J A, Bl, Lb; 202. ofsakæti Br; 204. siðleg læti Sk, J A, Bl, Lb, þ; 205. maðurinn mæti J A; móðurinn mæti Br$_1$ („móður, apposit. við siðug læti, hlýtur að vera hið rétta“, segir Eiríkur Magnússon í afskrift sinni); 206. vekur hjá J A; 208. Fraðer(!) Sk; Fróður Br$_1$; Fróður hverfi

Hýrlegt gaman
haldi framann
hōldum ljá,
stygð og ama
stía frá,
geri sér taman
sōnginn saman,
sumir hlýði á.

*Inter pocula.*

Kerum veifi,
um könnur þreifi
og kenni á,
en að hreifri
hyggju krá

J A; 210. í kyngi J A, Bl, Br, Lb; 211. staupin J A, Bl, Br, Lb, þ, þv, H, H E, $Br_1$; „staupun̄“ $Br_2$; 215. „skicki“(!) þv; nokkuð á L, Br, þ; 218. frama, Útg., Snót, G, St, R, Re, A, Ad, Bm; 219. H E, Ad, L, $Br_1$, $Br_2$; höldum hjá, öll hin, nema Gr: hrindi þrá; 220. en stygð Útg., Snót, G, St, R, Re, Bm, $Br_1$ o. fl.; 221. ama stía H E; ama að stía H, Ad, $Br_1$; 222. geri sér tama Bm; 223. söngva saman Bm; 226. Keyrum veifa Sk, Lb, J A, Bl, þ; 227. um sl. Br, J A, þ, H, H E; um konur þreifa Lb; þreifa J A, þ, Bl, Sk, Br; könnur hneifi $Br_2$; 228. og kenna á J A, Bl, Lb, Sk, þ; 229. en að hreife þv; en að hreifa þ, Bl, Sk, Lb; en aðrir hreifi Br, J A; glaðir hreifi P, D, Bd; svo að hreife $Br_2$; 231. dreifa Sk; 232. lýða í leyfi J A, Br; og lýðum leifi Lb, þ, Bl, Sk; að lýða leyfi H E, H, þv; 233. Ljóðum H, þv, H E, Lb, J A, Bl, þ, $Br_2$; 234. inter fænora Bl. Kvæðið er hér nú 9 erindum lengra en í útg., eða 26 err. V er að eins erindi, sem vanta í útgáfuna. það er nýleg afskrift.

selskap dreifi
í lýða leyfi.
Ljóðunum vík eg frá.
*Inter pocula.*

---

## ÖLKVÆÐI.

### II.

[Útg. bls. 91—94; G = Gaman og alvara II. bls. 169—71; þingeyrabók bls. 203—205; Varðgjárkver; Ad = Additam. Nr. 80. 4to.; Stokkahlaðabók; Rask 46. 4to.; Rask 83. 8vo.; þv = þingvallabók bls. 403—404; J Sig. 271. 4to. (orðam. Páls eptir hdr. Sr Grímólfs); British Museum 11,185. 8vo.; $Br_1$ = British Museum Nr. 11,175. 8vo. (F Magn. 181. 8vo.) 152 b — 153 b; $Br_2$ = Brit. Mus. 11,175. 8vo. fol. 288—89; Páls safn Nr. 1. 8vo. XXIII. bls. 16 — 17 (önnur röð); Bmfél. d. á Ísl. Nr. 203. 8vo. (önnur röð, gömul hönd); L = J Sig. 311. 8vo. (góð fiskr.); $V_2$ = Bmfél. d. á Ísl.

---

þessi athugasemd skrifarans (sem er Eyfirðingur) er aptan við: „þessar vísur skrifaði eg eptir einu handriti, hvar þó ekki voru allar þær, sem eru í því prentaða kvæði; var það eignað Sr Stefáni; sú hér seinasta vísa (ɔ: Hinir drekka o. s. frv. 82—92) er lítið frábrugðin að hætti; er þó vísast hún sé eptir sama skáld". Röð erindanna í þeim handritum sem fylst eru, er dálítið mismunandi, en hér er fylgt þeirri, sem er í Lb, Bl, Sk; röðin í Br, J A er samhlj., og þ hefir sérstaka röð. Munurinn er þó ekki mikill. Í Lb, Bl, Sk er 1—9. err. samhlj. röð J A, Br, þ, en svo dálítið öðruvísi, en seinni parturinn aptur eins. Bd er og talsvert frábrugðið, hvað röðina snertir, en röð þess í síðara hluta kvæðisins er lakari en í hinum.

Nr. 111. 8vo. (Viðeyjarkver); Dr = J Sig. 265. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. bls. 242—46; Hálfdánarbók mín; Bd = F Magn. Nr. 6. fol. í Bodleys safni í Oxford; J Ól. tilvitn. í orðab. undir: botn, bregða, brún, draf, fá, jukk, tint, vín og víðar, og Additam. Nr. 2. 4to. bls. 70, Nr. 6. 4to. bls. 241, 1013, Nr. 8. 4to. bls. 3254.]

---

Vínið held eg bezt brent
bæta ólysti,
ef vel er ákent
það ískrar í brysti,
mjaðar staup sé með spent,
svo menn verði ótvistir,
öllum er öl hent,
ef þá dátt þyrstir.

Kæran gaf mér krús á,
kættist hrings álfur,
þar skal enginn af fá,
utan eg sjálfur;
til gleði brún brá,
bikarinn hálfur,
einhver veitir ásjá,
ef eg verð sem kálfur.

Kviknar bjórs kraptur,
kennir það happa,

---

Fyrirsögn: Ölvísur Ad, Bm, Bd, $Br_1$, $Br_2$; Lofsöngur ölfanga G; 1. Kvæðið byrjar í sumum hdrr. á erindinu: Fjalar og Frosti &c. (25—32), svo sem í $Br_2$, Bd, Bm (sbr. 25—32); 2. að bæta J Ól., Br, $Br_2$; ólystir, öll, nema J Ól., þv; 3. árent P; afskeinkt Bd, $Br_2$; 4. bryst = brjóst

hér mun skerfur skaptur,
skal hann út klappa,
saup randa raptur
renda skúms hnappa,
enn bið eg aptur
þú á viljir tappa.

Fjalar og Frosti
fann Kvásis dreyra,
þá kýs eg kosti
við krúslá að heyra,
Hárs rennur rosti,
og ruglum enn fleira,
ei þverrar þorsti,
og því vil eg meira.

---

(d. bryst); ískrar í b. = „hitar, rífur fyrir brjósti“ G; 5. er með spent Bd, $Br_1$, $Br_2$; 7. en öllum L; 9—16. er 3 er. í Br; 10. kætist Br, H E, J Ól.; 13. í gleði Br; mér þá í brún Þv, J Ól.; 16. sem sl. Þ; 17—24. er 5 er. í Br, Bm; 17. brjóstskraptur Bd; brjóstkraptur Bm, P; 19. hér minn Gr; hér um skelfur Bm; hér er G, R, Re (í orðam.), Sp, V, Þ; „eñ skelf$^r$ („skielfur“ $Br_2$) skaptur“ Bd; 20. skal það Ad, Gr, L, Re (hitt í orðam.), V, Þv, Bd, $Br_1$, $Br_2$; 21. staup Re (í orðam.); „rapt$^r$“ Bd; 22. knappa Útg, Br, Ad, R; og (sl. $Br_2$) rendi af skúmhnappa Bm, $Br_2$; „z rende af skum hvapp“ Bd (svo í afskr.); 23. um bið eg V, Þ; 25—32. er 2. er. í Br, 1. í Bm, Bd, $Br_2$; 25. Fjölnir og Bd og hann Frosti Re; 27. þann kýs eg kostinn G; hans kýs eg Br, Ad, Gr, Þv, Dr, H E, L, Bd, $Br_1$, $Br_2$; 28. krúslög Br; að eira Bm; eira Þ; að reira Bd, $Br_2$; 29. hans rennur Bm, $Br_2$; rostinn Br; Hárs rosti er ölföng G; 30. og sl. Útg, L, R; rugli enn Gr; ruglum ei Br; ef rugla menn Bm, P, $Br_2$;

Út er runnið öltár
í mjöðinn sæta,
fult af því staup stár,
er styggvan má kæta,
þó eg ætti firn fjár
fyrir að bæta,
guðs frið og gott ár,
og grön skal enn væta.

Tintin gengur tollfrí,
tek eg dropann frjáls inn,
hana skenkti enn í
auðs þiljan málsvinn,
heilsa boðast hér ný
og hýran yfir sjálfs kinn,
enginn fær á því
þó eg skoli háls minn.

---

rugla menn þ; ef ruglum þv, Bd; ragl um enn fleira Sp; 31. þorstinn H E; 32. og sl. Re; 33—40. er 7 er. í Bm, Br, Bd; 33. Alt er runnið öltár Bd; 36. er styggva Re (í orðam.); og styggva þ; 37. þó eg eigi Ad, L, þ; þó átti eg Bd; 38. fyrir það bæta Bm; 39. í guðs frið þ; guðs friði gott ár Bd; í guðs friði gott ár $Br_2$; 40. og sl. Bm, Br, G, H E, R, Re, Sp; 41—48. er 4. erindi í Bd; 41. Tint Útg, G, H E, L, Re, Sp, St, V; „tint er tinflaska", segir Dr. Magnús Stephensen í G, en það mun naumast vera rétt; orðið mun öllu heldur þýða tinstaup eða tinkönnu, eins og Jón Ólafsson Grunnvíkingur útleggur það („vasculum stanneum, amphora parva stannea"). Orðið er að minsta kosti frá 16. öld, og finst í Sigurðarregistri „tintur iij" í flt. (A Magn. 269. 4to. bls. 126), og ætti því nefnifall eintölu eptir mynd þess þar að vera tinta. Sigurðarregistur er

Enn kýs eg ósein
ölkerin skoppi,
svo verða láti virt hrein
volgt undir toppi,
mitt gengur málbein
mjúkt og óloppið,
á því fæ eg gert grein
að gott er í koppi.

Opt fer eg í ölbón
og enn meir vil hafa,
nú rénar sá són
og sýknin ákafa,
heila setur fult frón
og forstand í vafa,
tekur að verða tæp sjón,
og tungan að drafa.

---

gert eptir dauða Ólafs biskups Hjaltasonar (d. 18. febr. 1569, A M. l. c. p. 121) af Sr Sigurði Jónssyni (biskups Arasonar) á Grenjaðarstöðum, sem þá var skipaður fyrir Hólastól og „tok h*ann* þa þ*ann* sama dag reikning skap k*irkiunnar* oc stad*ar*ins a nockru*m* daudu*m* p*en*ingu*m* iñanstocks oc at nærstu pasku*m* a ornam*entum* inan k*ir*kiu oc þar ept*er* a boku*m* I skola oc suo reikning a kosti z fr*i*du*m* p*en*ingu*m* at Io*n*s deigi s*em* suo kallast oc e*r* þ*ann* (!) XXti oc þ*r*idie dagur aprilis". Orðið kemur og fyrir í öðrum skjölum og skrám um það leyti; 42. frjálst P; 43. hann skenkti Re (í orðam.), Bd; skenkir V, Þ; skenki Br, Sp; skeinktu Br; 44. þilja V; auðselja St; 45. heilsan J Ól., V, Bd, Br$_2$; 46. hýran á Br, Bd; 48. eg þótt Re (í texta, hitt í orðam.); 49—56. er 6. er. í Bm, Br, Bd; 49. óseint Bm, P, Bd, Br$_2$; 50. að Br$_2$; 51. svo sl. Þ: vært beint Bm, P, Bd, Br$_2$; 52.

Upp kemur ófrýnt
útgönguklukkið,
ekki verður alt sýnt
ölmála sukkið,
flestalt er til tínt
tvíbytnu jukkið,
af nauðsvefni nef brýnt,
og nú er vel drukkið.

---

varmt Þ; og varmt Bm; vært (og vared $Br_2$) undir(!) Bd; mál beint Bd, $Br_2$; 55. af því fær grön greint Bd, $Br_2$; þar á fær Ad, Gr, Dr, Sp, Þv; þar á hef eg gert H E; á því fær Br; af því fær Bm; þar á fæ (fær $Br_1$) gert L; 56. hvort gott er Br; hvað gott er Br, H E, Ad, Gr, Dr, Sp, Þv; 57. ölsbón Re (í texta); 58. og sl. Útg, Br, G, R, St; 59. réna tekur sá Gr; ekki rénar G; eigi rénar Útg, R, St, V; 60. og svoddan ákafa(!) Þ; og sjúkan ákafa Bm; og sóknin Gr; og sýknin ák ... H E; syntan ákafa Bd; 61. sefur fult Þ; 62. og sl. Bm, Dr, V; 62. forstandi vafa Bd; 63. að sl. Útg; verða tekur J Ól., Ad, G, H E, R, Re, St, V, Þv, $Br_1$; 64. og sl. L; en tungan J Ól., Ad, G, H E; 65. Opt gengur ófrýnt Bm, Br, Bd; ófint $Br_1$; 66. „utgaungu muckid" Bd [„verður varla annað lesið en, mukkið sb. Engl. to run a muck? ganga berserksgang (malaiska „amock' að drepa"), segir Eiríkur Magnússon við afskriftina]; 67. verður ófrýnt V; alt fint Bd; 68. „ömála"(!) $Br_1$; 69. mest er nú $Br_1$; af nauða svefni Bd; er nef Þ, Bd; 72. og sl. Ad; nú var Bm, Dr, $Br_1$; nú var til drukkið Þv (hitt í orðam.).

# ÖLVÍSUR.

## I.

[Útg. bls. 113—15; Varðgjárkver; Additam. B. U. H. Nr. 80. 4to.; Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 271. 4to. (orðam. Páls eptir Sr Grímólfi); British Museum 11,185. 8vo.; $Br_2$ = British Museum Nr. 11,175. 8vo. 155 b—156 b; J Sig. 242. 8vo. (flskr.); Bmfél. d. á Ísl. Nr. 111. 8vo.; Þingeyrabók bls. 202—203; Páls safn Nr. 1. 8vo. XXII. (orðam. skr. inn í expl. Páls); Hrafnadalskver bls. 108—109; Þingvallabók bls. 404—405; Bergsbók bls. 59—61; J Sig. 82. 8vo. bls. 190—94; Hálfdánarbók mín; Bl = Orðamunur eptir Blöndalsbók skrifaður af Jóni Árnasyni inn í HE. J Ól. í orðab. undir: víma, þrýtur, og Addit. Nr. 2. 4to. bls. 70, Nr. 7. 4to. bls. 1774—75; G = Gaman og alvara II. bls. 178, 190, 199—200.]

---

Ölið í kvæðum ýmist bjór
ellegar veig má heita,
hreina lögur, horna sjór,
hrosti og milskan feita,
gildi, suml og vegleg virt,
vín og mjöður, en ei er stirt
af slíku bögunum breyta.

Frægðarmenn þeir fyltu horn
forðum upp á barma,

---

2. ellegar virt V, Þv, J Ól.; ellegar vín Bl, Hr; 3. horna lögur, horna sjór Ad; hreini lögur Bb; 4. hrost Ad, Br, Bb, Bl, Þ, Þv, J Ól.; 5. eða vegleg Ad, Bl, Br; 6. en ekki er Br, Hr; en ekki stirt Ad, Bb, Bl, Bm, HE, Sp, V, Þ, J Ól; en ei $Br_2$; 7. brögum $Br_2$; beita St; 8. sem fyltu Bl,

víkja tekur venjan forn,
það vekur sumra harma,
skálir og staupin stikla nú
stór og smá, en það er mín trú
eg þurfi af þorsta að jarma.

Skenkjarar þá skapa af list
skúmin eins og rjóma,
opt það fælir vitið úr vist,
virtin legst á góma,
í flestu vaða fyrðar krap
fullhitnaðir af drykkjuskap,
og deila ei synd frá sóma.

Þegar í kolli ölið er,
ypt er leyndarmálum,
það, sem efa ódrukkner
er örugg vissa í skálum,
verjulaus í vopna klíð
verður fús og byrjar stríð,
en skríður á skónum hálum.

---

H E, R, Sp, St; 11. vekur það Ad, Bb, Bl, Br, Hr; vekur það stóra P, Þ; vekur það mörgum $Br_2$; 12. en skálir Br; skál og Bm, Sp; 13. en sl. Br, Gr, $Br_1$; 14. ei þurfi Útg, Ad, Bb, Bl, Bm, H E, R, St, Þ, $Br_2$; ei þurfum Br; 15. Skenkjarnir þá Ad; Skenkjarnir skapa Bb, Bl, Bm, Br, Gr, F, H E, R, Sp, St, V, Þ, Þv, $Br_2$; 17. þetta fælir Ad, Gr, R, St, V, Þ V, Sp, F, Bm, $Br_2$; 18. nær virtin P; 20. við drykkjuskap Br; 21. en deila Ad, F, Hr, Þ, $Br_2$; 23. það yptir Ad, Bl, H E, Hr, Þv, V, $Br_2$; það yppir Bb, Br, F, Gr, Þ; 24. hvað sem V: „Þad efne ödruckner“ $Br_2$; 26.

Áhyggjunnar þrungin þrá
þrýtur í drykkjuranni,
hálærðan við horna lá
heimskur trú eg sig sanni;
en hver er sá, eð staupin stór
staðfylt upp með skúm og bjór
ei gerðu að mælskumanni?

Hver er svo snauður af hölda drótt,
að hann ei örbyrgð gleymi
þegar að mjaðar iðan ótt
inn um varirnar streymir?
En alt er að morgni víl sem var,
vizka farin og hreysti par
að dvínuðum drykkju eimi.

---

vopna hríð Br; 27. byrjast Ad; býr af stríð V, Þv; 28. „á skörunum" $Br_2$; 31. hálærður F, V; 33. en hver er sá, sem Útg, R, Sp, St, G; en sl. Ad, Br, $Br_2$; hver er sá, er Þ, Þv; sá hvern Bm; 34. vín og bjór F, G; 35. ei gerir Ad, P, R, Sp, V, Þ, Þv; ei geri Br, Hr, St, $Br_2$; 33—35. En hver er sá ei staupin stór — staðfylt upp með vín og bjór — geri að mælskumanni Gr; 36—42. vantar í Útg.; 38. að sl. Gr; 40. en aptur að morgni Þ; sbr. Hávamál 23:

Ósviðr maðr
vakir um allar nætr
ok hyggr at hvívetna;
þá er móðr,
er at morni kemr,
alt er víl sem var.

41. vizka er horfin Br; 42. með dvínuðum Bl; „með dumuðum" $Br_2$; drykkjar Gr; 43. það er svo vont F; 44. og

það er vont að verða ær
með vilja og líkjast svínum,
því enginn veit hvort aptur nær
öllu vitinu sínu,
og þó það veitist víst til sanns,
í valdi reiknast einskis manns,
það er af guði þínum.

Hann hefur gefið þér hugarins megn
og heilsuna utan kvilla,
ilt er að hefjast honum í gegn
og hvorutveggju spilla;
með öli gerir þú einatt það
í óhófinu, er steðjar að,
og það er vondsleg villa.

Styggir þú guð, en sturlar menn
í staupa langri drykkju,
vendu þig á, þá víma renn,
virða að mýkja þykkju,
en fyrri þó við föður vorn Krist
að friðmælast með helgri lyst
og skríða undir hans skikkju.

---

vilja líkjast Bb; 48. í valdi er það $Br_2$; 49. en það er af Bl, Br, Þ, $Br_2$; 53. að spilla Br, $Br_2$; 54. með ölinu Bl, Gr, $Br_2$; gerir mann Br; 56. og þó er það Ad, Bb, Bl, Bm, HE, R, Sp, St, V, Þ, $Br_2$; vondskleg $Br_2$; og sl. Hr; 57. stuggir HE; guð eða Útg, Hr, R, St; eða sturlar þú F: eður sturlir Ad, Bb; eður sturlar Br, Sp; 58. með staupa Br, F; 59. vendu þig þegar J Ól.; víman Ad; þig þá víma

Í hófi þó ver hreifum oss
honum er stygðin engi
við þann skýra skálafoss,
er skemtir lýða mengi;
þar er oss bezt að bíða við,
að bergja og súpa í herrans frið
og stilla hans dýrðar strengi.

---

## ÖLVÍSUR.

### II.

[Varðgjárkver (eignar Sr Hallgrími Péturssyni); P = J Sig 272. 4to. (afskrift Páls Pálssonar í kvæðasafni Sr Hallgríms Péturssonar, og segir Páll þar: „Sumir eigna Sr Stefáni Ólafssyni í Vallanesi, og það hygg eg réttara"); Bergsbók Jóns Árnasonar bls. 61—63 (eignar Sr Hallgrími); Þingvallabók Jóns Sigurðssonar bls. 396—98 (eignar Sr Stefáni Ólafssyni); Jón Ólafsson vitnar í þetta kvæði í orðabók sinni undir: bugta, dasa, frukt, vín, og eignar á einum stað Sr Hallgrími, einum stað engum, og tveim stöðum Sr Stefáni Ólafssyni, á öðrum staðnum skýlaust, en á hinum kemst

---

Sp; þegar víman Bb, F, Hr, V, Þ; ven þú þig strax þá víman Br; ven þú þig á þegar víman Bl; þegar vínið kenn $Br_2$; 60. að stilla Bl, Hr; að sl. J Ól.; 61. en fram yfir alt við Gr, F (hitt í orðam.); 62. að sl. V; hjartans lyst $Br_2$; 63. og sl. V; 65. hans er Ad, Bb, Bl, Hr, P, Þ; 66. skeinkta skála Br; skálar Bl, Hr; 67. og skemtum Ad, Bb, Bm, Br, F, Hr, P, Sp, V, Þ, Þv, $Br_2$: 69. að sl. Ad, Bl, Br.

hann svo að orði: „In carmine dn̄i Stephani Olavi potiusquam dn̄i Hallgrimi Petræi“. Hann hyggur því, eins og Páll, að réttara sé að eigna það S[r] Stefáni.]

---

lðkum gleðina góða,
gerum lyndið sorgfrí,
kveykjum lofsöng ljóða,
lagast kæti þá ný,
tempran tveggja hljóða
tóninn stilla skal því.
*Ut sol fa re mi.*

Í hófi danza og drekka
drottinn bannar ei sá,
sem gleði gaf fyrir ekka,
og góðu vatni í vín brá;
ofdrykkjan öll flekkar,
eigum henni við sjá.
*Ut re mi sol fa.*

því hún þegna hendir,
þó að ekki góð sé,
og broddi lasta bendir
biturlega með spé,
sigur lítinn sendir,
sóma flettir kanske.
*Ut sol fa mi re.*

---

6. skar því(!) þv; 7. sbr. bls. 327—29 og 345. Viðlagið er stofntónatáknun sumra á fyrri tíð í söng og þó eigi full, því tónstiginn er allur svo: ut (eða do), re, mi, fa, sol, la, si, og er þessi táknun frá 11. öld, nema si, som er

Ölið orðum fræða
ympra gerir títt á,
mála ræðu mæða,
þá munngátið í koll fá,
brydda á byrgðum kvæða,
borð við drekka svo þá.
*Ut re mi sol fa.*

Þá löngum lystugt þamba
lygna brúna þeir sól,
ríkilátir ramba,
reygja sig við borðstól,
dasaðir að dramba,
drengja girnast víst hól.
*Ut re mi fa sol.*

En ef minna mekta
mönnum drekka til frí,
búrarnir sig bukta
buxnasíðir í því,
þeir látast líka frukta,
lófann kyssa fast í.
*Ut sol fa re mi.*

Dispútéra og danza,
dælan verður bær frá,
stilla kvæða kranza,
könnu skella lok á,

löngu seinna til komið. Hin fyrstu 6 atkvæði eru upphafsatkvæði að lofsöng eptir Guido frá Arezzo á Ítalín til hins heilaga Jóns skírara, og notaði Guido þau við söngiðkanir með

gera borðin glanza
með gullkerin og staup smá.
*Ut re mi sol fa.*

Kollhnakkann þeir kringja,
krúsast heila þá ból,
opnast orðapyngja,
óðar grípa sín tól,
sumir fara að syngja
segjandi með hágól:
*Ut re mi fa sol.*

En ef gustur grettu
gerist nokkrum af hlut,
mjög er lítið létt um,
lagar heimta þá kút,
hreifa hauka stéttum,
heyra má þá smákrut.
*Sol fa mi re ut.*

Harðir hleypa brúnum,
hrifsa svarðar í strá,
hvelfa hvarma túnum
hræðilegir að sjá,
og á fótum fúnum
fljúgast gera títt á.
*Ut re mi sol fa.*

---

lærisveinum sínum, og voru þau svo síðar kölluð aretinsku atkvæðin; 11. og góður P, þ, J Ól.; 12. öldrykkjan P, þv; 27. svo fá þv; 30. þar sól P; 31. rækalls mikið ramba þv; 34. drjúgum girnast J Ól.; 36. þegar(að) meira mektar

Heila snekkju hrista,
hnefa stæla borð í,
hnífum hnota og rista,
hlaupa saman í því,
gera glímu bista,
um gólfið sukka með frí.
*Ut sol fa re mi.*

Krúsir, könnur þrífa,
kasta annan hver á,
klæði rista og rífa,
rjúka niður borð þá,
þanninn þegnar kífa,
þar er ekki langt frá.
*Ut re mi sol fa.*

Miðri mitt í bræði
magnast blíðu veikt hjól,
upp með ástaræði
aptur reisa borðstól,
danza drekka, bæði,
drífa taka burt fól.
*Ut re mi fa sol.*

Öllum hugmóð hægja,
heita læti blíð má,
reiði burtu bægja,
bræðra sverja lag þá,

---

J Ól.; 37. menn þeim J Ól.; 41. lófann kyssa fast í J Ól.: 51. krullast P (hvorttv.), þv; 59. margir lítið léttum V, þ, P (í texta); 60. lagar hreyta V, þ, P (í texta); 65. í svarðar P;

þjósti þanka blæja
þanninu hrindir burt frá.
*Ut re mi sol fa.*

Svo með siða gæði
segja gera í því:
Mína bernskubræði,
bróðir, gefðu til frí.
Stöku kveða kvæði,
kveykja vinahót ný.
*Ut sol fa re mi.*

Stöðuglyndi stilla,
stjaka burtu frá sút,
vinabikar byrla,
blíðir renna þann út,
tungu tóptir fylla,
tæma margan smákút.
*Sol fa mi re ut.*

Orðin stirðu óðar
enda taka nú smá,
þanninn leyfi ljóða
lesarinn nú skal fá,
rýrnar raustin hljóða,
rámur segja því má:
*Ut re mi sol fa.*

———— ————

73. hvota og þv; 82. þegar kífa Bb, V, þv; 96. þjósti **þankar** Bb, P (í orðam.); 110. teptir fylla þv, þ (hitt í orðam.).

## Drykkjuvísur.

### I.

[J Arn. V. A. 8vo. p. 41 (Bergsbók); vísan er þar engum eignuð, en stendur meðal kvæða Sr Stefáns, og Jón Sigurðsson getur þess til, að vísan sé eptir hann.]

Nú látum oss drekka
nýjan drykk án ekka,
drykkur þessi dýr og góður
dapra gleður rekka,
úti lykist allur móður,
aukum skemtun þekka,
aukum skemtun þekka.
Drinch gaar vech.

### II.

[Útg. bls. 173; Stokkahlaðabók; Rask 46. 4to. (Rasks eiginhandarrit); Rask 83. 8vo.; Bmfél. d. á Ísl. Nr. 111. 8vo.: J Sig. 82. 8vo. p. 286—87. Fyrirsögnin er: Ölvísa.]

Brennivínsbollar tríta
borðið rétt um kring,
nú er ei öðru að ýta,
er mín höndin slyng
að bera staup að munni mér,
skola eg háls, en hirði ei grand
hvað á eptir fer.

---

I. 8. svo í hdr. II. 2. alt um St.

III.

[Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. p. 132.]

Góðum vinum glaður hjá
gjarnan vil eg í staupið fá,
guð mun fyrir gjaldi sjá,
gott er hann að treysta upp á;
þó ýmsir reiki, enginn þarf það öðrum lá.

---

## Við drykkjuborð.

[Útg. bls. 79—80; Sm = J Sig. Nr. 229. 8vo. (Sálmasafn); J Stefánss. hdr.; Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. Nr. 82. 8vo. p. 121—22; British Museum Nr. 11,175. 8vo. fol. 272 b. Fyrirsögnin í Sm „Vers með artugum tón.“]

Lánið drottins lítum mæta,
lét hann ölið hjörtun kæta,
vínið gerði vizkan sæta,
að virða skyldi sorgir bæta.

Vel í Kana vatni sneri,
vill að allir glatt sér geri,
óhóf forðist, en þó veri
ölteitir og skemtun beri.

Vel sá þetta vizkan dýra,
vínið gerði rekka hýra;
vildi því svo vald hans stýra,
vegsömum hans nafnið skíra.

---

IV. 4. upp sl. Sp; 5. þó ýmsir reyki Sp.

Gaf náttúrur guð því margar,
gleður menn og lúa fargar,
veikum mönnum við það bjargar,
vel í soltna lífi tjargar.

Vínið trega tungu týnir,
tapar sörg til dirfsku brýnir,
vínið drottins vald oss sýnir,
verum kátir, bræður mínir.

Kenna vill það köppum snjöllum
Kristum, þann vér drottinn köllum,
vera guð í himna höllum,
hafa vald yfir skepnum öllum.

Rekkar þiggi reglu mína,
rétt vil eg þeim kenna og sýna:
Látum aldrei lof hans dvína,
leikur hann svo við sauði sína.

Æra guði æ sé framin
og vegsemd af öllum samin,
fólkið ungt og fullaldramenn
fagra rómi lofgjörð. Amen.

---

4. að sl. Br; 8. ölkátir Sm; 12. kraptinn skýra Sm; 15. víst það bjargar Sm; 31. fólkið alt St. Sm eitt hefur 17.—24. Röðin er þessi þar. Í hinum hdrr. er hún samhljóða útg.

## Reiðvísur.

### I.

[Utg. bls. 86—87; Snót Kh. 1850. bls. 149—50: Snót Rvík 1865 bls. 216—17; Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. Nr. 82. 8vo. p. 134—35. Porro, R, St, Sp sem fyrirsögn, því hinar reiðvísurnar: Ekki er stundin lengi að líða &c., eru nærstar á undan.]

Svitnar reiðar svínið mitt,
svo munu vera fleiri,
eg heyri;
vakur jór fær veginu stytt,
vel borgar hann eldið sitt,
ei kostar keyri.

Þó skýrist vegur, en blotni braut,
bragnar mega ríða
án kvíða;
hver, sem drottins náðar naut,
náir að sigra hverja þraut
og blessun bíða.

Að hýrga sig á horna sjó
hentugt er, ef mengi
það fengi;
ríðum glatt, en gætum þó,
gefa skal klárnum nokkra ró,
og stilla á strengi.

Jór þó hafi fiman fót
fínt er að gæta að vegi,
svo eigi
keldur, þýfi, klungur, grjót
kunni oss að flækja í nót,
svo mæðast megi.

## II.

[Útg. bls. 84—86; hdr. J Stefánss. (brot); Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; Bmfél. d. á Ísl. Nr. 111. 8vo.; Páls safn Nr. 1. 8vo. XXII. 8vo. (expl. Páls, varr., eptir hdr. Árna Helgasonar?); J Sig. Nr. 82. 8vo. bls. 132—34; J Sig. Nr. 271. 4to. er 13—18 með hendi Halldórs Hjálmarssonar, og segir hann: „Úr kveri frá Espihóli, og er þar eignað Sr Steph. Ól. s.“.]

Ekki er stundin lengi að líða,
latir opt við ferðum kvíða,
soltinn úti svengist jór;
má þar við sú málsgrein hlýða,
mun hann seint úr hlaðinu ríða,
sem sporann snemma spenna fór.

Gott er að sitja í glöðum kranzi
gerist enginn siðanna vanzi;
aðra stund kemst alt á reik.
Menn ef týna fák og fansi,
fljóðin máske þar til anzi:
Hóf er bezt í hverjum leik.

Opt hef eg hjá seggjum setið,
sungið, kveðið, drukkið, etið,
hesti rent og haft við fót,

fljóðin fram yfir flestalt metið
fallvalt, sem hér verður getið,
segi eg að þeim selskapsbót.

það mun gleðja selskap sveina,
syngja, drekka og hesta reyna,
ríðast á og ræða glatt,
áfram stika braut svo beina,
bera þó ei kvíðu neina.
þenkirðu ei að það sé satt..

Að flestu skulum vér gefa gauminn,
en gleðjast þó við horna strauminn,
lystugir með ljúflynt þel.
það mun hefja hofmanns glauminn,
ef hesturinn leikur glatt við tauminn,
ríða svo og renna vel.

Vér skulum að hinu hyggja,
hentar ekki kyrr að liggja;
sá hafi þökk, er sopann gaf.
Víst á eg ei virða að styggja,
vil eg nú til mín klárinn þiggja,
en færleikurinn er þó af.

---

II. 6. sporana Útg, R, Bm, Sp; 9. á kreik P; 10. þó týni P; 12. að hóf sé bezt R, Bm, Sp; bezt á Útg; 16. fljóðið St, R; 17. verður metið(!) St; 23. kvíða P; 24. þekkirðu ei P, Sp; 25. við gefa R; 29. að hesturinn Sp.

III.

[Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. p. 131.]

Enn skal láta skunda skeið
skeifna hjört að fornum sið,
stórkippirnir stytta leið,
ef staðið er okki lengi við.

IV.

[Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. p. 131.]

Þú vilt halda af þínum fák,
það er ekki að furða;
reynt hef eg minn reiðar snák
röskvan vel til burða.

V.

[Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. p. 131.]

Gott ef krúsar girnist sund
gyltur taka að mása,
lízt þér ekki um litla stund
að láta klárinn blása?

VI.

[Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. p. 131.]

Gott er að smakka góma virt,
gleður það hyggju mína,
nú er tungu takið stirt
að tala um hesta sína.

---

IV. 4. röskan Sp.

VII.

[Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. p. 136.]

Hestinn láttu hlaupa þinn,
hérna er strax til reiðu minn,
þú ef sigrar, þraut eg finn,
en þykist mikill ef eg vinn.

Vænn er þessi víst til sanns
veit eg hann gerir hófa glanz,
listugt auga léttfetans,
láttu mig sjá sprettinn hans.

VIII.

[Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo. J Sig. 82. 8vo. p. 135—36.]

Að standa við og lífga lund
lyndir mér enn, bróður-kind,
svo andi jórinn eina stund
yndi jeg við selskap bind.

---

## Hestavísur.

I.

Þegar vér fórum frá Litla-Bakka 10. apr. 1636.

[A Magn. 439. 12mo. Vísnakverið.]

Fákurinn bleiki skottar skjótt
því skrikar ekið búna,
en þybburinn Kjabbi ettir ótt
illur lallar núna.

---

VII. 3. líflegt auga Sp.

II.

Jóni um sinn fola. [um 1637.]

[A Magn. 439. 12mo.]

Bezt er að haldi brúnum jór,
bróðir, heima vöktun stór,
að ekki í hættum slysist sljór,
slept var Bitli; hverninn fór?

III.

*Fjölmóður.*

[Útg. bls. 51—52; Stokkahlaðabók; Jóns hdr. Stefánssonar; Rask 83. 8vo.; J Sig. 239. 8vo.; J Sig. 271. 4to. (blöð með hendi Halld. Hjálmarss.); British Museum 11,185. 8vo.; Páls safn Nr. 1. 8vo. XXII. (orðamunur skr. inn í expl. Páls); þingeyrabók bls. 171; J Sig. 82. 8vo. bls. 81; J Ól. Grv. vitnar í vísuna undir: fjölmóður, fast, táhallur og í Add. B. U. H. Nr. 8. 4to. bls. 2538.]

Frostvindur fast andar,
Fjölmóð eg el góðan,
hann sníður tönn töðu
táhallur á stalli,
rauðskjóttur, reiðléttur,
rennur svell og menn fellir,
pipureyrður, hlauphaður,
haus kliptum laus yptir.

I. Neðanundir: „S. O." II. Jón þessi í fyrirsögninni er líklega Ólafsson, og hinn sami, sem S[r] Stefán skrifar til um Valda fjárpilt (bls. 23); 2. bróðir, ávarpsorð = góði minn, eða því uml.; S[r] Stefán átti engan bróður, sem Jón hét, svo menn viti. Neðanundir er „S", sem líkist greinarmerki. III. 1. Fast andar Frostvindur J Ól.; 2. Fjelmóð þ; 3. hans

## IV.

### *Penni.*

[Útg. bls. 52; Rask 83. 8vo.; Stokkahlaðabók; J Sig. 271. 4to. (með h. Halld. Hjálmarss.); J Sig. 239. 8vo.; Hálfdánarbók mín; British Museum 11,185. 8vo.; Páls safn Nr. 1. 8vo. XXII. (orðam. í expl. Páls); þingeyrabók bls. 171; J Sig. 82. bls. 81—82.]

Penni stár við stall sinn,
stýfir hey með nóg líf,
eyrun hefur allsnör,
augun skær sem glerbaug,
lendaður, svo lágt sund
liggur eptir hans hrygg,
reistur vel með breið brjóst,
bangar fold á skeiðgang.

## V.

### *Haugbúi.*

[Útg. bls. 52; þingeyrabók; Grundarkver; Stokkahlaðabók; Rask. 83. 8vo.; J Sig. 271. 4to. (með h. H. Hjálm.); J Sig. 271. 4to. (orðam. Páls eptir Sr Grímólfi); British Museum 11,185. 8vo.; Hálfdánanarbók mín „ex autogr.“, og þar af leiðandi er henni fylgt, og enginn orðamunur tilfærður úr hinum.]

Flugháum Haugbúa
hey gef eg, ei tefur
sá skeiðin síbráður,
sett fetin nett getur

---

sníður J Ól., S, St, H, P; 4. tá hallar K: 6. rennir H; mann þ; 7. pipeyrður S, St, H, P. IV. 3. eyru K; 4. augu

öll jöfn, er áll safnar
ísberki grífssterkum,
flís klaka laus leikur,
lopt kófar opt hófum.

## VI.

### *Steintrompur.*

[Útg. bls. 52—53; Stokkahlaðab.; Rask. 83. 8vo.; J Sig. 239. 8vo.; British Museum 11,185. 8vo.; Hrafnadalskver bls. 156; Bl = Orðam. með h. Jóns Árnasonar í H E eptir Blöndalsbók; Páls orðam. í expl. hans; Þingeyrabók bls. 172; J Sig. 82. 8vo. bls. 82—83; Hálfdánarbók.]

Að stympast við hann Steintromp
staut er það og nóg þraut,
anar hann fram sem ólmt ljón
örðugur og knýr jörð,
lýr arma lífstór,
langar mjög í fótsprang,
flestir halda hann friðlaust
fýrugasta reiðdýr.

## VII.

### *Rosti.*

[Útg. bls. 53; Stokkahlb.; Rask. 83. 8vo.; J Sig. 239. 8vo.; Þingeyrabók; Hrafnadalskver; Orðam. skrif. af Jóni Árnasyni inn í H E eptir Blöndalsbók; Hálfdánarbók; J Sig. 271. 4to. (orðam. Páls eptir S[r] Grímólfi); Orðam. innskr. í expl. Páls; J Sig. 82. 8vo. bls. 83.]

Rosti er vænn reiðhestur,
reistur er hann sem þeisti,

---

K: en augun H E; 5. svo langt Br, H, K, St; sem lágt P;

hastur í glöðum gusti
geysti skeið af magnhreysti,
hvest járn gusu gneistum,
gnast í hófakasti,
ristir opt faldinn frosta
fastan saman í rastir.

## VIII.

*Travali.*

[Útg. bls. 53; J Árn. B. XVIII. bls. 146–47; Stokkahlaðabók; Jóns Stefánssonar hdr.; Rask. 83. 8vo.; J Sig. 239. 8vo.; British Museum 11,185. 8vo.; Þingeyrabók bls. 172—73; JSig. 82. 8vo. bls. 83—84.]

Af mér þarf að fala·
enginn maður Travala,
sá klárinn kjörvala
kvarnar upp úr harðbala,
trapp lætur hóf hjala,
herðir flugið kastmala,
með skeifna skarkala
skakar urð í vindsvala.

6. liggi P. VI 2. og gnóg Hr; 3. hann sl. öll, nema Útg, Hr, H E; ötult ljón P; 5. liðstór Br; 8. og fýrugasta H E, Hr; hreindýr Bl. VII. 2. reistur hann er þeim þeysti H E; teisti Bl, Hr, P; þeysti Útg, St, Sp, o. fl.; 3. hann hastar í glöðugu (!) H E; hastar Gr, P, Sp; 4. geyst, öll, nema Bl, Hr, K, Þ; 5. gusuðu, öll, nema H E, K; 7. hristi H E; hristir Gr; opt sl. Bl, Hr. VIII. 6. flug í kastmala (!) Br; 8. skakar aur S; skakar í K, Þ. IX. 2. selfeitan Br; 3. grund

## IX.

### *Berfótur.*

[Útg. bls. 54; Stokkahlb.; Rask 83. 8vo.; J Sig. 239. 8vo.; British Museum 11,185. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. bls. 84; þingeyrabók bls. 172; Orðam. inn skr. í expl. Páls.]

Berfótur býr úti,
bela steytir selfeitur,
krapsar grundir, glepsandi
gljáskúfa á þúfum,
snjó þeytir frá fótum,
fjalldrapa aldur skapar,
víða dreifir skrið skrofa,
skaddar harðan gadd jarðar.

## X.

### *Horntoppur.*

[Útg. bls. 54; Stokkahlaðabók; Rask. 83. 8vo.; J Sig. 239. 8vo.; J Sig. 271. 4to. (orðam. Páls eptir Sr Grímólfi); British Museum 11,185. 8vo.; Orðam. í expl. Páls; þingeyrabók bls. 173; J Sig. 82. 8vo. bls. 84–85. Vísan er gerð undir nafni þorvalds sonar Sr Stefáns, og hefur hann eignað sér Horntopp, eins og Br bendir til.]

Heppinn var Horntoppur,
hann komst í gott rann
með gráum hest úr gaddsnjó,
og gizkaði á heyvisk,

---

Br, K, P, þ; 5. þveitir, öll, mema K, P, Sp; 7. skrið skrófa Sp; skrið skæður K; dregur skrið skæður P, þ; 8. skaddur harður gaddsvörður(!) Br; skaddur harður P; harður R, Sp. X. 3. hesti í K; í gaddsnjó P; í garðsnjó Gr; 4.

stall rækir stopull,
stingur nös í moðbing,
hann kalla eg hest minn,
þeir halda nafn mitt Þorvald.

## XI.

### *Volki.*

[Útg. bls. 54—55; Stokkahlb.; Jóns Stefánss. hdr.; Rask. 83. 8vo.; J Sig. 239. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. bls. 85; British Museum 11,185. 8vo.; Orðam. í expl. Páls; Þingeyrabók bls. 175.]

Volka hælir frómt fólk
flest, og kallar góðhest,
lágvaxinn, handhægur,
hann kann að bera mann,
bítur í mélamót,
meiðir storð í kappreið;
attur fyrir sig setti
sá stóran opt jór.

## XII.

### *Andvari.*

[Útg. bls. 55; Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 239. 8vo.; British Museum 11,185. 8vo.; Þingeyrabók; J Sig. 82. 8vo. bls. 85—86.]

Andvari yfir grund
ákafan hófs mák

---

og sl. Br; 5. stopult Br; XI. 1. Molka Br; 2. lagvaxinn

flytur sem fari skot
og feykir miklum jóreyk,
hræðist enga áreið,
ær að hlaupa svell glær,
hestamenn að honum dást
heyjuðum, en fá ei.

## XIII.

*Víkingur.*

[Útg. bls. 55; Stokkahlaðabók; Grundarkver; Rask 83. 8vo.; Þingeyrabók; British Museum 11,185. 8vo.; Páls safn Nr. 1. 8vo. XXII.; J Sig. 82. 8vo.; J Sig. 271. 4to. (orðam. Páls eptir Sr Grímólfi); J Sig. 271. 4to. (með hendi Halldórs Hjálmarssonar); Hálfdánarbók mín „ex autogr.“, og er henni því fylgt, og enginn orðamunur tekinn úr hinum.]

Vakurgengum Víkingi
vel eg töðu, jel stöðvast,
lopt tárast, drift dreyrir,
dynur foss, við skinglossur
þrekað grennist þak unnar,
þrótt brákast sótt snáka,
bygð jötna bragðhitnar,
blæ velgir Hræsvelgur.

---

þ; 4. þykir bera P, Sp, S, St. XII. 2. hófs mökk Br mák, venjulega hefi eg heyrt nefnifall eint. máki, ekki mákur; orðið er altaf haft í Skaptafellss. um hreifa á sel, en hreifi aldrei; 8. heyrðum(!) en K. XIV. 5. hengir(!) hann St; flengir R, H E, Sp; 8. Hrumnis H E, R, Sp, St;

## XIV.

### *Blængur.*

[Útg. bls. 56; J Árn. B. XVIII. 8vo. bls. 146—47; Rask 83. 8vo.; Stokkahlaðabók; J Sig. 82. 8vo. bls. 90—91; Hálfdánarbók.]

Blængur kann lypta lungum,
lengir hann skeið afigengur,
angurlaust treður svo enginn
ungur jór grjót og klungrið,
slengir hann þvita þungum
þangað, sem býfur rangast,
syngur í sem þytslöngu
sára sting Hrúgnis fingra.

## XV.

### *Litfari.*

[Útg. bls. 56; Stokkahlaðabók; J Sig. 82. 8vo. bls. 91; Rask 83. 8vo.]

Litfari minn lúinn er,
liggur hann út af flatur,
hann verður þá héðan fer
hrafna og tóu matur,
en skinnið skafið og hert,
um öndina veit eg ekki par,
hvað af henni verður gert,
eg get þar ekki gefið svar
greitt né opinbert.

---

myndin: Hrúgnir eða Hrugnir (f. Hrungnir) er mjög tíð i kvæðum frá 16. og 17. öld og þaðan af yngri. XV. 6.

## XVI.

### *Skjóni.*

[Útg. bls. 57; Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. bls. 92.]

Skjóni óskakkur reynist,
þó Skjóna þeir kalli mjóna,
Skjóni sá skeifum týnir,
Skjóni gerir heytjónið,
Skjóni leið skundar beina,
Skjóni mér allvel þjónar,
við Skjóna skal eg mér una,
því Skjóni minn leiðir prjónar.

## XVII.

### *Gullskór.*

[Bl = Afskrift Jóns Árnasonar úr Blöndalsbók; Hrafnadalskver bls. 114—15; þingeyrabók; J Sig. 239. 8vo.; British Museum 11,185. 8vo.; J Sig. 271. 4to. (úr safni Finns Magnússonar); J Sig. 271. 4to. (með hendi Páls).]

Frægur sína ferð bjó
frá bæ með Gullskó,
á ísunum alt dró
undan honum Gullskó;
eg spurði og hægt hló:
Hver á hann Gullskó?
Ekki þykir mér enn þó
ofsagt af Gullskó.

---

af öndinni R, Sp, St. XVI. 5. skundar leið R, Sp. XVII. 5. eg spyr og Bl, Hr, K, þ. XVIII. 6. hnoðar í Sp.

## XVIII.

*Gráni.*

[Stokkahlaðabók; Rask. 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. bls. 91—92.]

Gráni minn greitt reiddi hána,
hann ganar með flanið alvanur,
foldina fylda lét gjalda,
féll ei á velli skjótt hnellinn,
hann eigrar hestskeiðar leiðir,
hann hnjóðar í móðurnar óðum,
á fjallinu fyllist hann allur,
fer vakurt grey-hrakið spaka.

## XIX.

*Gosi.*

[Stokkahlaðabók; Þingeyrabók; J Sig. 239. 8vo.; J Sig. 271. 4to. (úr safni Finns Magnússonar).]

Gosi prófast, greitt far,
gatan lófa þreytt var,
aflið sljóva ei[tt] bar,
ei fékk glóva neitt þar,
býfan mjóva beitt skar,
birtist kófa veitt par,
mjög var hófa heitt svar,
hefi eg þófa sveitt mar.

---

XIX. Fyrirsögn: Um hest; 6. birtast St; 7. varð Þ. XX. Fyrirsögn: Laufahringur og fleiri R, Sp, St; 5. bifa kann Sp; 6. brestur lend Br; 8. út í kerum Br. XXI. 3. flestum

## XX.

*Laufahringur, Travali og Berfótur.*

[Stokkahlaðabók; Rask. 83. 8vo.; British Museum 11,185. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. bls. 94—95; J Sig. 271. 4to. (Páls hdr.).]

Lífaður Hringur laufa
les upp stráin í nesi,
Travali teygir býfur,
trippunum einatt vippar,
bíta kann Berfótur,
svo brestur í lend á hestum,
bylur í belg á folum,
þá berjast þeir út í skerjum.

## XXI.

*Skildingur og Bleikjalingur.*

[Útg. bls. 58; Stokkahlaðakver; Rask 83. 8vo.; British Museum 11,185.; J Sig. 82. 8vo. bls. 95.]

Um báða kviknar bragsmíð
Bleikjaling og Skilding,
hestum veit eg skáka skást
Skilding og Bleikjaling,
skeiðin rífka bezt breið
Bleikjaling og Skilding,
raupa menn í skáldskap
af Skilding og Bleikjaling.

---

veit eg R, St. XXII. Fyrirsögn: Um hest H, St; Hestvísa

## XXII.

### *Skoli.*

[Stokkahlaðabók; J Sig. 271. 4to. (með hendi Halldórs Hjálmarssonar): J Árn. B. XV. 8vo. bls. 332 (eignar engum).]

Skoli hulinn skal í eli svöli
skjótur, fóta njóta fljótur á grjóti,
þykir líka þrekinn, mjúkur, sprækur
þýður lýðum, hríða stríði ei kvíði,
rennur hrönnum runn með tvinna þanninn,
reiðar seiðar skeiðar leiðir breiðar,
drífur ofur drafið hófa stýfið,
dragsítt vaxið blakksins faxið flaxar.

## XXIII.

### *Tóa.*

[Stokkahlaðabók; J Sig. 271. 4to. (úr safni Finns Magnússonar); J Sig. 239. 8vo.]

Tóa stikar frón frá,
fellir hófa við svell,
æðar strýkur alrauð,
ör til kosta, flugsnör,
fleygir grjóti fram hjá,
fettir eyrun sporlétt,
hæg í gangi, hálsbjúg,
hesta snotrust ber prest.

---

J A; 1. „kanske: Skolur“ H; fölu H, J A; 2. skjótum H, St; njóta fljótur fót á J A; 4. stríð ei J A; 6. seiðir skeiða breiðar leiðir H, St; 7. dreifir ofur J A; stýfins H, St; 8. dragsett faxið J Á; dragsett vaxið St; vaxið flaxar J A.

## XXIV.

### *Brúnn.*

[Stokkahlaðabók; J Sig. 171. 4to. (með hendi Halldórs Hjálmarssonar).]

Ef spjátrarinn með spíssheit
sprangar sig á Brúnlang,
stingur fast í stigþröng
og stangar með þeim Brúnlang,
keppinn spennir kjapt upp
á krangalegum Brúnlang,
svellin klofar síld öll,
þá svangan reynir Brúnlang.

## XXV.

### *Fjöðurnasi.*

[Jón Ólafsson frá Grunnavík tilfærir þennan vísustúf í Add. B. U. H. Nr. 2. 4to. bls. 122, og eignar þar Sr Stefáni Ólafssyni. Þetta er ef til vill ekki nema partur af vísu, en annars hefur hún ekki fundizt.]

Fjöðurnasi löðrar lasinn,
líka sá eg slíka fáa,
mörður þófa hörðum hófum
hrekur grjót með freku róti.

---

XXIII. 1. Tófa F; 5. framhá K. XXIV. Fyrirsögn: Um hest; 2. sprangar um með St. XXV. 4. þungu róti J Ól. (annarstaðar). XXVII. 2. galdra St; galdan, „áður hafði eg séð:

## XXVI.

*Bylur.*

[Útg. bls. 56: Vísan er prentuð af vangá í ljóðabók Jóns þorlákssonar II. 432, en er ekki eptir hann; Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. bls. 91. Prentuð í Corpvs poeticum boreale Dr. Guðbr. Vigfúss. II. 418.]

Bylur skeiðar virta vel,
vil eg þar á gera skil,
þylur sanda, mörk sem mel,
mylur grjót, en syndir hyl.

## XXVII.

*Moldi.*

[J Sig. 239; J Sig. 82. 8vo.; J Sig. 271. 4to. (með h. H. Hjálmarss.); F = J Sig. 271. 4to. (úr safni Finns Magnúss.); Rask 83. 8vo.; Stokkahlb.; þingeyrabók.]

Moldi gildur geldir fold
galdri tryldur hófa,
holdi síldur sældarmold
sjaldan myldur lófa.

## XXVIII.

*Ofsi.*

[Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 271. 4to. (frá Finni); J Sig. 239. 8vo.; þingeyrabók; J Sig. 82. 8vo.]

Ofsi krafsar otur grjót
yfir hreifur sanda,
hrafsar lefsu úr Litars snót,
lífaður skeifum grandar.

---

galdri" H; 3. sældir F, H, K, Sp, þ; 4. mildu'r skr. öll,

XXIX.

[*Bleikur.*]

[XXIX—XXXIV. finst að eins í J Sig. 271. 4to. á blöðum þeim, sem eru með hendi Halldórs Hjálmarssonar, og hefur hann vísurnar „eptir skruddu S^r E[inars] H[álfdánar]s[onar]" á Kirkjubæjarklaustri, föður Mag. Hálfdánar. Halldór segir fyrir ofan vísurnar: „þær, sem nú koma eru engum eignaðar í skruddunni", en hann eignar S^r Stefáni þær að því leyti, sem hann tekur þær upp í það, sem hann eignar honum af kvæðum. það er og svo að skilja sem vísurnar hafi staðið meðal kvæða S^r Stefáns í bók S^r Einars, án þess sérstaklega að vera þar eignaðar honum. þær eru teknar hér sem nokkurskonar vafageplar.]

Bleikur er með betri fákum,
bíður það eg finni síðan
hestinn eins til kyns og kosta,
kræfur er hann alla æfi.

XXX.

[*Nasi.*]

Nasi um grundir geisar,
gangsamur, reiðtamur,
snotur, fallegur, feitur,
frón sparkar eins og ljónið,
kvasast ei beizla brúsi,
bráður þó hlaupi um láðið,
hringvefst hans háls sem kengur,
hestinn á ungur prestur.

---

en á sjálfsagt að vera: myldur (mold). XXVIII. 1. hrifsar F; 3. krafsar Sp; 4. skeifu St.

## XXXI.

[*Titlingur.*]

Titlingur tifar gangi,
tróðu það líkar góðri,
kvikur, vinveittur, vakur,
vaxinn með snotru faxi,
lastalaus hófa hristir,
holdugur sparkar foldu,
gleði er honum um hauður
hríðarlaust að ríða.

## XXXII.

[*Tigull.*]

Tigul skal auðgrund eiga,
er sá vakur, dauðspakur,
fetar svo foldin titrar
fús til vorra húsa,
ungur ótaminn lengi,
er nú seztur sem hestur,
læt eg því aldrei úti
allþægri jór og hægan.

## XXXIII.

[*Lappi.*]

Lappi er lítið trippi,
Lappi ei stýrir happi,
Lappi með fótum lippir,
Lappi um grundir trappar,

Lappi dreng litlum yppir,
Lappi er mesta mappa,
Lappi kann lítt að skoppa,
Lappi sem æður vappar.

XXXIV.

[*Skjóna.*]

Skjóna áfram anar
eins og naut með þrautum
horuð, hitt er ver[r]a
hún er bjargarlaus núna,
um heykláf opt eg klifa,
engan fæ, þó sæi
hundrað í hópi standa,
harnar nú tíðin þarna.

XXXV.

*Folöld.*

[Útg. bls. 57; Stokkahlaðabók; J Árn. B. XV. 8vo. bls. 69; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. bls. 92—93.]

Folöld fjögur fánefnd mjög hér flakka um bakka,
hestvöl beztu hiklaust þykja
Hnífill, Vífill, Dífill, Fífill.

XXXVI.

*Hestvísa.*

[J Sig. 82. 8vo. bls. 327—28 (syrpa með kvæðasafni Sr Stefáns).]

Sprækur fákur spikaður, vakur strýkur,
sparði ei skarða jarðar harða garða,

---

XXXIV. 5—6. svo í hdr. XXXV. 2. hestvöl mestu St;

hestur reistur hastur sízt á kostum
um hróin, móa fló og snjóva grófir
grjótið brjótast götum út úr lætur,
á glettinn sprett þá nettur rétt er settur,
hrjóstrið slæst þá hraustur lystugt þusti,
á hellum gella og smellum skellir bella.

## XXXVII.

### *Elgur.*

[Að eins fyrri vísan er í Útg. bls. 55; báðar eru í Rask 83. 8vo.; Stokkahlaðabók; British Museum 11,185. 8vo.; J Sig. 82. 8vo.; seinni vísan er þar að auki í Bl = Afskr. J Árn. af Blöndalsbók; J Sig. 239. 8vo.; J Sig. 271. 4to. (Frá Finni); P = J Sig. 271. 4to. (Páls hdr.); Hrafnadalskveri bls. 115; þingeyrabók bls. 172.]

Elgur hefur alsbert
alt höfuð framanvert,
og faxið uppspert,
ekki þykir neins vert,
það er þorvaldar pert,
þó er taglið um þvert
stýft upp við stert,
stórilla var það gert.

———

Elgur fákum fylgir
flestum þeim hinum beztu,
hann er ei hægt að vinna
á hlaupum, það vil eg raupa,

---

hiklaust þykja hestvöl beztu J A. XXXVI. 5. hrjóstast (!) hdr. XXXVII. 5. pert, á þýzku pferd (sbr. orðab. Bj. Halldórss.),

stríðlífa úr stöðu
stendur á ýmsum endum,
hratt úr sporunum sprettir,
speld rífur úr veldi.

## XXXVIII.

### *Einmani.*

[Útg. bls. 57—58; Stokkahlaðabók; J. Stefánssonar hdr.; Rask 83. 8vo.; J Sig. 271. 4to. (orðam. Páls eptir S[r] Grímólfi); British Museum 11,185. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. bls. 93—94.]

Einmani fékk ilt kál,
þá ofan datt í Kílsál,
honum rendi rót hál
í reginhyl með fótprjál,
þá var drukkin drjúg skál,
dró honum í það mál,
óværðar ilt tál
alt féll sem slökt bál.

Einmani er alkliptur,
útigangi nú sviptur,
töðumoði tvígiptur,
trauðlega mér fráriptur,

---

sbr og í daglegu máli perta, pertulegur, pertuskapur o. s. frv; 8. og stórilla Br; 9. Olgeir fákum Bl, Hr; 10. þeim enu P; 12. á hlaupi Bl, F, K, Þ; það má eg raupa Br; 13. stríðlífaður Bl, Br, F, Hr, K; 15. hratt Þ; hart Bl, Hr; hin: hátt; sporum sprettur F, K; 8. speld í skýja veldi, öll, nema F, K og Þ, sem hefur: speld (rífur úr) veldi (skýja). XXXVIII. 1. kál, sbr. tarna er ljóta kálið; 8. stórt bál Sp; stökt bál(!) R; 10. útgangi Útg. (líkl. prentv.): 12. frá sl.(!) Br, Gr; 16.

framhár og uppyptur
á stallinn hátt lyptur,
illa þykist afskiptur,
ef engjum er frá kiptur.

Augun hvetur Einmani
undir skæra flúrsglani,
alvanur stallstjani,
steyttur út á kviðþani,
fram hygg eg topp trani,
tvær hlustir upp spani,
hálskertur sem hani,
hann er enginn kynvani.

## XXXIX.

### *Kokkur,*

sem varð 33 ára og 7 mánaða.

[Afskr. Jóns Árnasonar úr Blöndalsbók; J Sig. 271. 4to. (frá Finni Magnúss.); Bergsbók Jóns Árnasonar bls. 74; J Sig. 239. 8vo.; J Árnas. B. IV. 8vo. bls. 105; Hrafnadalskver bls. 29—30; Þingeyrabók bls. 174. Öll þessi handrit eigna Sr Stefáni þessar vísur; annars finnast þær eignaðar Sr Benedikt í Bjarnanesi Jónssyni (svo sem í Varðgjárbók). Til eru margar aðrar „Kokksvísur", og eignaðar sitt hverjum, svo sem Sr Benedikt, Sr Brynjólfi Halldórssyni í Kirkjubæ og fleirum. Aðrar hef eg eigi séð eignaðar Sr Stefáni en þessar.]

Kostahestur Kokkur var,
kunni að renna á bölunum,

---

ef útigangi Gr; ef enginn Sp o. fl.; 22. og tvær Br; 23. hauskertur Br, S; 24. kinnvani(!) Br. XXXIX. 6. vöru

frár að hurra fótasnar,
fyrstur í hestatölunum,
liðugur, greiður lengdi far,
líkur vökru hvölunum,
pipur hljóp og skarpt úr skar
skeiðin hörð á mölunum,
tagli fylgdu teygingar,
sem trítill lét á fjölunum,
kvikur lék sér kostarar,
þá kom hann framan úr dölunum,
kunnur mönnum hér og hvar
helzt af listaskjölunum,
fótasnotur brátt af bar
bikkju, er gekk á sölunum;
vakur þykir mörgum mar,
menn það sanna í tölunum,
en þeir kunna ekki par,
eins og svín í kvölunum,
Bleikur, Hroki og blakkar þar
bundnir standa á hölunum.
þetta mitt er þanka far
þunt út rent í hjölunum.

---

Kokkur féll án klækja,
Kokks má sakna úr flokki,
Kokk þá riðu rekkar
reisti Kokkur upp lokka,

---

hvölunum (!) Hr; 8. skeiðin hröð Bb, J A, Þ; 9. taglið huldu Bl, Hr; tagli héldu K, Þ; 10. lék á Bb, Bl, K; 12. framan

Kokk má þjóð vel þekkja,
þokkalegur var Kokkur,
Kokkur var beztur blakka,
brokkaði sízt hann Kokkur.

## XL.

*Díli.*

[J Sig. 271. 4to. hdr. Páls „eptir hdr. í safni Jóns Árnasonar“.]

Díli minn er með dáðahestum talinn,
danzar á fótum eins og hann sé galinn,
hleypur sprungur,
hæðir, klungur,
hálsa og tungur
hestur ungur alinn.

Læraþykkur, lendfagur og þolinn,
líflegur, og þéttvaxinn um bolinn,
á hann settur
enginn dettur,
er svo nettur
fótaléttur folinn.

Haus ber nett, en hringvafinn er fótur.
þá honum ríður snotur kesjubrjótur,

---

af Hr, J A, þ; 13. hér og þar Bl, J A, K, þ: 16. er sl. J A; 18. í fölunum Bl, Hr, þ; 19. annar kunni Bb; er þeir Bl, Hr, J A, K, þ; 23. þankasvar Bl, Hr, J A, þ; 24. þurt út J A; 29. nam þjóð þ; 31. var sl. þ. XL. 26. valla hvergi

rennur bala,
holt og hala
í hægum kala
sem ein svala skjótur.

Tíu gildir taldir og einn dalur
títt mér fyrir hann býður margur halur,
en eg hneigi
og þeim segi
á ýmsa vegi,
að folinn sé ei falur.

Um hófafílinn hirði eg ei fremur spjalla,
hans mun líkinn hvergi finnast valla,
því skal gagur,
þurr og magur
þundar bragur
niður ófagur falla.

## XLI.

### Jarpur deyr, krummar kætast.

[Hálfdánarbók mín; Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo.]

Folinn liggur fljóts við rönd
firtur jörpu skinni,
ber er hryggur, en burtu önd,
bylgjan á honum grynnir.

(= valla neinstaðar), syðra og eystra. XLI. 6. um folalds

Krummar hafa krás við fljót,
kroppa um folans leggi,
á kirkju skrafa, kukka í grjót,
kvíða ei vind né hreggi.

## XLII.

### *Folaraunir.*

[Útg. bls. 130—31; Hálfdánarbók mín; Stokkahlaðabók; Rask. 83. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. bls. 216—17. Seinasta vísan er prentuð í Dr. Guðbr. Vigfúss. Corpvs poeticum boreale II. bls. 414.]

Þannig Narfi tæpur í trú
talar hinn orðasnarpi:
Eineygður er orðinn nú
minn eldishesturinn jarpi.

Angrið vefur mig vont af því
og vætir sjónarbauga,
að krummar hafa nú kroppað í
klársins hægra auga.

Honum mun ei, þar held eg á,
héðan af vænt að þeisa;
hlýt eg að segja fyrðum frá
folinn er orðinn reisa.

---

leggi R, Sp. XLII. Fyrirsögn svo í H E og er þar flokkað með Hestavísum; Harmagrátur Narfa, hin; 4. minn sl. Útg; 13. um móinn H E; 20. ekki skal þó, Corp. poet. bor.

Hoppar um móa hrafna ös,
hestinn lét eg trauður,
áðan dró hann nokkuð nös,
nú er hann út af dauður.

Mér réð falla fákurinn
fram úr öllum máta,
þar fór allur auður minn —
ekki skal eg hann gráta.

## XLIII.

### *Blængur.*

[Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; F = J Sig. 271. 4to. (úr Finns safni Magnússonar); J Sig. 239. 8vo.; J Sig. 271. 4to. með hendi Páls eptir handriti Sr Grímólfs; British Museum 11,185. 8vo.; Þingeyrabók bls. 173—74; Hrafnadalskver bls. 115; J Sig. 82. 8vo.; J A = J Árnas. B. IV. 8vo. bls. 115—16; Bergsbók Jóns Árnasonar bls. 75; Hálfdánarbók mín. Varðgjárkver eignar vísurnar Sr Benedikt Jónssyni í Bjarnanesi.]

Séra Stefán kvað:

Blæng greini eg geran,
glatt töðu sker hann,
vel ölum vér hann,
varla út sér hann,

---

XLIII. Fyrirsögn: Um Blæng Sr Stefáns Ólafssonar Br (önnur erindaröð); hdr. skr. ýmist Blængur, Blaingur, Blankur (sbr. XIV.); 1. geri eg geran R, Sp; reyni eg beran Bb, J A; reyni eg geran (!) Br, Hr; 2. því glatt H E, Br, Hr; brátt töðu Bb, J A; 4. svo varla Bb, Br, H E, J A,

alkliptur er hann,
allvel sig ber hann,
stórstigur fer hann,
Styrbjörn fékk mér hann.

Ingimandur í Sveinungsvík kvað:

Blæng átti eg beztan,
blakk allra mestan,
ungan, ólestan,
opt nasaflestan,

---

St; 7. stórstigult Gr; stórstigum Br, Hr; stuttstígur St, Sp; röð línanna er önnur í Sp, St; 8. Styrbjörn mér fékk hann(!) HE; 9. „Um Blæng Sr Stefáns. Ingimundur kvað" Br; öll handritin greina ei hvað hvor hafi kveðið. Ingimundur í Sveinungsvík er Jónsson, og hefur verið uppi á 17. öld, samtíða Sr Stefáni. Kvæði hans eru nú flest týnd. Hann hefur ort Nitida rímur hinnar frægu, sem byrja svo:

Skáldin forðum skilningsgóð &c.

10 að tölu, og eru þær til enn, og finnast í safni Jóns Árnasonar A. III. 8vo., og afskr. þar af í Páls safni Nr. 1. 8vo. Ingimundur er nefndur í skáldatali Þorvarðar Hallssonar í Búlandsnesi um miðja 18. öld (1758), 10. er.:

Ingimundur með öðrum
í bjó Sveinungsvík,
mætur máls af fjöðrum
menja gladdi brík,
hreinan hugvitsanda
horskur bera vann,
þó í striti standa
stoltur þyrfti hann &c.

heygæðum hrestan,
hraðfara sést hann,
seldi eg samt presti hann
í sumar horklestan.

Séra Stefán kvað:

Sagði eg, þegar sá hann,
sízt skyldi eg ljá hann,
mig bera má hann,
mikið er að slá hann,

---

Annað skáldatal eptir ógreindan höfund, miklu lengra en þorvarðar, en ort um líkt leyti eða kanske fyrri, getur Ingimundar í 5. er.:

Ingimundur óðs föngum
allvel hagaði snjallur,
í Sveinungsvík sverða hlynur
sóaði Boðnar flóa &c.

Ingimundur er föðurbróðir Gísla Tómassonar þess, sem sumstaðar er eignað kvæðið:

Í einu koti eg var nótt
þar aftök voru af flóunum &c.

Annars er það kvæði venjulega eignað S[r] Hallgrími Péturssyni. Sveinungsvík er í þistilfirði í Norðurþingeyjarsýslu. 11. Bb, J A; blakk þann að vestan Hr; hin: blakk fyrir vestan; 12. ungan, aflbeztan F, K; aflmestan Hr, þ; 14. á laufgrési lézt hann Bb, F, Hr, J A, K, þ; lífgrösum hrestan Br; 15. lífaður sést hann Bb, Hr, J A; lífgrösin hrestu hann F, K, þ; 16. seldi eg síbeztan F, Hr, K, þ; seldi eg svo fyrir vestan Bb, J A; seldi eg ólestan Br; 19. sagði er sá H E; þegar eg sá Hr; þá sá Gr; þegar er F; 20. sízt vildi H E, F, K; mundi eg Br, Gr, Hr; 23. feitan og F; 24.

fiman og fráan,
forgóðan, háan,
öllum lízt á hann,
enginn skal fá hann.

Ingimundur kvað:

Mann bera má hann,
mikið er að ljá hann
þeim, sárt gerir slá hann
um svellísinn bláan,
hnarreistan, háan,
holdugan, fráan
svo vil eg sjá hann,
séra Stefán á hann.

Sel mér svartgráan
söðulblakk smáan,
fótgóðan, fráan,
fyrir mig brá hann,
víst vil eg fá hann,
verðkaupa má hann,
þegar eg á hann
þér skal eg ljá hann.

---

fallegan Gr (orðam.); hnáan Gr, F, Hr; fargóðan, háan K: 25. svo máttu sjá hann St, K, R, J A, Bb, Sp, Hr; 26. skal þó Gr, Þ; Séra Stefán á hann Bb, Hr, J A, K, R, Sp, St: 27—35. vantar í Bb, F, K, J A, R, St, og má kanske skoða þessa vísu sem aðra útgáfu af nærstu vísu á undan, og þeim sé þannig ruglað saman í hdr., en þó mun það naumast vera; 32. hnakkreistan Gr, Sp, Þ; 36—43. að eins í St, R;

[Séra Stefán kvað]:

Hestval má gera hann,
hvar sem að fer hann
búning sinn ber hann,
brav vin fékk mér hann,
um svartnættið sér hann,
sílipur er hann,
nærsta nett fer hann,
og nú gef eg þér hann.

## XLIV.

*Gosavísur séra Þ[orsteins] J[óns]s[onar] til séra S[tefáns] Ó[lafssonar].*

[Hálfdánarbók mín; í henni einni eru vísurnar allar; 9—16. er auk þess í Útg. bls. 58—59, og er sú vísa eignuð þar séra Stefáni, sem er augljóslega rangt, hdr. Jóns Stefánssonar, Stokkahlaðabók, Rask 83. 8vo. og J Sig. 82. 8vo. bls. 95—96. Fyrir ofan vísuna stendur í St „Sr Þ. J. S.“ og fyrir ofan vísurnar í HE stendur: „Gosavísur Sr Þ. J. S. til Sr S. O.“ Þessi „Sr Þ. J. S.“ getur ekki verið annar en séra Þorsteinn Jónsson, sem orðinn er prestur á Svalbarði í Þistilfirði 1650 (sbr. svar Sr Stefáns 29. Þistilfjarðar því prest o.s.frv.). Sr Þorsteinn verður prestur á Eiðum 1671, og deyr þar 1699, og hefur þá níu um sjötugt. Hann var sonur Sr Jóns Runólfssonar gamla á Hrafnagili, sem dó 1682, og hafði þá tvo um tírætt, en bróðir Mag. Runólfs Jónssonar, sem var rektor á Hólum (d. 1654), og ritað hefur: Homagium is-

---

45—52. í R, Sp, St, F, K; 46. hver, sem að sér R; 49. svartnætti R; 52. og sl. Sp. 44—52. sérstök vísa í F, K með fyrirsögn: Héri (hestnafn); 45. Hrafnbrúnan hérann F, K; 46. hestval má gera hann F, K. XLIV. hann hamar

landicum Hafniæ 1650 4to., Grammaticæ islandicæ rudimenta Hafniæ 1651, 4to., Oxford 1688, 4to., Lingvæ septentrionalis elementa Hafniæ 1651. 4to. og Disputationes physicæ XII, Hafn. 1652. 4to. S[r] Þorsteinn „var vel að sér i mörgu, hélt opt barnaskóla, og undirbjó unglinga vel til lærdóms" (Prestaæfir S[r] Jóns Halldórssonar, Rask. 54. 4to. bls. 24).]

Heyri eg þér hafið frétt
hólleysið ásett
yðar klár við gómglett,
Gosi er hans nafn rétt,
há þá gat holdflett
haustyrja mjúklétt,
eg vil það sé útslétt,
hann eigi neinn í preststétt.

Gosi lítið lof fær
lendmjór með þunn lær,
hýmir hann og höm klær
hvar sem undir skjól nær,
á óland sér upp slær
eins og kálfur vindær,
hríðblautur, húskær,
hann er varla mannbær.

Hokinfættur, heyr raup,
hveljur hann opt saup,
úr haga skýzt með skeiðhlaup,
úr skýjum þá dögg draup,

---

sig og höm klær Útg, S, R, St, Sp; 13. á ólönd S, R, Útg, Sp; í ólönd St; 16. hann er ekki Útg. R, S, Sp, St. Svar

að skúta hverjum kringkraup
sem köttur við tólaup,
þér hafið átt við ölstaup
óþarfa slíkt kaup.

---

*Svar séra Stefáns til séra Þorsteins.*

[Útg. bls. 59—60; Þingeyrabók (1. vísan); Hálfdánarbók mín bls. 68; hdr. Jóns Stefánss. (brot); Stokkahlaðabók; Rask 83. 8vo.; J Sig. 239. 8vo. (1. er.); J Sig. 271. 4to. (orðam. Páls eptir S[r] Grímólfi); British Museum 11,185. 8vo.; Páls safn Nr. 1 8vo. XXII. orðam. í expl. hans; J Árnas. B. XVIII. 8vo. bls. 68—69; J Sig. 82. bls. 96—99.]

Gosi frá mér greitt fló
götu þá í fjall dró,
frá eg hann aptur fanst þó,
er fyltist bygð af haustsnjó,
hans voru þunn þjó,
þar með lendin of mjó,
strax eg honum stall bjó,
styrknaði hann svo eg hló.

Yður ber þökk þýð,
að þér hans felduð helsklíð,
og villu strangt stríð
stiltuð með hót blíð;

---

séra Stefáns. Fyrirsögn í St: „Andsvar til S[r] Þ. J. S.“ 1. Glói frá mér Br; 4. bygð með H E; full var bygð af K, Þ; 6. lendin örmjó Br, Gr; 8. hann, en eg hló Br, H E; 10. misklíð Útg, J A; hans bættuð Gr; styttuð Br; helklíð H E;

nyrðra tepti hörð hríð
hvert strá um lönd víð,
því er hann ei neitt níð
þó nauðbeygði sú tíð.

Hold er beinum fjær frá
fagurt, sem menn tjá,
þar ófrýn er að sjá
yfir sinum tóm há;
ef sældvanir sult fá
sjást láta fyrst á,
þessi sanna mál má
minn jór, er við brá.

Hef eg nú hans hold fest
heyi á, sem glögt sést,
svo að fælast sí-lest
svellin hans járn hvest,
þistilfjarðar því prest
þori eg nú með raup mest
að skora á hólm, þar skref sést
til skeiðs á sínum góðhest.

Hvort þá er fyrir grund, grjót,
Grímnis beðju mein ljót
eða Ýmis svörð-sót
sveita hrært við ármót,

---

13. veðra tepti Gr; nyrðra töpt hörð hríð Sp; 15. er hann ekki Br, J A; 17—24. vantar í Br; 19. þar ofrýr S; var að J A; 20. yfirsýndum H E; 23. þetta sanna J A; 27. svo að skaði J A; sú lest(!) Sp: 29. þistilfjarðar prestur = Sr þor-

minnu skal gjarðafíll fót
flytja yfir hvern hnjót,
þá er sem hepti næm nót
norðlenzkan reiðskjót.

---

Magna föðurs múrhnign
maltið Yggjar blákalt
bið eg virði bezt,
ýkjanna í óðs vök
iðan staldri svo við
snáka fári fest;
sunnusmiðar sáðmann
setur Boðnar gert hret
í arm þeim æzta prest,
líka Menju mjöls eik,
með greinum þér ein
er eykur yndið flest.

## XLV.

*Útmálun hins vænsta reiðhests.*

Búnaðarbálkur (Georgica) Virgils III. 75—88.

[Útg. bls. 50—51; J Stefánss. hdr. (brot); Grundarkver (tvö síðust erindin); Stokkahlaðabók; Orðam. í expl. Páls; J Sig.

---

steinn á Svalbarði; 34. Grímnis beðjan meinljót Gr, Sp; Gríms beðja meinljót Br; beðja meinljót J A; Grímnis beðin ofljót H E; 35. ellegar Ýmis Br; svörðs sót H E, R, Sp, St; 36. svita Br; hætt Gr; 38. feta yfir Br; 40. þann norðlenzka Br; 41—52. er í H E, P, R, S, Sp, St; 41. á að vera mannkenning; 43. að virði H E, P, R, Sp; 45. standi svo við H E; 52. yndið bezt S, St: yndi mest P. XLV. Fyrirsögn:

82. 8vo.: Þingeyrabók; J Sig. 271. 4to. (með hendi Halldórs Hjálmarssonar); J Sig. 271. 4to. (orðam. Páls eptir Sr Grímólfi): K = J Sig. 239. 8vo. (að eins 1. vísan); British Museum 11,185. 8vo.; Br$_2$ = British Museum Nr. 11,175. 8vo. fol. 151 a—151 b; Hálfdánarbók mín; tvær seinustu vísurnar eru þar skrifaðar „ex autogr.", og er því enginn orðamunur tilfærður við þær, en eru eingöngu teknar eptir H E. Hinar tvær fyrstu eru þar líka, en ekki eptir eiginhdr.]

Vittu að folinn fullhátt
í feitri snemma akurbeit
keyrir hófa kynstór
og kringvefur bein slyng,
rásar fremstur leið laus
og legst á móðu strangt flóð,
óragur yfir brú
er ekki sá né fyr gekk.

Hræðist bresti og brak sízt,
ber sig hátt svo vel fer,
snoðugt hefur höfuð
hann og kviðinn léttan,
sældarlegur á hrygghold,
í hrósun vöðva augljós,
móðugt lífið, brjóst breið
bera virðist með sér.

---

Descriptio equi Br$_2$. 1. fullskjótt H (orðam.), P, Þ, Br$_2$; 2. í feitri sumar akurbeit Br, Gr: eykur beit(!) Sp; 3. Br, H E, P, Þ, Br$_2$; hin: hann keyrir; 5. rasar Útg; fremst Þ; leið ljós Br; 7. brúr Br$_2$, H (orðam.); 8. sem ekki St, Br$_2$; sá er fyrr Br; 7—8. hræðist bresti og brak sízt — ber sig hátt svo vel fer K, Þ; 13. hryggs hold Br$_2$; 16. virð-

Geðsöm hesta háranð
hefur þótt og móalótt,
en sízt prísast leirljós
í leik reiðar eða bleik,
ef háreysti heyrt fær
af hervopnum fjær sér,
veit ei hvar skal hvíla fót,
hlustir reika af pipurleik.

Titrar liðamót með
móður, líkur eldsglóð,
knýr um nasir megnt más,
mjög vaxið þykt fax,
á hægra liggur halt bóg,
hvylptist lendin tvíbend,
hann holar jörð, en hófs ferð
hvellan gerir dynsmell.

---

Athugasemd.

Í Finns safni (Nr. 181. 8vo.) í British Museum Add. Nr. 11,175. 8vo. fol. 151 b standa þessar vísur rakleiðis á eptir Hestavísum XLV. án fyrirsagnar, og sýnast þær eiga að vera um þýðingu Sr Stefáns á kafla Virgils um hestana:

þyki mér þar hafa spakur
þreksámur að sér tekið
stöku við að víkja
vakurlega tilbaka

---

ast H (hitt í orðam.); 30. hvylptist af hvylptast (hvylpt).

hnokaða herjans mauku
Hnikars fuglar kviki,
slíkan ljóða lykil
lakir ei að sér taka.

Hjörn á hauðri fornu
heitir staður í sveitum
ör hvar eyði(?) fjára (fiaʷ, hdr.)
yfir ræður og lifir,
kann sá Kvásis rennu
kræsilega fram ræsa,
velta viðris salti,
vísu þá eg prísa.

Gimli þeim hinum gamla
Gunnlöð forðum unni,
drakk þá daufa ekki
dregg, sem vær útleggjum,
blökk hefur bjarga skrukka
bikar frá mér vikið
rosta af Rögnis beztum
runnum minnis af brunni.

Í safni Bókmentafélagsdeildarinnar í Reykjavík Nr. 139. 8vo. bls. 39–47 eru „Hestavísur og fleira smávegis eignað því nafnfræga þjóðskáldi séra Stepháni Ólafssyni", með hendi Bergs Guðmundssonar Strandalíns. En þetta mun alt vera ranglega feðrað. Fyrst eru Gránuvísur, sem byrja svo:

Nú er Grána fallin frið,
féll hún hörmulega,
þess eg aldrei bætur bið,
byrgja verð þó trega.

Kvæðið er 15. erindi. Það er eptir Sr Pál Bjarnason á Undirfelli (d. 1838). Þar eru og fleiri Gránuvísur, sem

munu vera eptir hinn sama. Þá koma „Áttavísur eður gamanbögur um mismun sunnan og norðanáttar“, sem byrja svo:

Suðrið: Sunnanvindur sælu mynd
seður lyndi gæðum,
dýrkað (dýrkar, í hdr.) yndis hefur hind,
hnekkir synda mæðum.

Vísur þessar eru 22 að tölu, og er nýlegra bragð að þeim en svo, að þær geti verið eptir S^r Stefán. Þá koma aptur hestavísur „Um Fálka og Gránu“, 3 erindi, „Um sama hest“, 3 erindi, „Um Dreyra“, 2 erindi, „Um Gamm“, 2 erindi, „Um Hauk“, ein vísa:

Haukur augu hefur kvik,
Haukur grænan stýfir lauk,
Haukur keyrs ef heyrir vik,
Haukur þá, sem elding, strauk.

Ein vísa „Um Sprota“:

Sproti hefur listalit,
langan vöxt og drjúgan gang,
lotinn varla fróns um fit,
fangi mót hann reisir vang.

Því nærst kemur ein vísa „um gráan hest“, tvö erindi „um forarmýri þegar búið var að slá og raka hana“, og 8 erindi „um harðan vetur“. Allir þessir kveðlingar eru líklega eptir sama mann, það er að segja S^r Pál á Undirfelli. Sumstaðar er og skrifað með blýant á spássíurnar: „al. S^r Páll Bjarnas.“, „P. B.“ o. s. frv. Þessar spássíuskriftir eru annaðhvort með hendi Páls Pálssonar eða Jóns Sigurðssonar.

## ÓHAPPSREIÐ.

[Rask 83. 8vo.; Páls safn Nr. 1. 8vo. XXIII. bls. 38—39 (eptir afskrift Sr Jakobs Björnssonar af Fitjabók, í safni J Arn. B. XVI. 8vo. bls. 371—72); B = Bmfél. d. á Ísl. Nr. 111. 8vo.; J Sig. 82. 8vo. bls. 122—24. Þessi handrit eigna öll Sr Stefáni þessar tvær vísur. Annars eru það sömu vísurnar og 1. og 4. vísa í Trippuvísum Sr Hallgríms Péturssonar, sem finnast meðal annars í Hrafnadalskveri og Þórkötlu (Bmfél.); sjá: „Nokkur ljóðmæli eptir Hallgrím Pjetursson". Rvík 1885 bls. 95—98.]

Nú er bezt að syngja satt
og segja nokkuð í fréttunum;
það ætlar að ganga einum flatt
út hérna hjá réttunum,
ótemjuna að sér batt,
ekki bjóst við prettunum,
í því merin áfram spratt
upp smámsaman létti honum;
hart hann ofan á holtið datt,
svo hlunkaði í vöðvaklettunum.
Hann þóttist hafa heiminn kvatt
og hrein með ofurgrettunum.

Eggjaður var hann enn á bak,
eg var staddur hjá honum,
kom þá í hann snugg og snak,
í snússara haminn brá honum;

---

3. ætlaði P (varr.), B, Sp; 8. léttunum R; léttonum Sp; 12. hvein með Sp; 15. smuggur og P.

lendarnar fengu og lærin blak
líka kollurinn á honum,
þótti hryggurinn þurfa mak,
þrífernt smér má fá honum,
af buxunum niður lútin lak,
það lukkaðist ekki að ná honum,
hann hljóp á bak og hátt við rak,
vær höfðum oss svo frá honum.

## UM PRELÁTANN.

[A Magn. Nr. 723. 4to. bls. 76; J Sig. 271. 4to., blað með nokkuð gamalli hendi (= B).]

þjórinn Láfi þingær
þegar slepti túnveg,
á síki mýrar saup,

---

Fyrirsögn í B er: „Hestvísa Sr Stephans O. S.“: í A M er fyrirsögn: „Um sama“, því á undan er „Jón Jónsson. Um prelátann“; 1. Lófi B; 9. „kiña laxen“ B. þessi Jón Jónsson er Jón í Vattarnesi. Hann var uppi á 17. öld. Eptir hann á að vera vísan við böðulinn:

Alexander fjölfundinn,
forblindur í syndum
vill granda grályndur
gauks kundi loðhundur,
prettreyndan mér mundu
málsbending samhenda,
þar standi blýbundinn,
ber vönd í tveim höndum.

varð fyrir fúl jörð,
feyrug með blautt leir,
svo díkið varla draup,

---

Hann þótti ákvæðinn. Vísa Jóns um prelátann er svo:

Hvella þeytir þrumgöllu
þambur líkur hafstramb,
þá tekur af gumnum glott,
slattar í þá þjór þróttar,
þétt klappar hverri stétt,
einkum þá úti er vott,
festi að sér flagðsgusti
Fullu banda hýra strind,
en hátt er ei góna gott,
hyggja sér hundar leggi,
hupp þó festi langt upp,
því hveit (svo hdr.) eg það er spott.

Önnur vísa eptir Sr Magnús Ólafsson í Laufási (d. $^{22}/_{7}$ 1636, Ol. Worm. Epist. p. 606) er þar og á nærstu grösum, sem er um eitthvað líkt:

Faðir gerði krosskveðju
að kveikja nýjan fýrleik,
vel var það virt,
súðir lét um vog vaða
vösuður tók höfn nös,
þá frón var fönnum byrgt.
buddusíður slóð sladdi,
Sléttu stefndi til rétt,
hrúts var í maga myrkt,
mellubyrinn Mardallar
mettast vild[i] á naglblett.
Nú var kveðið nokkuð stirt.

ilja varnar húð hál
hitta nam á þann pytt,
svo kyrjalaxinn kraup,
blakki kjóllinn blett fékk,
bíaðist upp skeggstrí,
því ill eru ofurhlaup.

---

þessi vísa Sr Magnúsar finst og í J Sig. 209. 8vo. og Bókmfél. 278. 8vo. (brot). Jón Jónsson í Vattarnesi hefur kveðið rímur af Trójumönnum og Úlfari sterka, og eru hvorartveggju til enn. Trójumannarímur yrkir hann fyrir Jón sýslumann þorláksson, og því eptir 1670, og átti Elín systir sýslumanns að fá þær. Jón segist þá vera gamall og yrkir um vetur. þær byrja svo:

Fróðir meistarar fyr í heim
fóru um löndin víða,
lét sú góða listin þeim
ljóðavers að smíða.

Rímurnar eru 30 að tölu. Í niðurlagi 30. rímu bindur hann nafnið sitt:

Græðisreifar (= i), grundin svans (= ó)
gerði söguna þilja,
nauðin (= n) præla er nafnið hans,
nú mun hægt að skilja.

Rímurnar finnast í Bókmfél. Nr. 147. 8vo., 192. 8vo., 199. 4to., British Museum (Finns safni Magnússonar) Nr. 42 6. Jón þorláksson lagði út söguna.

Úlfarsrímur byrja svo: Meistaraskáldin mentafróð &c., og eru 14 að tölu; þær finnast í A Magn. Nr. 141. 8vo. (heilar), og afskr. þar af með hendi Adeldahls í Ny kgl. saml. 1909. 4to. Hvorugar þeirra hafa verið prentaðar.

